»en Íslendingurinn, sem bjargaði lífi mínu í Klettafjöllunum, hafði styrkan fót og traust hjarta«. — »Og hún hefir ungbarn á höndunum«, sagði móðir mín. — »Það er líka satt«, sagði faðir minn; »en Íslendingurinn, sem lagði líf sitt í hættu fyrir mig, mundi hafa alið upp öll þau munaðarlaus börn, sem til eru á jarðríki, ef hann hefði haft ástæður og tækifæri til þess«. Og faðir minn var nokkuð fastmæltur, þegar hann sagði það. — Foreldrar mínir eignuðust átta börn; og íslenzka ekkjan halta og veikbygða var þeim öllum eins og bezta móðir. Hún hét Svanfríður, en við systkinin kölluðum hana *Auntie*, og við elskuðum hana af öllu hjarta. Hún var mér hið sama og »*Cummie*« (Alison Cunningham) varð skáldinu góða, Robert Louis Stevenson. *Auntie* talaði ensku með mjög útlendum hreim, því að hún var um þrítugt, þegar hún kom til þessa lands, og hafði aldrei inn fyrir skóladyr komið. En enskan hennar hljómaði í eyrum okkar barnanna eins og unaðsríkur hljóðfærasláttur, því að hún sagði okkur *sögur* — sögur, sem voru fagrar, ljúfar og töfrandi, eins og þýðustu vögguljóð; sögur, sem voru hreinar og hollar og hressandi eins og tærasta berglind; sögur um göfugt og elskulegt huldufólk í glæsilegum hamraborgum, og drengilega útilegumenn í grænum afdölum í bláum fjöllum; sögur um góðar stjúpur og fríðar kóngadætur og hreinhjartaðar hetjur; sögur um hið góða og fagra og sanna, sem ávalt vinnur að lokum sigur á öllu illu. — Ísland varð í huga okkar barnanna að einskonar undralandi fegurðar og allsnægta, þar sem fólkið var goðum líkt — var

öllum þjóðum framar að mannkostum, gáfum og líkams atgervi — konurnar eins og Pallas Aþena og Freyja og karlmennirnir eins og Apolló og Baldur. — Við börnin krupum við kné þessarar elskulegu konu og hlýddum á hana hugfangin kvöld eftir kvöld, árið um kring, og drukkum í okkur alt það bezta, sem til er i íslenzkum þjóðsögum að fornu og nýju; og þó lærðum við ekki eina einustu setningu í íslenzkri tungu. — Foreldrar mínir hlustuðu oft á þessar sögur, þó *Auntie* vissi það ekki. Og faðir minn sagði einu sinni við mig og móður mína: »Það var íslenzkur karlmaður, sem forðaði mér við snjóskriðunni í Klettafjöllunum; en það er íslenzk kona, sem er að bjarga börnum mínum undan bóklegu jökulhlaupi, sem nú er að æða í algleymingi yfir hálfan Vesturheim«. — Og eg held að faðir minn hafi skilið til hlítar merkingu þeirra orða, sem hann notaði«.

Frú Norton leit enn þá brosandi til herra La Farge, eins og hún væri að leita hans álits, hvað þetta snerti. — Hann kinkaði kolli ofurlítið, en þagði.

»Og nú veiztu, hvernig það atvikaðist, að eg kyntist íslenzkum sögum, og af hverju mér er svo tamt að minnast á þær í ritum mínum«, sagði frú Norton við mig eftir stutta þögn; »og eg vona, að þú sért mér samdóma um það, að það sé alt því að þakka, að hugprúður Íslendingur var staddur i námaþorpinu i Klettafjöllunum vorið 1879«.

»Já«, sagði eg, »þú hefir án efa rétt að mæla. — En má eg spyrja þig að einu enn, frú Norton?«

»Spurðu hvers þú vilt«, sagði hún.

»Hefir þig ekki langað til«, sagði eg, »að ferðast um nýlendur Íslendinga hér í Ameríku? Og hefir þig aldrei langað til að sjá Ísland?«

»Mig hefir oft sár-langað til að sjá Ísland og kynnast Íslendingum, því að eg hefi enga aðra Íslendinga séð en *Auntie* og þig; en eg hefi aldrei þorað að láta það eftir mér«.

»Þorað?« át eg eftir. »Við hvað ertu þá hrædd, frú Norton?«

»Eg er svo hrædd«, sagði hún, »eg er svo undur hrædd við það — ef eg sé Ísland og kynnist fleiri Íslendingum — að eg fái þá aðra hugmynd um hvorttveggja, að töfra-kastalarnir mínir glæsilegu hrynji til grunna, og að íslenzka þjóðin mín, hin goðum-líka, hverfi með öllu, og að mig geti aldrei dreymt svo dýrðlegan draum aftur. — Eða skilur þú mig?«

»Eg held það«, sagði eg, og eg fann að eg roðnaði í framan.

»Vel og gott«, sagði hún, og það var einkennilegur glampi í augum hennar; »og þá skulum við ekki minnast á það meira«.

Nokkru síðar kvaddi eg frú Norton og herra La Farge. En þegar eg var kominn fram að strætinu, kallaði frú Norton til mín og sagðist enn hafa nokkuð til að segja mér. Og þegar hún kom til mín, sagði hún í lágum róm:

»Eg gleymdi að segja þér eitt, sem þú hefir sjálfsagt gaman af að vita, og það er það, að hann herra La Farge er sonur hennar *Auntie*«.



# UNA.

Þetta eru að eins örfá orð til minningar um íslenzka konu, sem hét Una og var Höskuldsdóttir, en jafnan kölluð *ungfrú Norman* eftir að hún kom til þessa lands. — Um æfi hennar á Íslandi veit eg alls ekki neitt, en mér hefir verið sagt, að hún hafi verið fædd og uppalin á Vestfjörðum, ef til vill við Breiðafjörð, að hún hafi verið af góðum ættum komin — sennilega frá Uður hinni djúpúðgu, eða Melkorku hinni írsku — að hún hafi fluzt til Ameríku árið 1885, og þá verið komin fast að tvítugu.

Eg sá Unu í fyrsta sinni í skógargildi, sem Svíar og Norðmenn héldu í *Stanley Park*, hinum undur-fagra lystigarði Vancouverborgar, vorið 1912. — Það var í það mund, er fjólan var að gægjast upp úr moldinni og hlynviðurinn að skjóta út laufi, í það mund, er litlu lækirnir kútveltust ærslafullir ofan fjallshlíðarnar og glettust við hnöllungana, sem á leið þeirra voru, í það mund, er svalan og músarrindillinn og rauðbrystingurinn tóku að búa sér til mjúk hreiður í kjarrskóginum við sjóinn. — Eg man, að það var bjartur og blíður sólskinsdagur, og að hlíðar Strandfjallanna voru dimmbláar, hnjúkarnir óvenjulega mjallhvítir og

grundirnar einkennilega fagurgrænar. Eg man, hvað hafgolan að suðvestan þaut ljúflega í limi furutrjánna þann dag, og hvað gjálfrið í bárunum við landsteinana var þýtt og viðfeldið, eins og hjal í mjúkrómuðum börnum í fjarlægð.

Una var ein með þeim allra tigulegustu konum, sem eg hefi nokkurn tíma séð. Hún var fremur há vexti, væn sýnum og höfðingleg, og minti á norrænar drotningar til forna, sem Snorri Sturluson kunni svo vel að lýsa. Hún leit út fyrir að vera komin á fimtugsaldur, var nokkuð holdug, björt yfirlitum og hærð kvenna bezt. Og var eins og hárið, einkum yfir enninu, væri úr smágerðum þráðum, af skíru silfri og lýsigulli, í jöfnum hlutföllum, og lá það í fallegum bylgjum í vöngunum.

Eg hefi aðeins einu sinni á æfinni stigið upp á ræðupall í því skyni, að flytja þar erindi, og það var einmitt þenna dag, í skógargildinu í Stanley Park. En hefði eg ekki flutt þar erindi þann dag þá hefði eg að líkindum aldrei kynst Unu Höskuldsdóttur, og ef til vill aldrei heyrt hennar getið. — Erindi mitt flutti eg á ensku, og var það um landnám Íslendinga í Ameríku á síðari árum. Og vissu því allir, sem þar voru staddir og skildu mál mitt, að eg var Íslendingur. Eg fékk góða áheyrn, eins og við var að búast, þar sem áheyrendur voru allir af Norðurlöndum; en það bezta af því öllu var það, að eg komst í kynni við þessa stórmerkilegu íslenzku konu, einmitt vegna þess að eg fékk svo góða áheyrn.

Um leið og eg gekk frá ræðupallinum, kom hún til mín og heilsaði mér innilega, eins og eg væri

bróðir hennar. Hún var í mjög dökkum búningi, rétt eins og hún kæmi frá líkfylgd, jafnvel hanzkarnir á höndum hennar voru biksvartir, og sömuleiðis lítil handtaska, sem hún hélt á. Með henni var gráklædd kona, roskin og lítil vexti; hún var af sænskum ættum, og var nefnd fyrir mér sem *frú Strindberg*, og eg komst að því síðar, að hún var ekkja.

Una ávarpaði mig á íslenzku og sagði mér hvað hún hét. Rödd hennar var sérlega þýð og elskuleg. — Hún kvaðst ekki geta stilt sig um að þakka mér fyrir það sem eg hefði sagt um landnámsmennina íslenzku, einkum landnáms-k o n u r n a r. Og hún sagðist hafa glaðst af því, að eg fékk svo góða áheyrn. Eg sá að hún reyndi til að brosa, en á andliti hennar var þó sá svipur, er bar ljósan vott um angurværð og jafnvel sáran harm. Eg tók líka eftir því, að það var einkennileg móða á augum hennar, en þau voru blágrá, djúp og gáfuleg. — Hún sagðist vera fyrir skömmu komin til Vancouver, en hafa átt heima í nokkur ár suður í borginni Portland í Oregon. Kvaðst hún því engan Íslending þekkja í Vancouver. Spurði hún mig hvort eg vildi vera svo góður að koma heim til sín næsta kvöld og drekka tevatn með sér og nokkrum vinum sínum. Hún sagði mér hvar hún ætti heima, og var það nærri English Bay og skamt frá lystigarðinum. — Eg þakkaði henni fyrir boðið, og hét að koma næsta kvöld að öllu forfallalausu.

Kvöldið eftir, um klukkan átta, var eg kominn að húsi því, er Una bjó í. Það var eitt með allra

fallegustu húsunum við English Bay, og er þá mikið sagt. Og þó það væri ekki mjög stórt, þá minti það mig samt einhvernveginn á höllina Alhambra í Granada á Spáni. Í kringum húsið voru þéttar raðir af trjám og smárunnum. Og var laufið nýkomið út á þeim. En á milli voru grasbalar, eins og dálítil fagurgræn tún. Fram við strætið var all-hár garður, haglega gerður úr hnöllungsgrjóti. Og fyrir hliðinu, þar sem inn var gengið, var rammgerð hurð úr járnslám. Upp að svölunum fyrir framan húsið lágu sjö breiðar tröppur úr graníthellum, og tóku þá við nokkurs konar súlnagöng inn að aðal-framdyrum hússins.

Það var frú Strindberg sem kom til dyra og vísaði mér inn í setustofuna, þar var Una fyrir og nokkrir gestir — menn og konur — alt sænskt fólk, vöxtulegt og vænt sýnum.

Eg hefi þegar tekið það fram, að húsið, sem eg nú var kominn í, hafi verið mjög fallegt að utan. En ekki var það síður skemtilegt að innan, að svo miklu leyti sem eg sá. Allir húsmunir voru af beztu tegund og dýrustu dúkar á gólfi. Á veggjunum héngu myndir, eins og tíðkaðist á heldri manna heimilum hér fyr á árum. Undarlegt þótti mér, hvað allir húsmunir þar voru óvenjulega dökkir, eins og þeir væri hjúpaðir sorgar-slæðum. Jafnvel myndirnar á veggjunum voru í umgjörð úr svartasta ebenviði, en hvergi sást þar gylling á neinum hlut. Ein stækkuð mynd var þar af íslenzkum manni. Sú mynd var þar eins og í öndvegi og hlaut að vekja eftirtekt; hún var í alla staði prýðisvel gjörð. Og strax og eg kom auga á

hana, datt mér í hug kvæðið: »Harmur Jakobs yfir Rakel«, því að myndin var af skáldinu Gísla Brynjólfssyni.

Það var góð skemtun þetta kvöld í þessu fallega húsi við English Bay. Allir virtust leika þar á alsoddi — nema Una ein. Hún var að sjá döpur í bragði. Samt brosti hún að ýmsu, sem sagt var. Og mér duldist ekki, að henni þótti vænt um það að eg kom. Hún var fátöluð, einkum fyrst framan af, en virtist hlýða á samtal gestanna með mikilli eftirtekt. Fjórir ungir menn spiluðu »pedró« um stund í einu horni stofunnar. Una horfði á þá um fáein augnablik, og sýndist mér að hún gefa spilum eins þeirra nákvæmar gætur; gekk svo frá honum og varpaði mæðilega öndinni, eins og hún hefði orðið þess vör, að rangindi væri viðhöfð í spilinu.

Um klukkan hálf-ellefu drukkum við öll tevatn í borðstofunni, og bar japönsk stúlka það inn til okkar og fór að öllu á austræna vísu — að sumu leyti að minsta kosti. Hún var þjónustustúlka Unu og hafði víst verið það um nokkur ár. Hún var lítil vexti, heldur ófríð sýnum, en bauð þó góðan þokka; og var eins og hún hefði, frá upphafi sinna vega, verið til þess ætluð, að bera mat á borð fyrir gesti á stórhöfðingjasetri.

Á meðan við vorum að drekka tevatnið, sem bæði var gott og vel til búið, töluðum við um eitt og annað. Að lokum barst talið að Íslendingum, bókmentum þeirra og tungu. Og var það víst flestum ljóst, er þar voru saman komnir, að Íslendingar væri afkomendur Norðmanna. — Eg tók eftir því, að það var eins og Una vaknaði af

draumi, þegar farið var að tala um þetta. Augun hennar urðu ofurlítið hvöss, og angurværðarsvipurinn hvarf sem snöggvast af andlitinu. Og hún tók töluverðan þátt í þessu samtali.

»Að líkindum«, sagði hún, og talaði ofur-hægt og skýrt, »að líkindum eru það einungis Svíar, Norðmenn og Danir, sem ofurlítið vita um uppruna Íslendinga, enda eru þeir þeim skyldastir. En flestir annara þjóða menn, sem ekki hafa kynst Íslendingum, munu álíta þá náskylda skrælingjunum á Grænlandi og Labrador. Aldrei hefir þjóðerni nokkurra manna í heiminum verið eins alment misskilið og íslenzka þjóðernið Og svo hörmulega erfitt gengur annara þjóða mönnum að skilja það til hlítar, að þeir verða á stundum að afla sér háskólamentunar til þess, og hrekkur hún þó ekki æfinlega til. — Hafi eg, til dæmis, sagt hérlendu alþýðufólki að eg væri íslenzk, þá hefir það annaðhvort haldið, að eg væri fágaður Eskimói, eða þá hitt, að eg væri að spauga«.

Eg man, að gestirnir urðu alvarlegir á svip, þegar hún sagði þetta. Og þá tók ungur maður, sem sat hjá mér, til máls. Hann var bæði hár og herðabreiður og fríður sýnum, en honum var enn ekki sprottin grön.

»Eg skal segja þér nokkuð, ungfrú Norman«, sagði hann, og röddin var karlmannleg, þó hann væri fyrir innan tvítugt: »Svo skyni skroppinn er enginn, sem heyrir um hið dæmafáa afreksverk, er þú hefir leyst af hendi, að hann hugsi, að þú sért af skrælingjum komin. Engin kona önnur en norræn gat staðist slíka eldraun. Og vissulega er-

um við Svíarnir stoltir af því, að slík kona er af sama þjóðstofni og við. — Þú ert afkomandi víkinganna gömlu«.

Allir gestirnir — að mér einum undanskildum — virtust kannast við það afreksverk og þá eldraun, sem hinn ungi, hrausti Svíi átti við. Og allir hneigðu þeir hljóðir höfuð því til samþykkis.

»Við skulum ekki á það minnast«, sagði Una lágt. Og eg sá að angurværðar-svipurinn var aftur kominn á andlit hennar og móðan á augun.

Það var ekki meira um þetta talað í það sinn.

Stuttu síðar kvöddu gestirnir og héldu heim til sín. Klukkan var þ› um hálf-tólf.

Eg var síðastur til að fara. Una og frú Strindberg fylgdu mér út á svalirnar. Úti var glaða tunglsljós og hvöss gola, og það þaut í laufinu. Eg leit út á víkina (English Bay). Bátar tveir voru á sveimi skamt undan landi. En bárurnar gnauðuðu við sandinn í fjörunni.

»Nú þykir þeim gaman að sigla«, sagði eg.

»Já, þetta er fagurt kvöld«, sagði frú Strindberg.

»Hafið þið gaman af að sigla í góðum byr?« sagði eg.

Konurnar þögðu.

»Þegar bjart er og gott í sjóinn?« bætti eg við.

Þær svöruðu ekki. En frú Strindberg kom við handlegginn á mér. Eg þóttist vita, að hún vildi ekki að eg mintist á sjóferð. Eg hætti því að tala um það, og kvaddi konurnar.

»Komdu aftur«, sagði Una á íslenzku að skilnaði; »og komdu oft. Eg þarf um svo margt við þig að tala«.

Eg gjörði eins og hún bað. Eg kom oft í hús hennar það sumar. En sjaldan gátum við talað saman á íslenzku, því æfinlega var einhver hjá okkur; ef ekki gestir, þá var þó frú Strindberg með okkur. Hún fylgdi Unu eftir eins og skugginn hennar.

Næst þegar eg kom þangað, spurði Una mig um margt viðvíkjandi ýmsu íslenzku fólki í Winnipeg, og var auðheyrt, að hún hafði mjög lítið frétt frá Íslendingum um langt skeið. En hún spurði mig aldrei neitt um sjálfan mig. Og aldrei nokkurntíma sagði hún mér neitt af sínum eigin högum. Eg reyndi á stundum til að komast að því, hverra manna hún væri, en eg varð einskis vísari, hvað það snerti. Hún vildi ekkert á það minnast og þagði, ef eg lagði fyrir hana spurningu því viðvíkjandi. Samt komst eg að því, að hún átti húsið, sem hún bjó í; hún hafði keypt það haustið áður, borgað það út í hönd, og flutti sig þangað um vorið. En það var frú Strindberg sem sagði mér mest um þetta.

Eitt kvöld, seint um sumarið, gekk eg með þeim Unu og frú Strindberg yfir að *Coal Harbor*. Þar fórum við yfir brúna og út í skemtigarðinn. Við settum okkur á bekk og horfðum út á fjörðinn (*Burrard Inlet*). Úti var stafalogn og tunglið var lágt á loftinu. Fyrir framan okkur lá Dauðsmanns-ey í sælygnunni, eins og Ormurinn langi við Svoldur. Við sáum ljósadýrð borgarinnar, og heyrðum hávaðann á götunum: skröltið og ýlfrið og tístið í strætisvögnunum. En inni í skóginum að baki okkar var kolsvart niðamyrkur og grafarþögn. — Við

þögðum öll litla stund. En alt í einu benti Una út á fjörðinn og sagði:

»Hann er fallegur hólminn þarna«.

»Já«, sagði eg.

»En einkennilegri eru þó ský-hnoðrarnir í kringum tunglið«, sagði frú Strindberg. Hún sat á milli okkar Unu, og horfði vestur yfir lónið (Coal Harbor).

»Þessi hólmi er til að sjá eins og falleg hófblaðka á lygnu lóni«, sagði Una.

»Einkennileg samlíking«, sagði eg. (Við töluðum öll saman á ensku).

»Heyrist ykkur ekki eins og þýður andvari fari um skóginn?« sagði frú Strindberg.

»Það hvílir einhver töfrablær yfir hólmanum þeim arna«, sagði Una. »Það minnir mig á Gunnarshólma«. Og hún leit til mín um leið og hún sagði það.

»Gunnars-hólmi hlýtur að vera, eða hafa verið, fegurri en þessi«, sagði eg.

»En hvað skuggar furu-trjánna eru orðnir langir«, sagði frú Strindberg. Hún leit inn í skóginn.

»Látum hann vera fegurri«, sagði Una; »en þetta er fallegasti hólminn hér. Eg hefði átt að kaupa hér blett og byggja lítið hús; því að hér er fegurra útsýni en við English Bay«.

»En mér þykir lónið hérna svo ósköp ljótt, þegar útfall er«, sagði eg.

»Það verður skamt þangað til tunglið gengur undir«, sagði frú Strindberg.

»Hvað skyldi þessi hólmi heita?« sagði Una og leit til mín á ný. »Eða er hann of lítill til að bera nafn?«

»Nei, svo lítill er hann ekki«, sagði eg. »Hann er kallaður Dauðsmanns-hólmi *(Deadman's Island)*«.

Frú Strindberg ýtti í mig olnboganum undur hægt. »Er andvarinn að norðan, eða hvað?« sagði hún, og var eins og hún fyndi til kulda milli herðanna.

»Það er óheppilegt nafn«, sagði Una; »það er alveg eins og þegar fallegasta landið í heimi var kallað Ísland. En því var þessi hólmi kendur við dauðan mann?«

»Nei, horfið þið bara á skýin í kringum tunglið«, sagði frú Strindberg. »Eru þau ekki rétt eins og fagrar marmara-hallir með silfur-þökum?«

»Mig langar til að vita, af hverju nafnið er dregið«, sagði Una. Og eg heyrði að henni var mikið áhugamál að vita það.

»Mér hefir verið sagt —« sagði eg.

Frú Strindberg ýtti í mig olnboganum á ný. »Eru ekki marmara-hallirnar í kringum tunglið að verða skýrari og glæsilegri; og eru ekki gluggarnir á þeim með gotnesku lagi?« sagði hún.

»Nei, eg sé þar engar marmara-hallir, né gotneska glugga, frú Strindberg«, sagði eg. »En mér sýnast skýin ekki ósvipuð —«.

»Hvað hefir þér verið sagt?« sagði Una með dálítilli ákefð og leit til mín.

»Já, mér hefir verið sagt, að skipbrotsmaður hafi komist þar á land og — dáið þar«.

Enn einu sinni ýtti frú Strindberg í mig olnboganum, og öllu fastara en áður; og þóttu mér þessi olnbogaskot hennar nokkuð kynleg. »Nei,

segðu mér, hvað þú sérð í skýjunum, sem eru í kringum tunglið«.

»Eg sé þar alls ekki neitt, nema ef vera skyldi skip á siglingu — og ef til vill í sjávarháska«.

Nú ýtti frú Strindberg ekki í mig olnboganum. »Þei!« sagði hún í lágum hljóðum og leit til skógarins, »var það grátstuna, þetta, eða var það þyturinn í kjarrskóginum þarna yfir frá?« Hún stóð á fætur um leið og hún sagði það. Og mér sýndist hún vera náföl í framan; en það gat hafa verið glampi frá sjónum, sem orsakaði það.

Við Una stóðum líka upp af bekknum. Og við gengum öll þegjandi yfir brúna, sem lá yfir hið týnda lón (að öðru nafni *Coal Harbor)*, og héldum svo vestur að English Bay, og yfir að húsinu hennar Unu. Þar við hliðið kvaddi eg hana og frú Strindberg.

Tunglið var nú gengið undir. Og marmara-hallirnar hennar frú Strindberg voru horfnar, og eins skipið mitt. En í þess stað voru nokkrir svartir skýhnoðrar á víð og dreif niðri við sjóndeildarhringinn.

Á leiðinni heim til mín var eg að hugsa um það, hversu undarlega þögular konurnar hefðu orðið, þegar eg gat um skipið, sem eg þóttist sjá í skýinu. En eitt var það sérstaklega, sem mig langaði til að vita, og það var um afreksverk það, og þá eldraun, sem hinn ungi Svíi hafði minst á í samkvæminu um vorið.

Rúmum tveimur mánuðum eftir þetta kom eg á ný í hús Unu. Það var um kvöld. Úti var koldimt og hráslaga kuldi og úði úr lofti. — Frú

Strindberg kom til dyra og bauð mér inn í setustofuna. Nú var Una ekki heima. Hún hafði farið daginn áður suður til Portland í Oregon, og ætlaði að vera viku í burtu. Svo nú voru þær frú Strindberg og japanska stúlkan þar einar. Og þetta kvöld höfðu þær kveikt eld á arninum í setustofunni. Og þar sátum við þrjú dálitla stund.

»Manstu, að eg ýtti í þig olnboganum nokkrum sinnum, þegar við sátum saman á bekknum í lystigarðinum í haust?« sagði frú Strindberg við mig, og á andliti hennar var ströng alvara.

»Mig rámar í það«, sagði eg.

»En skildir þú mig þá?« sagði frú Strindberg og horfði framan í mig.

»Nei, eg hefi sjálfsagt ekki skilið þig«, sagði eg. »En við hvað áttir þú?«

»Eg var að reyna til að láta þig skilja það, að mér væri það ekki geðfelt, að þú mintist á skip á siglingu, eða skip í sjávarháska, eða skipbrots-fólk, svo ungfrú Norman heyrði«.

»Hefir hún þá verið í lífsháska á sjó?«

»Já. Og liðið þar fádæma hörmungar«.

»Var það þá, að hún leysti af hendi hið mikla afreksverk, sem hinn ungi Svíi mintist á í samkvæminu í vor?«

»Já. Það var næstum yfirnáttúrlegt þrekvirki«.

»Og var það í sama sinn, að hún stóðst þá miklu eldraun, sem hinn ungi maður talaði um?« spurði eg.

»Já, vissulega«, svaraði frú Strindberg. »Sú eldraun var afskapleg, óttaleg, alveg óumræðileg!«

»Máttu segja mér eitthvað um það?« sagði eg hálf-hikandi.

Frú Strindberg þagði litla stund.

En japanska stúlkan tók arinjárnið og skaraði í eldinn — á austræna vísu. Það snarkaði í trédrumbunum, neistarnir flugu í allar áttir og hurfu á einu augnabliki.

»Eg get ekki sagt frá því, eins og það gekk til«, sagði frú Strindberg. »Eg hefi ekki orð til að lýsa því, og mér hrýs hugur við að minnast á það. En svo mikið get eg sagt þér, að ungfrú Norman sýndi þá svo mikið hugrekki, svo mikið þrek og þolgæði, svo mikið veglyndi og mikla manngæzku, að fá dæmi eru til slíks. — Enginn veit betur um það en eg, því að eg var þar með henni; eg sá það og reyndi. Hún er lífgjafi minn; og það, sem meira er um vert, er það, að hún bjargaði ungbarninu, sem eg bar á handleggnum — barninu hans Carlsons, miljónaeigandans, í San Francisco. Eg segi, að hún bjargaði barninu hans Carlsons. Það var ársgamalt piltbarn. Eg var barnfóstran. Carlson og frú hans voru farin á undan til Portland í Oregon; en eg lagði af stað fimm vikum síðar, því að barnið var vesalt, þegar foreldrar þess urðu að leggja af stað norður. Eg tók mér far með stóru þrí-möstruðu gufuskipi, sem ætlaði til Portland. — Þá var barnið orðið vel heilbrigt. — Svo kom ógurlegt ofsaveður af hafi, þegar við vorum komin nokkuð norður með ströndinni. Skipið barst að lokum upp að landi, lenti á grynningum — strandaði — og liðaðist í sundur. Það var seint um kvöld. Við ekkert varð ráðið; grunnsævis-öldurnar gengu yfir skipið; bátarnir komu að engu haldi, og ómögulegt var að komast

á þurt land. — Á skipinu voru tvö hundruð farþegar; og skipverjar voru áttatíu. — Mörgum skolaði strax útbyrðis. — Skipið fylti af sjó, eftir örstutta stund. — Þeir, sem ekki lentu strax í sjóinn, reyndu í myrkrinu að klifra upp í reiðann og halda sér þar; en margir sleptu tökum fyr eða síðar og hröpuðu ofan í brimið — í dauðann. — Eg gat einhvernveginn skriðið með barnið að reiðanum á fremsta mastrinu. Þar stóð kona, og var hún í þann veginn, að klifra upp í reiðann. Það var ungfrú Norman. Hana hafði eg aldrei séð áður. — »Hvað á eg til bragðs að taka?« hrópaði eg í dauðans angist. Konan heyrði, hvað eg sagði, þó veðrið væri ólmt og sjórinn æddi yfir skipið. — »Klifraðu upp í reiðann!« kallaði hún. — »En eg kemst það ekki með barnið!« hrópaði eg. — »Eg skal taka við barninu«, sagði hún. Og hún tók drenginn ársgamlan, og vafði hann að sér. Þar næst klifraði eg nokkuð upp í reiðann og hún á eftir með barnið. — »Haltu fast!« sagði hún við mig. En eg fann, að eg mundi ekki lengi geta haldist þar við, því að eg var, og er, svo kraftalítil. — »Eg dett bráðum!« sagði eg nokkru síðar. — »Vertu hughraust!« sagði hún. Og um leið brá hún um mig kaðal-spotta, sem hékk þar í reiðanum, fastur á öðrum enda. Og eg hafði góða fótfestu í kaðal-stiganum. Eftir það þurfti eg ekki eins mikið á mig að reyna, til þess að halda mér í reiðanum. Þetta bjargaði lífi mínu áreiðanlega. — Og svo liðu mínúturnar, og mínúturnar urðu að klukkustundum. — Veðrið ólmaðist, brimið sauð og vall, og stórsjóirnir gengu yfir skipið. Fólkinu,

sem hékk í reiðanum, fækkaði smátt og smátt. Menn og konur urðu örmagna, hendur þeirra dofnuðu og kraftarnir þrutu. Jafnvel sterkir karlmenn létu hugfallast, gáfust upp og hröpuðu ofan í sjóinn og — biðu bráðan bana. Eftir því, sem lengur leið, því fleiri urðu þeir, sem hröpuðu úr reiðanum. — En ungfrú Norman hélt með annari hendinni dauðahaldi í reiðann, en hinni utan um barnið, sem var vafið í þunt sjal. Hver af öðrum hröpuðu mennirnir fram hjá henni — einn og einn í senn – en hún lét ekki hugfallast. — Og svo leið tíminn — klukkustundirnar urðu að dægrum. Veðrinu slotaði smátt og smátt, unz að algjörlega lygndi. Og að síðustu var okkur bjargað. En það var fullum þremur dægrum eftir að við höfðum klifrað upp í reiðann á skipinu. — Enginn, sem ekki hefir reynt annað eins, getur gjört sér rétta hugmynd um þær hörmungar, sem ungfrú Norman leið þau þrjú dægur, er hún hékk þar í reiðanum. — Þrjú dægur með barn í fanginu. — Það er ómögulegt að segja frá því; engin orð geta lýst því. En þetta er sagan í fám orðum, og ekki einu sinni hálf-sögð«.

Japanska stúlkan skaraði í eldinn á ný, og aftur snarkaði og small í skíðinu.

»Lifði barnið?« spurði eg eftir nokkra þögn.

»Já«, sagði frú Strindberg. »Hann er nú átján ára gamall. Þú sást hann fyrsta kvöldið, sem þú komst hingað«.

»Faðir hans hefir launað þetta drengilega?« sagði eg.

»Faðir hans er mikilmenni«, sagði frú Strind-

berg. »Og ungfrú Norman hefir haft nóg fyrir sig að leggja síðan«.

»Hún virðist vera rík«, sagði eg.

»Nei, ekki rík — en hana mun aldrei skorta fé til að gjöra gott. — Hún er altaf að gjöra gott og gleðja fátæka, en hún vill ekki að neinn tali um það. Og mér er hún eins og bezta systir, og eg get ekki við hana skilið. Eg hefi beðið hana að lofa mér að vera í hennar húsi þangað til að eg dey. Og hún hefir lofað mér því. — Eg tala við hana um alt, sem mér býr í brjósti. En eg hefi ávalt forðast að minnast á skip og skipreika við hana, því að mér finst endilega, að það hljóti að vekja sársauka hjá henni, að hugsa til þeirrar skelfilegu þrautar, sem hún varð að reyna á skipinu forðum«.

»Á hún hér engin skyldmenni?« spurði eg.

»Eg veit ekkert um fólk hennar«, sagði frú Strindberg, »því að hún minnist aldrei á það. Samt held eg að hún eigi engin nákomin skyldmenni hér í Ameríku. En hún mun hafa átt — unnusta«.

»Og hvað varð um hann?«

»Hann er löngu dáinn — dó skömmu eftir að þau komu til Ameríku — druknaði í Michiganvatni — var að bjarga manni og — druknaði«.

Nú varð löng þögn.

Japanska stúlkan skaraði enn einu sinni í eldinn. Og nú var eins og löng grátstuna kæmi frá skíðinu á arninum og færi um herbergið.

Skömmu síðar kvaddi eg frú Strindberg og japönsku stúlkuna og fór heim. Og úti var kolniðamyrkur og úði í loftinu.

Eg kom oft eftir þetta í hús Unu. En aldrei fékk eg meira að vita um hagi hennar og liðna æfi.

Og nú er hún dáin.

En frú Strindberg býr enn í fallega húsinu við English Bay. Hún situr oft úti á svölunum á kvöldin, þegar veðrið er hlýtt, og tunglið er lágt á vesturloftinu. Og þegar vindurinn þýtur í laufi hlynviðar-trjánna í garðinum, þá er eins og hún hlusti — eins og hún eigi von á því, að einhver komi, sem henni er kær. Og sjálfsagt sér hún enn með köflum marmara-hallirnar fögru í skýjunum í kringum tunglið — marmara-hallirnar með silfur-þökunum og gotnesku gluggunum.



# ERFÐAFÉÐ.

Mig hafði lengi langað til að koma til Hónólúlú í Hawaiieyjum. Og loksins fékk eg þá ósk mína uppfylta, því að seint í febrúarmánuði 1911 var eg fluttur veikur þar á land, og lá eg þar á sjúkrahúsi rúmar þrjár vikur. Í fyrstunni hafði eg ætlað alla leið til Pagó-Pagó í Tutúila-ey (í Samóa-eyjum) með gufuskipinu *Equador*, sem flutti þangað vörur frá San Francisco; en sökum þess, að eg veiktist þunglega, nokkru eftir að skipið var lagt af stað frá Ameríku, þá fór eg aldrei lengra vestur á Kyrrahafið en til Hónólúlú.

Eftir að eg var kominn úr sjúkrahúsinu, dvaldi eg enn næstum tvo mánuði í Hónólúlú, og var til húsa hjá ungum prestshjónum, sem komið höfðu frá Portland í Oregon fyrir rúmu ári. Leið mér mjög vel þann tíma, sem eg dvaldi í húsi prestshjónanna, og gekk eg daglega út í hinn fagra skemtigarð borgarinnar, sem nefndur var *Kapíólaní*. — Það er margt til í Hónólúlú, sem hægt er að skemta sér við, því að bærinn hefir á sér stórborgarsnið; þar eru leikhús, bókasöfn, forngripasafn, lystigarðar, strætisvagnar, raflýsing og öll nýjustu menningar-tæki. Og þar að auki er í Hónólúlú frá náttúrunnar hendi svo fagurt útsýni, að

óvíða er annað eins. Borgin stendur við hina undurfögru Óahú-vík á hinni frjósömu Óahú-ey í hinum eldgígaríku Hawaii-eyjum.

Það var einn dag, nokkru eftir að eg var farinn úr sjúkrahúsinu, að eg kom inn á eina skrifstofu gufuskipafélagsins, til þess að sækja tösku, sem mér hafði verið send frá San Francisco. En um leið og eg tók við töskunni, varð eg að skrifa nafn mitt undir móttökuvottorð í bók, sem einn af þjónum félagsins rétti mér. — Þjónninn las nafnið, strax og eg var búinn að skrifa það, virti mig svo fyrir sér fáein augnablik og sagði:

»Þú munt vera af íslenzku bergi brotinn. Eða er ekki svo?«

»Eg er Íslendingur í húð og hár«, svaraði eg og horfði undrandi á manninn. »Og ef til vill ert þú líka íslenzkur?«

»Að vissu leyti«, sagði hann.

»Hvað heitirðu?« sagði eg.

»Eskford«, sagði hann.

»Ertu fæddur á Íslandi?« spurði eg.

Hann ætlaði að svara þessari spurningu minni, en rétt í því var kallað á hann að utan.

»Fyrirgefðu«, sagði hann, og leit til mín sem snöggvast um leið og hann gekk út, »eg skal tala um þetta við þig síðar«.

Eg beið þarna dálitla stund í þeirri von, að hann kæmi undir eins aftur, en mér var brátt sagt, að hann mundi ekki koma aftur inn á skrifstofuna, fyr en eftir hálfan klukkutíma eða meir, svo eg fór rakleitt heim í það sinn.

Mér þótti það nokkuð kynlegt, að eg skyldi rek-

ast þarna á Íslending. Mér fanst samt, að þessi maður væri ekki verulega líkur Íslendingum. Hann var á að gizka rúmlega tvítugur að aldri, og meðalmaður á vöxt, en hann var fremur dökkur á hörund, og hafði svip og andlitsfall nokkuð öðruvísi en alment á sér stað á meðal norrænna manna. Og allar líkamshreyfingar hans, alt fas hans og öll framkoma benti á það, að hann væri uppalinn í Suðurhafseyjum. Það var einungis nafn hins unga manns, sem helzt virtist gefa það til kynna, að hann væri ættaður af Norðurlöndum, en nafnið gat þó verið skozkt.

Strax næsta dag fór eg aftur yfir á skrifstofu gufuskipafélagsins, og spurði eftir herra Eskford. En hann var þar ekki staddur þá. Mér var sagt að hann hefði farið til læknis, til þess að láta draga úr sér sjúka tönn. Eg snéri því heim aftur við svo búið. En nokkrum dögum síðar fór eg enn á ný til þess að spyrja eftir þessum unga Íslending. Og aftur var mér sagt, að hann væri ekki viðlátinn, því að hann hefði þá um morguninn verið sendur suður fyrir borgina og kæmi ekki heim fyr en næsta dag. Eg bað nú um að herra Eskford væri sagt, að eg hefði tvívegis spurt eftir honum; og skrifaði eg nafn mitt og heimilisfang á miða, og mæltist til þess, að honum yrði fenginn miðinn undir eins og hann kæmi á skrifstofuna. Og var mér sagt að það yrði gjört.

Svo liðu tvær eða þrjár vikur. Þá var það einn laugardag rétt eftir hádegið, að ekið var í bifreið heim að húsinu, þar sem eg bjó. Að eins einn maður var í bifreiðinni. Hann gekk að framdyr-

um hússins og spurði eftir mér. Þegar eg kom út til hans, sá eg að þetta var herra Eskford. Heilsaði hann mér mjög vingjarnlega og spurði mig, hvort eg vildi vera svo góður og koma heim með sér. Sagðist hann hafa þar nokkra íslenzka hluti til að sýna mér.

»Eg hefi tekið að erfðum þrjá íslenzka gimsteina«, sagði hann, »og þá verður þú endilega að sjá«.

Eg þakkaði honum fyrir boðið, og sagði að eg mundi hafa mikla ánægju af að tala við hann og sjá þá íslenzku muni, sem hann hefði tekið að erfðum.

Að fimm mínútum liðnum var eg lagður af stað með herra Eskford, og ók hann í fluginu tvær mílur suður fyrir borgina. Námum við staðar við lítið hús, sem stóð í fögrum aldingarði skamt frá sjónum. Var húsið mjög einkennilegt og líktist dalitlum súlnagöngum langt til að sjá, og hengu þar sumstaðar hlífar gegn sólarhita. Er hús með því lagi nefnt *lanai*, og er í raun og veru að eins þak, sem hvílir á fáeinum súlum, en veggirnir eru venjulega grinda-gluggar og forhengi. Og oft má sjá í gegnum endilangt húsið og út í aldingarðinn á bak við.

Við vorum tæpar tíu mínútur á leiðinni suður, og töluðum við fatt þá stuttu stund. En eftir það var ekki þagað.

Við vorum ekki fyr komnir að húsi herra Eskfords, en tvær konur komu út um framdyrnar. Var önnur konan roskin (hátt á sextugs aldri), lítil vexti, fríð sýnum og gáfuleg; hún hafði mikið hár

silfurgrátt, en hörundslitur hennar var fremur dökkur. Hin konan var ung (rúmlega tvítug), há og tíguleg, bláeygð og björt yfirlitum, og hár hennar eins og lýsigull á litinn. Og þóttist eg sjá það undir eins, að þessi unga og myndarlega kona væri af norrænum ættum.

Herra Eskford nefndi mig fyrir þessum konum, og sagði mér að eldri konan væri móðir sín, en hin yngri væri systir sín og héti Sigrún. Þær heilsuðu mér alúðlega og buðu mig velkominn. Og öll mæltum við á enska tungu.

Síðan gengum við öll inn í húsið. Og þar sátum við í mjúkum hægindastólum all-langa stund í svölum súlnagöngum, drukkum þar svaladrykki, sem dökkleit þjónustu-stúlka færði okkur, og töluðum saman.

»Þegar við vissum, að þú varst Íslendingur«, sagði frú Eskford, skömmu eftir að við vorum sezt, »þá langaði okkur til þess, að þú kæmir hingað heim til okkar. En því miður getur ekkert okkar talað við þig á íslenzku«.

»Eruð þið þó ekki íslenzk?« spurði eg.

»Eg er af frönskum ættum«, sagði frú Eskford, »en börnin mín telja sig með Íslendingum, því að faðir þeirra var íslenzkur — fæddur og uppalinn á Íslandi. En nú er hann dáinn. Það eru tvö ár síðan hann dó«.

Eg sá að angurværð greip hana sem snöggvast, og hún horfði út í bláinn dálitla stund.

»Hvað var skírnarnafn hans?« spurði eg.

Frú Eskford leit til sonar síns.

»Faðir minn hét Egill og var Ásbrandsson«,

sagði herra Eskford, og bar nöfnin fram með íslenzkum hreim; »en hann nefndi sig Eskford eftir að hann var farinn frá Íslandi. Hann sagði okkur, að hann hefði alist upp í firði þeim, sem nefndur væri Eskifjörður«.

»Og þær stöðvar langaði hann mjög til að sjá á ný á síðari árum«, sagði frú Eskford. »Og síðasta árið, sem hann lifði, talaði hann oft um það, að sig langaði sárt til að sjá ættjörð sína áður en hann dæi. En dauðinn kom áður en sú ósk hans yrði uppfylt«.

»Var hann lengi búinn að vera hér í Hónólúlú?« spurði eg.

»Næstum átján ár«, sagði frú Eskford. »Við komum hingað sumarið 1891; við vorum þá búin að vera sjö ár saman í hjónabandi; en silfurbrúðkaup okkar var haldið árið, sem hann dó«.

»Hvar voruð þið fyrst eftir að þið giftust?«

»Við vorum fyrstu sjö árin í San Francisco«, sagði frú Eskford. »Þar eru bæði börnin mín fædd. Sigrún er eldri. Hún heitir í höfuðið á móður mannsins míns, en Jean heitir í höfuðið á föður mínum«.

Og frú Eskford leit brosandi til sonar síns.

»En hvaða atvinnu stundaði maðurinn þinn?« spurði eg.

»Hann var lærður trésmiður«, sagði frú Eskford, »en hann komst í þjónustu stóra gufuskipafélagsins í San Francisco, strax og hann kom þangað, og var í þjónustu þess, þangað til að hann dó. — Þegar félagið sendi hann hingað til Hónólúlú, voru laun hans hækkuð. Og síðasta árið, sem hann lifði,

veitti félagið Jean, syni okkar, skrifaraembætti á aðal-skrifstofu félagsins hér, og því embætti heldur hann eins lengi og hann vill og heilsa hans leyfir. — Við eigum húsið, sem við búum í, og aldingarðinn líka. Svo ekki er annað hægt að segja, en efnahagur okkar sé góður, og er það mikið því að þakka, hvað maðurinn minn kom sér vel við húsbændur sína, og hvað hann var reglusamur og hagsýnn«.

»Vildi hann ekki kenna þér íslenzku?« sagði eg og leit til herra Eskfords.

»Faðir minn vildi kenna mér íslenzku«, sagði hann, »en hann hafði jafnan fáar tómstundir, og svo var eg ekki námfús. En hann sagði mér margt um þjóð sína og bókmentir; og eg las margar af gömlu sögunum á ensku«.

»Ef til vill var það mér að kenna, að börnin mín lærðu ekki íslenzku«, sagði frú Eskford, »því að eg lét það í veðri vaka við manninn minn, að ef hann færi til að kenna börnunum okkar íslenzku, þá byrjaði eg líka að kenna þeim frönsku; og útfallið varð svo það, að börnin lærðu ekkert mál annað en ensku«.

»Eg heyri það samt á öllu«, sagði eg, »að hann hefir verið góður Íslendingur«.

»Já, hann vildi ávalt vera Íslendingur«, sagði frú Eskford. »Og einu sinni spurði eg hann, því hann kallaði sig ekki Norðmann fremur en Íslending. En hann kvað það fjarri öllu réttu, því að hann sagðist vera íslenzkur, en ekki norskur, og hann kvaðst einmitt vera stoltur af því, að vera Íslendingur. — Eg man, að eg gladdist af þessu

svari mannsins míns, og mér fanst hann vera meiri maður eftir en áður«.

Rétt í þessu gekk Sigrún inn í næsta herbergi, en hún kom að vörmu spori aftur og hélt á stórri mynd.

»Þetta er myndin af föður mínum«, sagði Sigrún og rétti mér myndina. »Faðir minn var um fertugt, þegar þessi mynd var tekin«.

Mér var starsýnt á þessa mynd. Hún var skýr og vel tekin. Hún var af manni sýnilega ljóshærðum, á bezta aldri, hraustum og glaðlegum, góðlegum og greindarlegum — manni, sem hafði kjark og staðfestu í ríkulegum mæli — manni, sem þar að auki hafði öll þau einkenni, er auðkenna sannan Íslending frá annara þjóða mönnum

»Þú manst það víst«, sagði herra Eskford, þegar eg var búinn að skoða myndina, »að eg mintist á það við þig í dag, þegar eg lagði af stað með þig hingað, að eg hefði tekið þrjá íslenzka gimsteina að erfðum«.

»Já, eg man það glögt«, sagði eg.

»Faðir minn var góður Íslendingur«, sagði herra Eskford, »og honum var það áhugamál, að afkomendur sínir vissu, af hvaða bergi þeir væri brotnir; og hann vildi að einhverjir al-íslenzkir hlutir gengi að erfðum í ætt hans í þessu landi um margar ókomnar aldir. Og nokkru áður en hann dó, fékk hann okkur systkinunum þrjá íslenzka hluti, og bað okkur að geyma þá sem helga dóma«.

»Og það munu vera íslenzkar bækur«, sagði eg,

»að líkindum Eddurnar og einhver Íslendingasagan, eða þá Passíusalmar«.

»Nei, þarna skjatlar þér«, sagði herra Eskford brosandi. »Faðir minn vissi vel, að afkomendur sínir mundu hvorki tala né lesa íslenzku, og að íslenzkar bækur mundu því ekki halda við hjá þeim nægilegri ást og trygð til hins íslenzka þjóðernis. — Þar að auki eru Eddurnar, Íslendingasögurnar, Passíusálmar og ýms önnur norræn og íslenzk rit löngu þýdd á önnur tungumál, og má því segja að öll þau rit séu nú orðin eign allra mentaðra þjóða. Eddurnar eru, til dæmis, sameiginleg eign allra norrænna og engilsaxneskra þjóða, þó íslenzka þjóðin hafi tekið þá gimsteina að erfðum, hafi geymt þá, og slípað þá og fægt, svo að bjarma hefir lagt af þeim um heim allan. — En til þess samt, að njóta til fullnustu hinnar djúpu speki, miklu snildar, og skáldlegu tiiþrifa, sem Eddurnar hafa á hverri blaðsíðu, þarf maður að þekkja norrænu til hlítar. — Íslenzk alþýða skilur ekki norrænu svo vel, að hún skilji Eddurnar mikið betur en við, sem lesum innihald þeirra í enskri þýðingu. Þetta var álit föður míns, og þess vegna eru það ekki bækur, sem hann bað okkur, börn sín, að geyma til minningar um þann kynstofn, sem við erum komin af. Heldur er erfðafé þetta þeirrar tegundar, að enga sérstaka tungumála-kunnattu þarf til þess, að geta metið það réttilega og — notið þess. Og um leið er það alíslenzkt, og enn þá ramm-íslenzkara en Eddurnar og sjálfar Íslendingasögurnar. Og á meðan þeir gimsteinar þrír geymast í ætt okkar, mun hún

telja sér sæmd af því, að vera af **íslenzkum** uppruna«.

»Og hverjir eru þessir þrír íslenzku gimsteinar?« sagði eg.

»Ef þú vilt gjöra svo vel að ganga með okkur út í sumarskálann, skal eg sýna þér íslenzku gimsteinana«, sagði herra Eskford.

Eg sagðist vera meir en fús til þess.

Við stóðum öll upp og gengum út í aldingarðinn, sem bæði var mikill og fagur. Sumarskálinn stóð þar niðri við sjóinn. Smáar öldur gjálfruðu þar við sandinn, rétt fyrir framan, og dalitlar gusur gengu við og við þétt upp að húsinu, og vindurinn bar úðann inn í aldingarðinn, því að vindur stóð af hafi, en stórsjóirnir brotnuðu með gný og dimmum drunum á rifinu fyrir utan.

Þegar við komum inn í sumarskálann, gengum við að píanó, sem stóð þar inni við stafninn.

»Þarna eru íslenzku gimsteinarnir góðu, sem faðir minn fékk okkur systkinunum til varðveizlu«, sagði Sigrún og benti á þrjá muni, sem voru á hljóðfærinu.

Það voru óneitanlega sannir gimsteinar í sinni röð, og enginn efi lék á því, að þeir voru alíslenzkir í insta eðli sínu. — Fyrsti hluturinn var meistaralegt málverk eftir íslenzkan málara, af einu hinu fegursta héraði á Íslandi. En nafnið á héraðinu og nafn málarans þarf hér ekki að nefna, því að íslenzkur lesari getur þess nærri. — Annar hluturinn var brjóstlíkan úr eir af Íslending, sem einna mest og bezt hefir unnið þjóð sinni til gagns og sóma,

og var brjóstlíkan þetta gjört af heimsfrægum, íslenzkum listamanni. En nafn þess manns, sem brjóstlíkanið var af, og nafn listamannsins íslenzka, þarf eg heldur ekki að nefna hér, því að íslenzkur lesari veit við hverja eg á. — Þriðji hluturinn var blað með raddsettu íslenzku þjóðlagi á. Og var lagið raddsett af heimsfrægum, íslenzkum söngfræðing og tónskaldi. En nafnið á þjóðlaginu og nafnið á tónskáldinu þarf alls ekki að netna hér, því að íslenzkur lesari veit það eins vel og eg. — Eg horfði á þessa þrjá íslenzku hluti nokkra stund, og eg þóttist skilja til hlítar, hvað Agli Ásbrandssyni hefir gengið til þess, að afhenda afkomendum sínum þessa hluti til varðveizlu um aldur og æfi, því að hlutirnir sýndu, að Íslendingar hafa átt — og eiga enn — listamenn, sem að snild og gáfum standa jafnfætis þeim *Raphael*, *Angelo* og *Beethoven*.

Eg dvaldi í húsi Eskfords-fólksins langt fram á kvöld. Og tvisvar kom eg þangað eftir það. Og einn daginn fór eg út í grafreit borgarinnar til þess, að sjá gröf Egils. Á gröfinni var fallegur steinn, og á hann var grafið:

*»Egill A. Eskford. — Fæddur á Islandi 5. apríl 1850 Dáinn 29. marz 1909«.*

Um leið og eg kvaddi Eskfords-fólkið fyrir fult og alt, þá leyfði frú Eskford mér að taka eftirrit af faeinum línum, sem Egill hafði skrifað nokkru áður en hann dó. Það var hið eina, sem fanst eftir hann á íslenzku. Og lítur út fyrir, að það hafi átt að vera upphaf að æfisögu hans, eða annari lengri ritgjörð. — Línur þessar voru svona:

*»Þótt hin íslenzka þjóð sé enn þá barn að aldri — að eins þúsund ára gömul — og þó hún sé svo fámenn, að hún gæti vel komist fyrir í álíka stórri borg og Hónólúlú, þá mun hvergi vera sá blettur á bygðu bóli, að Íslendingur hafi ekki einhvern tíma komið þar. Því að Íslendingurinn er í insta eðli sínu landkannari; og sigli hann á annað borð frá ættjörð sinni, þá er hann sérlega víðförull En oftast fer þó svo að lokum, að honum leika landmunir til heimferðar«.*



# HERRA KARSON.

Ashcroft er smábær í British Columbia og stendur við Kanada-Kyrrahafsjárnbrautina, á syðri bakka Thompsons-fljótsins, réttar 204 mílur enskar frá Vancouverborg, og um eitt þúsund fet fyrir ofan sjávarmál. Bærinn er langur og mjór, og er eins og honum sé smeygt líkt og fleyg inn á milli fljótsins og járnbrautarinnar. Hefir hann margt til síns ágætis, og ekki sízt það, að þaðan koma einhver hin beztu jarðepli, sem til eru í heimi, og draga þau nafn sitt af bænum. Frá Ashcroft liggur akvegurinn, sem er farinn norður til Cariboo og Omineca-gullnámanna. Fara þaðan og koma þangað daglega stórar hesta- og múlasna-lestir, sem flytja ýmsan varning milli þessa bæjar og námanna. Landið umhverfis bæinn er mjög hólótt og þurt, en þó er þar töluverð garðyrkja og kvikfjárrækt.

Haustið 1911 dvaldi eg rúman mánuð í Ashcroft og var íbúatala bæjarins þá um sex hundruð manns. Enginn Íslendingur var þar búsettur um þær mundir, svo eg vissi. En ekki var eg búinn að vera þar marga daga, þegar flestum eða öllum bæjarbúum var orðið kunnugt hvað eg hét, og hverrar þjóðar maður eg var. Samt hafði eg mjög lítið saman við

aðra að sælda þann tíma, sem eg var þar. Eg hélt til í gistihúsi bæjarins og vann þar við ritstörf frá morgni til kvölds alla virka daga, en á sunnudögum gekk eg mér til heilsubótar og afþreyingar um hólana fyrir sunnan bæinn.

Nokkrum dögum áður en verki mínu í Ashcroft var lokið, kom unglingspiltur með bréf til mín frá manni, sem nefndist *William Karson* og átti heima rúmar fjörutíu mílur enskar fyrir norðan bæinn. Var bréfið þess efnis, að herra Karson bað mig að finna sig, áður en eg færi alfarinn frá Ashcroft, og dvelja hjá sér nokkra daga. Kvaðst hann hafa frétt, að eg væri Íslendingur, og langaði sig til að tala við mig um mikilsvarðandi málefni, er snerti Íslending nokkurn, sem væri sér sérlega kær. En sjálfur kvaðst herra Karson ekki geta komið til Ashcroft og fundið mig, sökum þess, að hann hefði nýlega dottið af hestbaki og meitt sig allmikið innvortis. Bað hann mig að senda sér línu með bréfberanum og láta sig vita, hvaða dag hann mætti senda mann og hesta eftir mér.

Eg skrifaði herra Karson nokkrar línur með sendimanninum og gat þess, að eg væri fús á að heimsækja hann, þegar starfi mínu í Ashcroft væri lokið. Tiltók eg þann dag, sem hann mætti senda eftir mér, og hét því, að dvelja hjá honum í tvo daga. — En áður en eg skrifaði bréfið, fann eg eiganda gistihússins að máli og spurði hann um þenna William Karson. Sagði hann, að herra Karson væri ríkur hjarðeigandi og mesti ágætismaður, og væri öllum, sem kyntust honum, sérlega hlýtt til

hans, en að hann væri fremur ómannblendinn og fálátur.

Svo kom sá dagur, sem eg hafði tiltekið. Kvöldið áður kom sendimaður herra Karsons, og var það sami unglingurinn, sem komið hafði með bréfið. Hann kom ríðandi á brúnum hesti og hafði annan hvítan í taumi. Var mér ætlaður hvíti hesturinn. Hann var einhver hinn ágætasti reiðhestur, sem eg hefi séð, eldfjörugur og úthaldsgóður, en þó þýður og viðráðanlegur.

Við lögðum af stað frá Ashcroft snemma morguns. Þá var skýjað loft og köld gola á norðan. — Það var seint í septembermánuði. Eftir að við vorum komnir yfir brúna á Thompsons-fljótinu, lá leið okkar í fyrstu um ótal gráa, skóglausa hóla og sefi-vaxnar, djúpar dældir, og var leiðinlegt mjög að fara þann veg. En þegar á leið daginn, fór útsýnið að breytast, og komu nú í ljós smátt og smátt hálsar vaxnir skógi og grösugir dalir, smávötn og lækir og fögur sveitabýli, og sást þar víða »fénaður dreifa sér um græna haga«.

Fylgdarmaður minn hét *Dominík*, af ítölskum ættum. Hann var á átjanda ári, fríður sýnum, heldur smár vexti, en knálegur. Hann talaði mjög fátt við mig, en svaraði þó þýðlega, þegar eg ávarpaði hann. Og hann mælti á góða ensku. Svör hans voru samt mjög stutt og á stundum tvíræð, einkum ef eg spurði hann um herra Karson og heimilisástæður hans. — »Herra Karson er stór«, sagði Dominík æfinlega, þegar eg nefndi húsbónda hans á nafn — »Er hann þá stór í lund?« spurði eg einu sinni. — »Hann er bara stór«, svaraði

ur«, sagði Bill McAra, »en eg skal gjöra honum og þér til geðs, rétt í þetta sinn, að tala við drengina.« — Hann vék sér snúðulega að þeim Jack og Harry og mælti: »Heyrið þið mig, drengir! Er það satt, að þið séuð stöðugt að áreita hann herra Snow?«

»Við höfum verið að erta hann ofurlítið«, sagði Harry og var kímileitur.

»Þið hafið kallað hann skrælingja og blóðugan Íslending. Eða er það ekki satt?«

»Það er hverju orði sannara«, sagði Harry.

»Og þið hafið, að sögn, kallað hann ýmsum öðrum miður sæmilegum nöfnum?« sagði Bill McAra.

»Já, mörgum hæðilegum nöfnum«, sagði Harry og leit glottandi til Jacks.

»Og þið hafið gengið svo langt, að ausa yfir hann kolamylsnu?«

»Það er í alla staði satt«, sagði Harry.

»Og hann á eftir að fá meira hjá okkur«, bætti Jack við og krosslagði handleggina á bringunni, eins og til að bjóða verkstjóranum byrginn.

»Segið mér nú, af hverju þið látið ekki þenna mann í friði, þar sem hann virðist þó ekki gjöra á hluta nokkurs manns að fyrra bragði og vinnur verk sitt vel og trúlega«.

»Hann á engan rétt á því, að vinna hér með hvítum mönnum, frekar en Jappar og Kínverjar«, sagði Jack nokkuð þóttalega.

»Er hann þá ekki hvítur maður?« spurði Bill McAra.

»Það er ekkert hvítt við hann, nema nafnið«, gall Harry fram í. »Hann er sem sé Eskimói frá

Íslandi. En allir vita, að Eskimóar teljast ekki með hvítum mönnum«.

»Þið segið, að Íslendingar séu Eskimóar, og þess vegna ekki hvítir«, sagði Bill McAra. Og eg sá, að augu hans urðu nokkuð hvöss.

»Já«, sagði Jack, »og við getum ekki liðið það, að Íslendingar séu látnir vinna hér samhliða hvítum mönnum, og það fyrir sama kaup«.

»Álítið þið þá, að enginn Íslendingur sé jafnoki ykkar að karlmensku og mannkostum?« — Augu Bill McAra voru stöðugt að verða harðari og hvassari.

»Við álítum það«, sögðu þeir Jack og Harry einum rómi.

»Heyrið þið, drengir«, sagði Bill McAra og hvesti röddina ofurlítið; »eg andmæli þessu. Eg segi, að Íslendingar séu ekki Eskimóar. Eg segi að Íslendingar séu hvítir menn. Og eg segi, að enginn Íslendingur sé svo aumur, að þið séuð þess verðir að leysa skóþveng hans!«

Mér heyrðist löng og þung fegin-stuna koma þaðan, sem Björn stóð. En þeir Jack og Harry litu stórum augum á Bill McAra.

»Þekkir þú Íslendinga, herra McAra?« sagði Harry eftir nokkra þögn.

»Eg þekki þá«, sagði Bill McAra, og augu hans tindruðu eins og fægðir demantar. »Eg þekki Íslendinga mæta vel. Hér er einn, sem þorir að reyna við ykkur báða í senn, hvar og hve nær sem er. Og hann heitir — Bill McAra«.

»Ekki ert þú Íslendingur, herra McAra?« sögðu

þeir Jack og Harry, og augun ætluðu út úr höfðinu á þeim.

»Jú, eg er Íslendíngur í húð og hár«, sagði Bill McAra snjöllum rómi; »og eg er svo stoltur af því, að eg þoli það með engu móti, að landar mínir séu ertir og atyrtir, að raunalausu, og taldir með villimönnum. — Þið megið vita, að blóðið rennur ávalt til skyldunnar«.

Björn leit til mín brosandi. Hann skyldi nokkurn veginn, hvað Bill McAra var að segja, og hélt að hann væri að spauga. En það var samt langt frá því, að hann væri að gjöra að gamni sínu, því að hann var reiður, þó hann stilti sig.

»En nafnið þitt er skozkt eða írskt«, sagði Harry hikandi.

»Eg hefi látið kalla mig Bill McAra síðan eg kom til þessa lands; en réttu nafni heiti eg Baldur Arason«. (Hann bar fram íslenzka nafnið með enskum hreim). »Og nú skuluð þið, drengir, velja um tvo kosti: Annar er sá, að biðja þenna landa minn — hann herra Snow — fyrirgefningar, og lofa því, að áreita hann aldrei framar; hinn er þessi, að leggja niður rekurnar og fara. — Eg hefi lokið máli mínu«. — Hann gekk snúðulega burtu, eins og honum lægi í léttu rúmi, hvorn kostinn þeir tæki.

Þeir Jack og Harry litu hvor til annars, og eftir augnabliks hik gengu þeir þangað, sem Björn stóð, tóku í hönd hans og báðu hann fyrirgefningar. En auðséð var, að þeir tóku það nærri sér.

Björn var nú ánægður. Og enginn vafi er á því, að hann fyrirgaf þeim af öllu hjarta. Og eftir það

heyrði eg hann aldrei kvarta um það, að menn þar við námuna væri honum óvinveittir.

En Bill McAra var hinn sami eftir sem áður: Þurlegur og óþjáll og talaði aldrei íslenzkt orð svo eg heyrði. Eg spurði hann tvívegis, hvort það væri áreiðanlegt, að hann væri af íslenzku bergi brotinn. Og svarið, sem eg fékk í hvorttveggja skiftið, var þetta:

»Eg stend við það, sem eg hefi sagt því viðvíkjandi. — Blóðið rennur ávalt til skyldunnar«. Hann sagði þetta með hálfgjörðum þjósti, svo að eg áræddi ekki að vekja máls á því í þriðja sinn.

Hvort Björn fann nokkurn tíma hálfbróður sinn, er mér með öllu óljóst. Hann var í Nanaimo um hríð eftir að eg fór þaðan. En þegar eg kom þangað aftur fimm árum síðar (það var haustið 1913), þá var hann farinn þaðan. Og Bill McAra hafði líka farið burtu úr þeim bæ um líkt leyti.

Og lýkur svo þessari sögu.



# ÍSLENZKUR BLAÐADRENGUR.

Mér hefir æfinlega þótt sérlega vænt um blaðadrengi, og ef til vill mest vegna þess, að eg var sjálfur blaðadrengur um eitt skeið; en síðan eg varð fullorðinn, hefi eg ekki komist í náin kynni við þá, að undanteknum að eins einum. — Hann var Íslendingur í húð og hár, og hét Egill. En hvers son hann var, man eg ekki.

Eg kyntist Agli í Vancouver, B. C., sumarið 1912. Hann var þá á ellefta árinu. Seldi hann dagblöð, bæði kvölds og morgna, og stundaði það starf með dæmafáum dugnaði og atorku. Hann gekk á skóla á vetrum, og seldi þá blöð að eins á kvöldin.

Egill átti engan bróður, en hann átti tvær systur; var önnur fimm árum eldri en hann, en hin tveimur árum yngri. Móðir þeirra var ekkja, og bjó með börnum sínum í dálitlu húsi í Grantstræti, skamt fyrir austan *Victoria Drive*. Hún gekk út í vinnu fimm daga í hverri viku. Eldri stúlkan vann í búð niðri í bæ, hin yngri hugsaði um húsið, þegar hún var ekki í skóla, en Egill seldi dagblöð og gekk þó á skóla alla skóla-daga. Þannig vann þessi fjölskylda fyrir sér á meðan eg þekti

til. En eg var í nágrenni við hana sjö eða átta mánuði.

Egill var stór eftir aldri og fallegur í vexti, kringluleitur með spékoppa í kinnum, hörundsbjartur og ljóshærður. Augun voru himinblá, fjörleg, gáfuleg, góðleg og ljómuðu af kæti. Heilsan var sterk, og hann réð sér varla fyrir eðlilegu fjöri. Fáir af jafnöldrum hans, sem við hann reyndu, stóðu honum á sporði. Hann bar jafnan hærra hlut, var harðsnúnastur í ryskingum og allra drengja fóthvatastur. Og enginn blaðadrengur í allri Vancouverborg hafði sterkari lungu, né snjallari róm en hann. Hann vissi ætíð upp á hár, hvaða fréttir voru markverðastar í blöðunum, sem hann seldi, og hann sagði frá þeim í örfáum, vel völdum orðum. Hann kallaði ekki mjög hátt, þegar hann hljóp með blöðin, en orð hans heyrðust vel og skýrt, og vöktu ósjálfrátt eftirtekt. Og blöðin hans gengu út einkennilega fljótt.

Eg sá Egil litla iðulega sumarið 1912, bæði niðri í bænum, og eins heima hjá móður hans. — Einn dag, skömmu eftir að eg kyntist honum, sá eg hann í ryskingum við dreng, sem var mikið stærri en hann. Það var rétt fyrir utan prentsmiðju kvöldblaðsins »*The Vancouver World*«. Eg man það, að Egill var mjög reiður, og tók hann auðsjáanlega á öllu sínu afli, og beitti öllum brögðum til þess, að bíða ekki lægra hlut. Enda fóru svo leikar, að hann vann sigur að lokum. Var hann þá ákaflega móður, og föt hans öll í óreglu, og húfan hans langt úti á strætinu. — En á næsta götuhorni stóð lítill og veiklulegur, svarthærður drengur, sem horft

hafði kjökrandi og kvíðafullur á áflogin. Hýrnaði sýnilega yfir honum, þegar hann sá, að Egill hafði borið hærra hlut. — Í sama bili bar þar að lögregluþjón, og talaði hann eitthvað til blaðadrengjanna, sem biðu þar fyrir utan prentsmiðjuna; og urðu þeir þá allir undur þögulir og siðprúðir.

Eg gekk til Egils, þar sem hann var að laga á sér treyjuna og gjöra að öðru axlabandinu.

»Eru þeir vondir við þig?« sagði eg á íslenzku.

»Nei«, sagði Egill og brosti, »þeir eru ekkert vondir við mig, en það er litla greyið, sem þeir láta aldrei í friði«.

Og hann benti um leið á litla, veiklulega drenginn, sem stóð á götuhorninu á móti.

»Er það bróðir þinn?«

»Nei, hann er enskur«, sagði Egill. »Hann er bara sjö ára gamall, og mamma hans er dáin. Hún dó í vetur. En stóra-greyið drekkur og er aldrei heima«.

»Stóra-greyið?« át eg eftir. »Hver er hann?«

»Það er pabbi hans. Hann heitir *Mr. Grey*. Við köllum hann stóra-greyið á íslenzku. Og Dan köllum við litla-greyið, þegar við tölum um hann okkar á milli. Þeir eiga heima í næsta húsi við okkur«.

»Selur hann líka blöð, svona ungur?« sagði eg.

»Nei«, sagði Egill, »hann eltir mig bara alt af, því enginn er til að líta eftir honum. Stóragreyið er ekki heima, nema svörtustu nóttina, og kemur oftast heim býsna drukkinn, og þá er litlagreyið hræddur við hann, og flýr til okkar, og er oft hjá okkur á nóttunni, en eltir mig allan dag-

inn. Hann er hræddur við alt, auminginn — nema mig og mömmu mína. Hann er góður í sér samt; og það er ljótt af drengjunum að stríða honum«.

»Var það út af honum, að þú flaugst á við stóra drenginn áðan?«

»Já; hann var að stríða aumingjanum litla, þangað til að hann fór að gráta, og þá varð eg reiður«.

»Og þarftu oft að taka málstað hans?«

»O, nei. Ekki oft. Bara stundum. En það gjörir mér ekkert til, þó eg fljúgist á við þá. Eg er ekkert hræddur«.

Hann kallaði á litla drenginn, sem stóð á götuhorninu á móti.

»Komdu hingað, Dan. Þér er alveg óhætt«, sagði hann á ensku.

Litli, veiklulegi drengurinn hljóp yfir um strætið til okkar. Hann var grátbólginn og flóttalegur, en leit þó brosandi til Egils og tók í treyjuna hans.

»Þú þarft ekkert að vera hræddur«, sagði Egill. »Hann meiðir þig ekkert. Hann er farinn«.

»Hann sagði þó, að hann skyldi láta *Kína*-köttinn taka mig«, sagði Dan.

»Það er enginn Kína-köttur til«, sagði Egill.

»Eg veit það. En samt er eg hræddur við hann«.

»Hvernig geturðu verið hræddur við það, sem ekki er til?«

»Eg er bara hræddur við einhvern kött«.

»Hvaða vitleysa er þetta! Það er enginn köttur til, sem tekur drengi. Hann Bill var bara að hræða þig. Og eg barði hann fyrir það«.

»Eg er samt hræddur«, sagði Dan og hélt dauðahaldi í treyjuna á Agli.

Litlu síðar kom kvöldblaðið út. Egill keypti eins mikið af því og hann gat borið undir annari hendinni. Hann rétti litla Dan tvö eða þrjú blöð. Og svo hlupu þeir af stað austur Pender-stræti. En mjög var Dan litli Agli til tafar, því að Egill þurfti svo oft að bíða eftir honum.

Nokkrum kvöldum síðar heyrði eg á tal þeirra heima hjá móður Egils. Þeir sátu á tröppunum fyrir framan húsið. Það var sunnudagskvöld — í kringum klukkan ellefu. Tunglið var hátt á lofti og óð í skýjum. Það var í fyllingu.

»Sérðu ekki manninn í tunglinu?« sagði Dan og horfði upp í loftið. »Hann horfir á okkur«.

»Það er enginn maður í tunglinu«, sagði Egill.

»Bob sagði það þó. Hann segir, að maðurinn í tunglinu taki stundum litla drengi, sem hafa svart hár«.

»Bob fer með þvætting«.

»Sérðu ekki að tunglið hleypur? Sjáðu, hvað það hleypur hart. Hefir tunglið fætur?«

»Tunglið er hnöttur«.

»Veltur það þá?«

»Það snýst«.

»Getur það ekki dottið ofan á Vancouverborg? — — Ofan á okkar hús? Það gæti brotið heilt hús«.

»Hvaða vitleysa! Það getur ekki dottið«.

»Sérðu ekki, hvernig það hleypur fram hjá svarta skýinu núna? Það er bráðum komið yfir okkar hús. Eg er hræddur um, að það detti ofan á okkar hús!«

»Hættu þessari vitleysu, Dan! Eg er oft búinn að segja þér það, að tunglið getur ekki dottið«.

»Hver heldur þá í það?«

»Guð«.

»Á?«

Nú varð löng þögn.

»Heyrðu«, sagði Dan alt í einu. »Sástu ekki manninn á himninum í morgun?«

»Á himninum?«

»Já. Þarna á himninum fyrir norðan Burrardfjörðinn. Hann gægðist yfir Rjúpu-fjall. Hann rétti stórar, svartar hendur upp á himininn, og teygði út kræklótta fingur. Og það var langt bil milli fingranna. — — — Óttalegt!«

»Hvaða vitleysa er nú í þér, Dan litli! Það hefir verið ský. Skýin taka á sig alls konar skrítnar myndir. En þau eru samt alt af ský«.

»En eg var samt óttalega hræddur, þó það væri ský«.

»Enginn þarf að vera hræddur við ský«.

»Það var alveg eins og maðurinn í myndabókinni. Eg horfði á hann lengi, lengi. Hann færði sig hægt og hægt áfram austur á fellið þarna — þar sem hótelið er — stóra hótelið«.

Hann benti norður til fjallanna.

»Það er ekkert hótel þarna«, sagði Egill. »Það eru bara klettar«.

»Það sýnist alveg eins og hótel. Og maðurinn á himninum fór þangað inn. Helдurðu ekki að hann hafi farið þangað inn til að drekka vín?«

»Þig er að dreyma, Dan minn góður«, sagði Egill. »Það var ský, sem þú sást á loftinu, en

enginn maður. Þú mátt trúa mér til þess. Eg skrökva aldrei að þér. — Eg er reiður við alla, sem skrökva að þér. — Eg segi þér alveg satt, að það var ský, sem þú sást. Þau eru stundum alveg eins og menn í myndabókum«.

»En hver býr til skýin?«

»Guð«.

»Á?«

Og aftur varð löng þögn. — — — —

Þannig mun samtal þeirra Dans og Egils hafa verið oftast nær. — Egill reyndi af fremsta megni, að útrýma ótta og kvíða úr hinum ímyndunarríka huga hins litla og veiklulega, móðurlausa drengs. Egill var í raun og veru kennari hans, verndari hans og einlægur vinur hans; og meira en það: hann gekk honum í föður- og móður stað. — Og Dan bar ótakmarkað traust til Egils, og mátti ekki af honum sjá eitt einasta augnablik. Í hans augum var Egill konungur allra blaðadrengja, göfugur og hreinhjartaður, hugprúður kappi, sem vissi alla skapaða hluti, og ætíð sagði satt, og alt gjörði rétt, og ætíð mátti treysta í blíðu og stríðu.

Einu sinni gekk eg á eftir þeim upp Grantstræti. Það var seint um kvöld og orðið dimt. Þeir gengu hægt og leiddust, og voru alt af að tala saman.

»Það gjörir ekkert til, Dan, þó þú týndir blaðinu«, heyrði eg að Egill sagði. »En hlauptu aldrei framar yfir strætið, þegar slökkvivélin er á ferðinni«.

»En eg var svo hræddur við slökkvi-vélarnar«, sagði Dan.

»Og samt hljópstu yfir strætið, þegar þú sást þær koma«.

»Af því þú varst hinumegin. Eg vildi vera hjá þér. Eg var hræddur að vera þar, sem eg var. Slökkvivélarnar stefndu á mig og einhver kallaði: Burt, burt!«

»En týndirðu ekki fimm-*cent*unum, sem eg gaf þér?«

»Nei. — Eg var búinn að kaupa fyrir þau brjóstsykur. Eg var svo ósköp svangur«.

»Þú hefðir heldur átt að kaupa þér brauðsneið, fyrst þú varst svangur. Maður borðar ekki brjóstsykur við hungri«.

»En það er svo gott á bragðið. Og það er svo mikið af alveg spánnýju brjóstsykri í búðargluggunum niðri í bæ. Sumt er í laginu eins og fuglar og lömb. Hefirðu ekki séð það?«

»Jú, eg hefi séð það. En það er ekki alt gott, sem er sætt. Sumt brjóstsykur er undur óholt«.

»En það er gaman að því, þegar það er í laginu eins og fuglar og lömb og fiskar«.

»Það er látið vera svona í laginu, til þess að krakkar kaupi það frekar. En það er samt ekki eins gott og sumt annað brjóstsykur. — Þegar eg er svangur, og er niðri í bæ, þá kaupi eg mér brauð, eða mjólk, fyrir fimm *cents*«.

»Eg ætla að gjöra eins næst, þegar þú gefur mér fimm *cents*«, sagði Dan.

»En ekki þó nema að þú sért svangur. Maður á að fara vel með þau *cents*, sem maður eignast. Þá verður maður, ef til vill, miljóna-eigandi á endanum«.

»Og þá getur maður keypt bifreið«.

»Já, og — margt og margt«.

»Þá þarf maður ekki að ganga. — Eg er orðinn lúinn að ganga«.

»Það er von, að þú sért orðinn lúinn, aumingrinn«, sagði Egill. »Þú hefir alt af hlaupið á eftir mér, síðan klukkan þrjú í dag. En þú hefðir heldur átt að bíða mín á horninu hjá mylnunni, meðan eg fór suður strætið; þá hefðir þú ekki verið alveg eins lúinn núna«.

»En það var drukkinn maður skamt frá mylnunni. Hann horfði á mig. Eg er fjarskalega hræddur við drukkna menn. Þeir ætla alt af að detta, — þeim er óttalega ilt«.

»Lögregluþjónn er alt af á gangi skamt frá mylnunni«, sagði Egill. »Þú þarft ekki að vera hræddur við lögregluþjóna. Enginn þarf að óttast þá, nema vondir menn«.

»Eg veit það. En samt er eg ofurlítið hræddur, þegar þeir h o r f a á mig. — Þeir vita ekki fyrir víst, hvort eg er góður drengur. — Hvernig eiga þeir að vita það?«

»Þeir sjá það á manni«.

»Á? — En eg er óttalega lúinn! — — Eg vil hvíla mig áður en við förum upp brekkuna«,

»Nei, Dan, nei!« sagði Egill. »Eg vil flýta mér heim. Eg er orðinn svangur. Og þú ert líka svangur. — Eg skal bera þig þenna spöl, sem eftir er. Komdu upp á bakið á mér«.

Hann beygði sig niður, og Dan litli skreið með miklum erfiðismunum upp á bakið á honum.

»Svona!« sagði Egill og hélt áfram með Dan á

bakinu. »Nei, Dan, þú ert ekkert þungur. — Nei, nei, eg er ekkert lúinn. Eg er bara dálítið svangur. — Það er von, að þú sért orðinn uppgefinn, aumingínn. Þú ert svo ungur. — Já, þú verður einhvern tíma stór og sterkur. Þú ert frískari en sumir stóru drengirnir. — — — En, góði Dan, þú mátt ekki sofna á bakinu á mér, eins og seinast, þegar eg bar þig upp brekkuna, því þá ertu svo þungur«.

»Nei, eg skal ekki sofna«, sagði Dan og geispaði. »Eg skal reyna að vaka«.

Eg gaf mig nú fram.

»Komið þið sælir, drengir«, sagði eg. »Eg skal bera hann Dan fyrir þig, Egill minn«.

»Eg er ekkert lúinn«, sagði Egill. »En hann er að sofna. Aumingínn er alveg uppgefinn«.

Eg tók Dan litla í fang mér, og bar hann upp brekkuna og heim að húsi ekkjunnar. — Þá var hann sofnaður.

Þegar kom fram á haustið, veiktist Dan litli alvarlega, og var fluttur á sjúkrahúsið. Hann lá þar tvær eða þrjár vikur, og honum hnignaði alt af. Egill vitjaði hans, eins oft og hann mátti, og gjörði alt, sem í hans valdi stóð, fyrir hinn sjúka vin sinn.

En Dan litli dó.

Egill fylgdi honum til grafar. Þann dag var glaða sólskin og blíða.

Eftir hádegið seldi Egill kvöldblaðið, eins og hann var vanur. En enginn heyrði hann hrópa og kalla, eða geta um fréttirnar.

Allir blaðadrengirnir, sem þektu hann, litu til hans viðkvæmnislega þann dag.

Á sum blöðin, sem Egill seldi, höfðu tár-dropar fallið.

»Af hverju er íslenzki drengurinn svo hnugginn í dag?« var sagt við margan blaðadreng, á meðan kvöldblaðið var að koma út.

Og alt af var svarað í lágum hljóðum:

»Litli Dan Grey er dáinn«.



# ÆFINTÝRIÐ, SEM KONRÁÐ LÆKNIR RATAÐI Í

I.

Nú skal eg segja ykkur sögu af merkilegum Íslending. Hann hét Konráð Dagsson og var læknir, og dvaldi um nokkur ár vestur á Kyrrahafsströnd. Hann fékk snemma mikið orð á sig sem ágætur læknir, einkum fyrir handlækningar. Í þeirri grein hafa margir íslenzkir læknar skarað fram úr, bæði á Íslandi og í Vesturheimi. Og eru margir læknar á meðal hinna mestu og mætustu manna þjóðarinnar íslenzku.

Konráð læknir var ættaður úr Húnaþingi á Íslandi, en kom ungur vestur um haf. Hann var mikill maður vexti og prúðmannlegur í framgöngu, bjartur yfirlitum, fríður sýnum og höfðinglegur. Voru augun himinblá, djúp og eldsnör. Og hann var, eins og Íslendingar yfirleitt, þéttur í lund, bráðgáfaður og drengur góður. — Hann hafði átta um tvítugt, og var enn ókvæntur, þegar hann rataði í hið kynlega æfintýri, sem hér verður frá sagt. En það var haustið 1910. Hann átti þá heima í Vancouverborg í British Columbia. Var skrifstofa hans á *Hastingsstræti*, skamt fyrir austan aðalpósthúsið.

En hann var til heimilis hjá systur sinni og manni hennar, sem bjuggu í stóru og skrautlegu húsi í vestur-hluta borgarinnar, nærri *Stanley Park* (skemtigarðinum fagra og fræga). Í því húsi hafði hann dálitla verkstofu (laboratory), og tók þar á móti sjúklingum á kvöldin.

Það var eitt kvöld í byrjun nóvembermánaðar 1910, að Konráð sat í verkstofu sinni, eins og oftar, að afloknum kvöldverði, reykti sígarettu í mestu makindum og rendi augunum yfir kvöldblaðið. Úti var myrkviðrisþoka og ömurlegt mjög, og voru fremur fáir á ferð um strætin, þegar fram á kvöldið kom. — Þegar klukkan var hálf-níu þetta kvöld, heyrði Konráð, að ekið var heim að húsinu. Rétt á eftir var dyrabjöllunni hringt, og fám augnablikum síðar var tveimur kvenmönnum vísað inn í verkstofuna til hans.

Það var ekkert sérlega einkennilegt við þessar konur, nema ef vera skyldi það, að þær voru báðar litlar vexti og nokkuð dökkar á hörund, og að framkoma þeirra og allar hreyfingar mintu á leikkonur á íþróttasýningum. Þær voru báðar á líkum aldri — á að gizka rúmlega hálf-þrítugar — og voru svo nauðalíkar í sjón og vexti, að auðséð var að þær voru systur — ef til vill tvíburar. Þó var eitt, sem aðgreindi þær, og það var það, að önnur þeirra hafði gull-tönn í efra gómi, og sást hún glögt, þegar konan talaði eða brosti. — Báðar höfðu konur þessar kaffibrúna glófa á höndum, og biksvartar regnkápur yfir sér, og voru hettur áfastar við kápurnar, og huldu hetturnar algjör-

lega hárið á konunum, og sömuleiðis enni þeirra og vanga að mestu.

»Ert þ ú Dagsson læknir?« sagði konan með gulltönnina um leið og hún gekk inn í stofuna.

»Ert þú h a n n?« sagði hin konan og benti á Konráð.

»Já«, sagði Konráð og hneigði sig kurteislega.

»Við eigum þá brýnt erindi við þ i g, Dagsson læknir«, sagði konan með gulltönnina.

»Mjög brýnt og mjög alvarlegt erindi«, sagði hin konan, og lagði hönd á brjóst sér í hjartastað og stundi þungan.

»Gjörið svo vel að setjast«, sagði Konráð og ýtti fram stólnum.

»Nei, þakka þér fyrir, Dagsson læknir«, sagði konan með gulltönnina. »Svo naumur er tíminn, og svo alvarlegt er erindi okkar til þ i n, að við megum ekki hugsa til þess að setjast. Við komum hingað ekki til þess, að leita læknishjálpar fyrir okkur sjálfar — því að v i ð erum heilbrigðar — heldur er erindið það, að biðja þ i g að gjöra svo vel og koma heim með okkur tafarlaust og tala við hann föður okkar. Hann þarf endilega á hjálp sáralæknis að halda í kvöld«.

»Já, hann þarf út af lífinu að láta gjöra dálítinn læknisskurð«, sagði hin konan, lagði aðra hönd sína á brjóst sér, en tók hinni um ennið, og andvarpaði mæðilega.

»Hvað er það, sem að honum gengur?« sagði Konráð.

»Það vitum v i ð ekki«, sagði konan með gulltönnina.

»Og þó við vissum það«, sagði hin konan og brá hönd upp að augum sér, eins og til að strjúka burtu tár, »þá ættum við ekkert með að segja frá því — jafnvel ekki lækni«.

»Þið mættuð þó segja mér, hvort það er varta eða kirtill, eða kýli, eða mein, eða eitthvað annað, sem faðir ykkar vill láta skera í, eða skera burt«, sagði Konráð.

»Um það getum við ekkert sagt«, sagði konan með gulltönnina.

»Og viljum heldur ekkert um það segja«, sagði hin konan. Hún kreysti saman varirnar svo þær hvítnuðu.

»Enda kemur það ekkert við erindi okkar til þín, Dagsson læknir«, sagði konan með gulltönnina. »Spursmálið er að eins þetta: Vilt þú, eða vilt þú ekki, koma heim með okkur og tala við föður okkar, og framkvæma fyrir hann lítið (en áríðandi) læknis-starf, ef ykkur semur?«

»Það litla (en þýðingarmikla) starf má hvergi gjörast, nema í húsi föður okkar«, sagði hin konan og leit niður, eins og lítil stúlka, sem er feimin.

»Það verður líka að framkvæmast í nótt«, sagði konan með gulltönnina.

»Á morgun yrði það alt um seinan«, sagði hin konan og brá upp höndum, eins og til að banda einhverju frá sér.

»En ef eg fer með ykkur«, sagði Konráð, »þá þyrfti eg að vita, áður en eg legg af stað, hvers eðlis verk það er, sem eg á að vinna, svo eg geti tekið með mér þau áhöld og lyf, sem nauðsynleg eru«.

»Dagsson læknir!« sagði konan, sem hafði gull-

tönnina, og hún lagði áherzlu á orðin, »þú ert sagður að vera góður sáralæknir, og ef það er rétt álit, sem eg hygg að sé, þá ættir þú vissulega að vita, hvað læknir þarf endilega með sér að hafa, þegar hann er sóttur til að gjöra lítinn uppskurð í heimahúsum einhvers manns«.

»Og eg vil taka það fram«, sagði hin konan og var mjög fastmælt, »að verk það, sem hér er um að ræða, er ekkert sérlegt vandaverk — eða svo sagði faðir okkar — og það er svo einfalt verk, í sjálfu sér, að það getur hver læknir gjört það, með allra einföldustu tækjum. — En hitt er líka satt, að engum er treystandi til að vinna þetta starf, nema lærðum lækni«.

»Er langt heim til ykkar?« sagði Konráð.

»Við ökum þangað á hálfri klukkustund«, sagði konan með gulltönnina.

»Við höfum hér fyrir utan luktan vagn *(cab)*, sem tveir vel tamdir gæðingar ganga fyrir«, sagði hin konan og benti út um gluggann, »og ökumaðurinn þekkir styztu leiðina«.

»Hvað heitir faðir ykkar?« spurði Konráð eftir stundarþögn.

»*Ímám*«, sögðu báðar konurnar einum rómi.

Konráði fanst einhver annarlegur hreimur í rödd kvennanna, þegar þær báru fram nafnið. Og nafnið var líka útlent. En hvað gjörði það til?

Hann tók tösku, sem hann var vanur að hafa með sér, þegar hann vitjaði sjúklinga, lét tvo eða þrjá smá-böggla ofan í hana og læsti henni. Hann fór í yfirhöfn sína, setti á sig hanzka og tók hattinn sinn, og fór að öllu þessu með allra mestu hægð, eins

og ekkert lægi á. — Og á meðan hann var að tygja sig til, stóðu konurnar í sömu sporum á miðju gólfi, og veittu hverri einustu hreyfingu hans hina nánustu eftirtekt.

»Eg er nú reiðubúinn að leggja af stað«, sagði Konráð og greip töskuna.

»Gott er það, Dagsson læknir«, sagði konan með gulltönnina, »en áður en við förum héðan út, vil eg segja þér nokkuð, af því að eg álít það skyldu okkar að láta þig vita það, þó það, ef til vill, verði til þess, að þú hættir alveg við að fara með okkur. — Við höfum í kvöld, áður en við fundum þig, talað við fjóra málsmetandi lækna hér í borginni, og beðið þá hins sama og þig, nefnilega það, að fara heim með okkur til föður okkar. En þeir hættu allir við að fara, þegar við höfðum sagt þeim það, sem eg ætla að segja þér. Og einn þeirra var jafnvel kominn út að vagninum, þegar hann sneri aftur«.

»Og einn hljóp að talsímanum til að tala við lögreglustjórann«, sagði hin konan og brosti raunalega.

»Þið hafið sagt þeim eitthvað hræðilegt«, sagði Konráð.

»Já, víst hefir þeim þótt það«, sagði konan með gulltönnina, »en hið sama og eg sagði þeim, ætla eg nú að segja þér, og það er þetta: að læknir sá, hvort sem það ert þú, eða einhver annar læknir, sem fer með okkur í kvöld heim til föður okkar, má ekki vita, hvar í borginni við eigum heima, af ástæðum, sem við megum ekki nefna að svo stöddu, og verður því læknirinn að leyfa okk-

ur að binda fyrir augu sér, þegar hann er kominn inn í vagninn, og má hann ekkert sjá fyr en hann er kominn inn í hús föður okkar. — Eins verður bundið fyrir augu hans áður en hann fer heim í nótt, sem verður einhvern tíma eftir miðnættið, og verður hann fluttur á miðja leið heim, eða rúmlega það. Og áður en hann fer út úr húsi föður okkar, verður honum borgað að fullu það, sem honum ber fyrir starf sitt«.

»Er þetta alt?« sagði Konráð stillilega.

»Já, eða er þetta ekki nokkuð?« sagði konan, sem ekki hafði gulltönnina.

»Eg er ferðbúinn«, sagði Konráð og opnaði dyrnar á stofunni.

»Og ætlar þú að leyfa okkur að binda fyrir augu þér, strax og við komum inn í vagninn?« sagði konan með gulltönnina.

»Já, eða jafnvel undir eins, ef þér viljið«, sagði Konráð og brosti ofurlítið.

»Við þökkum þér af öllu hjarta«, sagði konan með gulltönnina; »en við bindum ekki fyrir augun á þér, fyr en við erum lögð af stað, og ef til vill ekki fyr en við erum komin næstum alla leið«.

»Ó hvað eg er glöð!« sagði hin konan og horfði upp í loftið sem snöggvast.

Þau gengu nú út úr húsinu og þangað sem vagninn beið. Úti var kolniðamyrkur, og ekki sást faðms-lengd fyrir hinni dimmu þoku. Og rafljósin á strætum úti sáust ekki fyr en komið var fast að þeim. En það var stafalogn, og heyrðist óvenjulega vel alt skrölt og allur skarkali á götunum, einkum tístið og marrið og suðan í hinum mörgu

sporvögnum, sem nema staðar á hverju strætishorni, og ýlfra og væla um leið svo ámátlega og ömurlega, að heyrnar-taugar manns engjast sundur og saman af ósegjanlegum harmkvælum. — Það heyrðist líka vel til hraðlestarinnar, sem kom brunandi austan með Burrard-firðinum. Gufuvélin másaði, púaði og blés, eins og hún hefði ákafan hjartslátt og væri að springa af mæði. En hún hafði líka farið um daginn yfir »fjöllin þau sjö«, með tuttugu vagna í eftirdragi. Og það getur líka verið þreytandi, að fara ofan brekkuna, þegar maður verður að spyrna í við hvert fótmál. — En ferjan á Burrard-firðinum beljaði og öskraði, aðra hverja mínútu, og drundi dimt og draugalega, eins og hún vildi segja: »Margt býr í þokunni«.

Konráð sá, að vagninn var algengur leiguvagn *(cab)*. Voru hurðir á báðum hliðum og dálitlir gluggar á þeim. Þá glugga mátti byrgja með blæjum, ef maður vildi. Báðumegin við vagnstjórasætið voru ljósker, og voru ljósin smá, en sérlega björt og skær. Hestarnir voru dökkir á lit, og sýndust þeir stórvaxnir í þokunni. Ökumaðurinn virtist líka vera stór vexti og tröllslegur, þar sem hann sat á vagnstjórasætinu og hélt í taumana á hestunum. Hann var í þykkri og síðri yfirhöfn, og var kraginn brettur upp. En á höfði hafði hann húfu með miklu skygni.

Konurnar stigu upp í vagninn og settust í aftara sætið. Konráð fór inn á eftir þeim og settist í fremra sætið — á móti þeim.

Vagninn lagði af stað. Í fyrstu fóru hestarnir að eins fót fyrir fót, en smátt og smátt greiðkuðu þeir

sporið, þangað til að þeir virtust fara á harða stökki. — Þó gluggarnir á vagninum væru ekki byrgðir, þá sást ekkert út um þá fyrir hinni niðdimmu þoku, sem úti var. Konráð vissi því ekki, eftir hvaða strætum hann fór. En hann varð þess var, að vagninn fór yfir langa brú, og vissi hann, að það gat engin önnur brú verið en *Granville*-brú, því að Aðalstrætis-brúin er tiltölulega stutt; en þá var ekki búið að byggja *Connaught*-brúna, né brúna miklu, sem liggur frá Aðalstræti til *Beatty*-strætis og kölluð er: *Georgia-Harris Viaduct* (þá brú bygði Íslendingur). — Eftir stutta stund var aftur farið yfir langa brú. Konráð var alveg viss um, að það var líka *Granville*-brú. Engin brú var eins löng, nema brúin yfir Fraser-fljótið hjá *New Westminster*. En þangað voru tólf enskar mílur.

Hingað til hafði enginn talað orð í vagninum.

»Viljið þið ekki binda fyrir augun á mér?« sagði Konráð, þegar vagninn var kominn yfir brúna í seinna skiftið.

»Það er enn þá ekkert áríðandi«, sagði konan með gulltönnina. Hún var alt af fljót til svars.

»Þokan er svo dimm«, sagði hin konan, »að þú getur ekki séð neitt út frá vagninum, og veizt því ekki, hvert við erum að fara«.

»Eg veit samt, að við erum búin að fara tvisvar yfir *Granville*-brú«, sagði Konráð.

»Ökumaðurinn þekkir leiðina«, sagði konan með gulltönnina.

»Það er samt næsta merkilegt«, sagði Konráð, »að maður skuli fara tvisvar yfir sömu brúna,

hvora leið — og enn merkilegra, ef það er jafnframt styzta leiðin«.

»Ökumaðurinn okkar fer jafnan fljótförnustu leiðina, hvort sem sú leið er bein eða krókótt«.

»En hann fer nokkuð geyst í svona dimmri þoku«, sagði Konráð.

»Hann kann lagið á hestunum, og hann er tveggja manna maki að burðum«, var svarið.

»En hann sér ekki faðms-lengd fram undan«, sagði Konráð.

»Hestarnir sjá mæta vel«, sagði hún.

Nokkru síðar tók Konráð eftir því, að vagninn fór ekki lengur eftir sléttum og hörðum strætum. Hann fann, að vegurinn versnaði óðum. Vagnhjólin sukku við og við æði djúpt í aurleðju, en á stundum hröklaðust þau á steinum og lurkum, og sýndi það, að nú var komið í útjaðar borgarinnar, eða jafnvel út fyrir hana; enda virtist enginn vera á ferð um þessar slóðir, nema þessi vagn.

»Hér er slæmur vegur«, sagði Konráð.

»Vancouverborg er ung, en strætin bæði mörg og löng«, sagði konan með gulltönnina, »er því mjög eðlilegt, að þar sé til götur, sem ekki hafa verið steinlagðar eða sléttaðar enn þá«.

»En það lítur helzt út fyrir að ökumaðurinn sé að þræða verstu vegina, til þess að vera sem allra lengst á leiðinni«, sagði Konráð; »hann setur að líkindum upp eitthvað ákveðið fyrir hvern klukkutíma, sem hann er á leiðinni?«

»Ökumaðurinn er bróðir okkar«, var svarið.

»Þá er það mál útkljáð«, hugsaði Konráð.

Vegurinn batnaði aftur alt í einu — varð harður og sléttur. Vagninn fór upp snarbratta brekku, og ofan aðra skömmu síðar. Ökumaðurinn tók nú að beita svipunni við hestana, og það svo mjög, að hestarnir hentust áfram, eins og óðir og hamslausir væri.

»Nú eru hestarnir að fælast«, sagði Konráð. Honum þótti full-geyst farið.

»Hestarnir eru heimfúsir«, sagði konan með gulltönnina.

»Og þetta er síðasti spretturinn«, sagði hin konan.

Nokkru síðar beygði vagninn snögglega til hliðar, fór yfir litla brú, og hélt eftir malar-götu um stund, og nam svo staðar, þegar minst varði.

»Nú verðum við að binda fyrir augun á þér«, sagði konan, sem ekki hafði gulltönnina.

»Velkomið!« sagði Konráð.

Á sama augnabliki var búið að binda fyrir augu hans, og vissi hann aldrei, hvor konan það var, sem gjörði það.

Konráð fór út úr vagninum. Hann fann að hann steig á malarsand, og hann heyrði dálítinn öldunið skamt frá. Þóttist hann vita, að hann væri kominn ofan að sjó.

»Nú verðum við að biðja þig að lofa okkur að leiða þig«, sagði konan með gulltönnina.

»Með mikilli ánægju«, sagði Konráð. Hann sá, að héðan af var þýðingarlaust að malda í móinn; enda hafði honum aldrei komið það til hugar. Hann var, eins og læknar yfirleitt, sérlega hugprúður maður og einbeittur, og var því algjörlega laus við allan ótta eða kvíða. En á hinn bóginn

fanst honum þetta alt nokkuð kynlegt og hálf-óviðfeldið, ekki sízt þegar hann heyrði, að ökumaðurinn hélt í burtu með hestana og vagninn, án þess, að mæla orð við konurnar.

»Við verðum nú að ganga nokkur skref og fara hljóðlega«, sagði konan með gulltönnina, tók í hægri hönd Konráðs og leiddi hann. Hin konan gekk á eftir þeim. Hún vildi í fyrstu halda á tösku læknisins, en hann leyfði það ekki, og kvaðst aldrei skilja þessa tösku við sig á ferðalagi.

Þau gengu um hríð eftir fjörunni, og var þung færð í sandinum. Konráð heyrði öldu-sogið við sandinn á aðra hönd, en til hinnar hliðar var að heyra dálítinn foss-nið hátt uppi. Honum heyrðist líka með köflum, að einhver ganga á undan þeim; og á stundum var eins og hlaupið væri á eftir þeim, og fram hjá þeim. En léttilega var stígið, og ekkert manna-mál heyrðist. — Þau voru nú komin út fyrir allan skarkala borgarinnar. Ekkert heyrðist til sporvagnanna, og ekkert til járnbrautarlesta. En drunurnar í ferjunni heyrðust enn við og við, eins og í fjarska. Og fanst Konráði nú að hann vera kominn norður fyrir ferjuna; en það gat ómögulega átt sér stað, því að hann hefði orðið að fara norður yfir Burrard-fjörð til þess. Reyndar vissi Konráð nú ekkert um áttir. Hann hafði eiginlega aldrei vitað, í hvaða átt hann fór, eftir að hann kom inn í vagninn. Hann hélt samt að hann hefði farið suður yfir Granville-brú, og svo strax aftur norður yfir hana; en jafnvel það gat hafa verið tómur hugarburður.

Eftir að hafa farið eftir fjörunni um stund, fann

Konráð alt í einu, að sandurinn var að enda, að hann gekk upp vallgróinn bakka, all-brattan, og gnauðið í bárunum færðist hægt og hægt fjær og fjær.

»Hér taka við nokkrar tröppur«, hvíslaði konan með gulltönnina í eyra Konráðs.

Þau gengu upp sjö eða átta tröppur, og voru þær úr þykkum og breiðum borðum. Þegar upp var komið, tóku við göng. Var hurð látin aftur á eftir þeim, strax og þau voru komin inn í göngin. Og þá tók konan með gulltönnina klútinn frá augunum á Konráði. Sá hann nú ofurlitla glætu langt fram undan, og vissi hann, að það voru þröng og lág jarðgöng, sem hann var kominn í, og lagði myglu-lykt og hráslaga-kulda á móti honum.

»Fylgdu mér eftir«, sagði konan með gulltönnina. Hún gekk á undan Konráði inn göngin, og hin konan á eftir honum.

Alt í einu opnuðust dyr fram undan, eins og af sjálfu sér, og lagði skæra birtu frá rafljóss-lampa á móti þeim. Þau komu í dálitla stofu, þegar göngin þraut, en ekki var þar manna fyrir. Lét önnur konan aftur hurðina, og hringdi þá í litilli bjöllu innar í húsinu.

Þau fóru nú út úr þessu herbergi og inn í annað stærra, og var steingólf í því, og leit út fyrir að þetta væri matbúr, eða vöruhús, eða öllu heldur kjallari, því að þar voru ámur og kassar, krukkur og könnur, og brúsar og flöskur af ýmsum tegundum. Nokkrar breiðar tröppur úr steinsteypu *(concrete)* lágu upp á loftið, og gengu þau þar upp, og komu inn í langan gang, og var þar ekki vel

bjart. En skamt frá uppgöngunni voru dyr, og stóð hurðin í hálfa gátt, og lagði þaðan töluverða birtu fram í ganginn. — Að þessum dyrum gengu konurnar, og vísuðu Konráði þangað inn.

»Þetta er lesstofan hans föður okkar«, sagði konan með gulltönnina. »Vertu nú svo góður, að bíða hér rólegur, þangað til hann kemur«.

»Og þú munt ekki þurfa að bíða lengi«, sagði hin konan, »því honum er það mikið áhugamál, að tala við þig sem allra fyrst«.

Um leið hneigðu báðar konurnar sig einkennilega djúpt, líkt og leik-konur, sem koma fram fyrir fortjaldið á leiksviði í stórborg, til þess að þakka hugfangnum áhorfendum vingjarnlegt lófaklapp.

Konráð hneigði sig líka.

»Sé eg ykkur ekki aftur?« sagði hann.

»Það er alt undir atvikum komið«, sagði konan með gulltönnina.

Hin konan þagði og leit niður fyrir sig.

Þær hneigðu sig á ný og fóru fram ganginn. En Konráð gekk inn í stofuna, og leit á úrið sitt um leið, og sá, að hann hafði verið einn klukkutíma og tíu mínútur á leiðinni.

## II.

Stofa sú, er Konráð var nú kominn í, var ekki mjög stór, en hún var einkennileg að því leyti, að hún var fimm-hyrnd (eða með fimm hliðum), og var enginn gluggi á hliðunum. En þakgluggi var þar stór og hvelfdur, og var hann nú að mestu hulinn kolsvörtum tjöldum. Úr hvelfingunni hékk mikill

og fagur ljósa-hjálmur með fimm stórum rafljósum. — Á öllum (fimm) veggjum stofunnar, frá gólfi og upp að þakglugganum í hvelfingunni, var hylla við hyllu, þétt-settar bókum, bæði bundnum og óbundnum. Á miðju gólfi var afar-stórt kringlótt borð, og voru þar skrif-föng, og nokkrar bækur, og ýmislegt annað. En út frá borðinu voru fjórir hægindastólar, og vandaður legubekkur fjarst dyrunum. Alt var gólfið lagt dýrustu dúkum. Og alt benti á það, að húsráðandi væri stórefnaður mentamaður.

Konráð lagði frá sér töskuna, þurkaði af sér svitann, lagaði á sér hárið og settist í þann hægindastólinn, sem næstur var dyrunum. Hann gætti strax að því, að ein af bókunum, sem á borðinu lágu, var biblían á ensku. En þar voru líka nokkrar bækur a austrænum málum: hebresku, arabisku, sýrlenzku, og ef til vill, indversku og persnesku. Hann tók líka eftir því, að stór silfur-kross var reistur upp við dálítið líkneski af Búddha, og var lítill hálfmáni úr gulli ofan á höfðinu á líkneskinu. Voru þar einnig ýmsir aðrir smáir munir og kjörgripir, sem báru þess glögg merki, að þeir voru austan úr löndum, einkum frá Indlandi og Kína. Vakti margt af því, sem á borðinu var, sérlega eftirtekt Konráðs; en einna mest dáðist hann að silfur-skál mikilli, sem stóð á miðju borðinu. Var hún loga-gylt að innan og slétt, en utan á henni voru alls konar upphleyptar kynja-myndir, meistaralega gjörðar og fagurlega niðurraðað. Horfði Konráð á skálina um stund, og reyndi til að ráða í þýðingu myndanna á þeim helming skál-

arinnar, sem að honum sneri. — En þegar hann leit upp aftur, sá hann, sér til mikillar undrunar, að maður sat í hægindastólnum, sem var hinumegin við borðið, beint á móti honum. Og hvort þessi maður hafði komið inn um dyrnar, sem sjáanlegar voru, eða um einhverjar leyni-dyr, það fékk Konráð aldrei að vita.

Þessi dularfulli maður, sem komið hafði inn í stofuna, svona skyndilega og hljóðlega, var að mörgu leyti mjög einkennilegur ásýndum og frábrugðinn öðrum mönnum. Hann var á að gizka hálfsextugur að aldri, dökkur á hörund, sérlega lítill vexti og holdgrannur, hendur hans og fætur voru eins og á tíu ára gömlum dreng, og andlitið mjög smágjört, að undanskildu enninu — það var ákaflega hátt og mikið og gáfulegt — augnabrúnir hvelfdar, og augun að sjá langt inni í höfðinu, tinnusvört, tindrandi og hvöss, nefið var þunt og ofurlítið íbogið, hakan lítil, neðri vörin þunn, en efri vörin sérlega þykk, eins og hún væri bólgin, og var hann bersýnilega nýrakaður. — Á enninu miðju var stórt ör, í laginu eins og nýkviknað tungl. Og breiddi það hálfgjörðan píslarvættissvip yfir alt andlitið. Hann var í skósíðri, ermavíðri kápu úr gráu klæði, og var gild silki-snúra margvafin um mittið, og stórir skúfar á. Og var snúran gul á lit. En á höfði hafði hann mikinn og vandaðan vefjarhött. Og þóttist Konráð sjá, að þessi maður væri Indverji. En hann mintist ekki að hafa áður séð nokkurn fullorðinn Indverja alveg skegglausan, eða eins lítinn vexti og þenna. — Eru flestir þeir Indverjar (Hindúar), sem maður sér á götunum í Vancouverborg, háir menn, og yfir höfuð íturvaxnir; og eru allir, eða flestir þeirra, með kolsvart skegg, fremur gisið og óásjálegt.

»Sæll vertu«, sagði Konráð eftir að hafa virt manninn fyrir sér nokkur augnablik. »Þú ert herra Ímám, býst eg við?«

»Sæll, herra læknir«, sagði Indverjinn, og röddin var mjúk og þýð; »eg er, eða hefi verið *Ímám*, það er að segja: eg hefi kent *kóraninn* — hefi verið kennimaður á Múhameðstrúarmanna vísu — en eg heiti ekki *Ímám*, þó eg sé kallaður það«.

»Rétt er það«, sagði Konráð, »en hvað er þá þitt rétta nafn«.

»Mitt rétta nafn er mjög óþjált fyrir tungur Vesturlanda«, sagði Indverjinn og talaði ensku frábærlega vel, með skýrum framburði og réttri áherzlu, eins og maður, sem lengi hefir stundað nám við háskóla í Canada. »Nokkur hluti nafns míns er: *Abúl Súrajah Reza*. Afi föður míns var lengi *nabob* í Bengal á Indlandi, og afi móður minnar var í þrjátíu ár *nízám* í Deccan, og bróðir hans var hinn heimsfrægi *Rajah Kazím* í Delhí. Og sannar það, að ættin er góð. En merkilegt er það, að það voru forfeður móður minnar, sem reyndust þeim Clive og Hastings svo vel á átjándu öldinni, en forfeður föður míns, sem þeim voru óvinveittir«.

»Einmitt það!« sagði Konráð. »En hingað er eg kominn sem læknir, og vildi mega taka til verka undir eins«.

»Já, herra læknir«, sagði Indverjinn, »eg veit vel, til hvers þú ert hingað kominn, það var eg, sem sendi eftir þér, til þess að framkvæma fyrir mig ofurlítið læknis-verk«.

»Og hvað er það, sem að þér gengur?« spurði Konráð.

»Í raun og veru gengur ekkert að mér«, sagði Indverjinn; »eg hefi alla mína æfi verið fremur heilsugóður — að vísu ekki vel sterkbygður, eða kjarkmikill, fremur en aðrir, sem ættaðir eru frá Bengal, því að þar eru menn smávaxnari en annarstaðar á Indlandi, en eg get samt ekki annað sagt, en að heilsa mín sé furðu góð, þrátt fyrir veikbygðan líkama. Og það er ekki á sjálfum mér, sem eg vil láta þig gjöra læknis-skurðinn, eða hvað eg á að kalla það, heldur á öðrum. — Bíddu nú við, herra læknir. Sérðu ekki örið á enninu á mér?«

»Jú«, sagði Konráð; »það er í laginu eins og hálfmáni«.

»En sérðu þetta?« sagði Indverjinn og fletti frá bringunni á sér. Þar (á miðri bringunni) var afarstórt ör í laginu eins og kross.

»Já«, sagði Konráð, »eg sé, að þarna er stórt ör á bringunni á þér«.

»Vel og gott«, sagði Indverjinn. »Nú vil eg biðja þig að gjöra tvo skurði, annan á enni, en hinn á brjósti ungrar konu, sem hér er, þannig: að örin eftir þá verði eins í lögun og þau, er þú hefir séð á mér«.

»Og hvað er það, sem að konunni gengur?« spurði Konráð.

»Í sannleika sagt, herra læknir«, sagði Indverjinn, »þá veit eg ekki betur, en að líkamleg heilsa hennar sé verulega góð. — Hún er vel vaxin, ung

og blómleg, og að eðlisfari sérlega kát og léttlynd. En hún er, nú sem stendur, sjúk af ást — er yfirkomin af ákafri ástarþrá, og ber sig aumlega — og vill út af lífinu giftast og njóta elskhuga síns. En eg er sá maður, sem hún elskar svona óumræðilega heitt. Og eg hefi, eftir langa og mjög ítarlega ígrundun, afráðið að ganga að því, að eiga hana, þó hún sé af alt öðru bergi brotin en eg. En nú er því svo farið, þó undarlegt megi virðast, að enginn getur gefið okkur saman í hjónaband, nema lærður læknir«.

»Í þessu landi er það vanalega presturinn, en ekki læknirinn, sem framkvæmir slík verk«, sagði Konráð og horfði hálf-hissa á Indverjann.

»Veit eg það, herra læknir«, sagði Indverjinn undur rólega, »en það kemur til af því, að hér í landi eru engir, eða mjög fáir, sem tilheyra þeim trúarflokki, er heimtar að læknar gefi saman hjón, — þeim trúarflokki heyri eg til«.

»En hvernig getur læknis-skurður á enni og brjósti brúðarinnar verið í sambandi við hjónavígslu-athöfn?« sagði Konráð.

»Hjónavígslu-athöfnin er einmitt í því fólgin, að slíkur læknis-skurður sé gjörður«, sagði Indverjinn í sama mjúka og þýða róm og áður. »Öll athöfnin er, meira að segja, í því fólgin. Hér útheimtast engar viðhafnar-reglur né ræður, engir sálmar né söngvar, engin orð, engar undirskriftir, engin vitni — að eins lítilfjörlegur læknis-skurður — lítil rispa eða skinnspretta — á brjósti og enni, og um leið er hjónavígslu-athöfninni lokið að fullu,

og verður aldrei aftur tekin um aldur og æfi. Maðurinn og konan eru upp frá því eitt og hið sama, þangað til dauðinn aðskilur þau«.

»Þú sagðir að konan væri verulega heilsugóð«.

»Já, herra læknir, hún er stálhraust. Annars mundi eg ekki ganga að því að eiga hana«.

»Eg er hræddur um það, herra Abúl Súrajah Reza«, sagði Konráð einbeittlega, »að þú verðir að fá annan lækni, en mig, til að framkvæma þessa helgu en fáheyrðu athöfn«.

»Ó, sei, sei, nei!« sagði Indverjinn stillilega; »þú ert í alla staði fær um að framkvæma þetta verk, því að það er í sjálfu sér mjög einfalt og létt. Og eg gæti sjálfur gjört það — og mundi gjöra það — ef ekki væri sá hængur á, að eg má ekki blóð sjá — allra sízt blóð manna og fugla. Það verkar þannig á mig, að eg verð um nokkra stund (jafnvel í heilt dægur) á eftir alveg óður og hamslaus, og veit ekki hvað eg gjöri. — Nei, fyrst þú ert hingað kominn, þá framkvæmir þú þetta verk fyrir mig nú í nótt, og tekur laun fyrir. — Eg skal útskýra þetta betur fyrir þér, ef þú vilt vera svo góður að hlýða á mig«.

»Eg skal hlýða á þig«, sagði Konráð ofurlítið þóttalega; »en vertu eins stuttorður og þú getur«.

»Herra læknir«, sagði Indverjinn með sömu stillingunni og áður, »eg er fæddur og uppalinn í Moorshedabad í héraðinu Bengal á Indlandi. Og eins og eg gat um áðan, er eg af háum stigum í báðar ættir, og var faðir minn stór-auðugur og hámentaður maður. Hann setti mig snemma til

menta, og fór eg frá einum háskólanum til annars, bæði á Indlandi og á Vesturlöndum, þangað til eg var næstum þrítugur að aldri. — En frá því, að eg var lítill drengur, og langt fram á fullorðins árin, var hugur minn sífeldlega að glíma við þá þungu ráðgátu, hvað taka mundi við eftir dauðann — hvort sálin héldi áfram að vita af sér, þó líkaminn yrði að dufti og ösku, eða hvort hún væri einungis orka, sem framleidd væri af vissri efna-samblöndun — orka, sem hætti að vera til, þegar efna-sambönd líkamans leystust sundur. — Þessi sífelda hugsun um þetta efni gjörði það að verkum, að eg sárkveið fyrir dauðanum — ekki samt svo að skilja, að eg hræddist sársaukann, sem dauðinn hefir jafnan í för með sér, eða hitt: að eg óttaðist lífið eftir dauðann. Heldur skelfdi mig hugsunin um það, að sálin (eða meðvitundin) losnaði, ef til vill, ekki úr líkams-fjötrunum, fyr en líkaminn væri algjörlega orðinn að dufti. Sú skelfilega hugsun, að sál mín yrði bundin við líkamann í gröfinni — og vissi af sér, en gæti ekki losast þaðan, fyr en alt hold, allar taugar og öll bein hans væri uppleyst orðin — kvaldi mig og píndi í vöku og svefni, og ætlaði að gjöra mig vitstola. — Og enginn háskóla-kennari, enginn spekingur, ekkert skáld, eða vísindamaður, og ekkert fræðikerfi gat leyst úr þessari ráðgátu fyrir mig, svo eg fengi fulla vissu um það, og sál mín mætti fá hvíld og frið. Eg kom jafnan (hvað þetta snerti) út aftur um sömu dyr, sem eg hafði farið inn um, eins og skáldið Ómar Khayyám segir í *Rúbáiyát*. Alt, sem honum fanst hann uppskera í

því efni, var þetta: »Eg kom eins og vatn, og eg fer eins og vindur«. Og mér fanst eg að lokum, við enda skólanámsins, komast að þeirri niðurstöðu, eins og Ómar skáld, að bezt væri að njóta unaðssemda lífsins eins og framast væri unt, því að lífið væri stutt, og að maður lifði það ekki nema einu sinni. Og sælan mesta, í hans augum, var sú: að búa í forsælunni undir ilmsætum rósrunni, með kvæða-kverið, vín-krúsina, brauð-hleifinn, og — unnustuna, unga og elskulega við hlið sér. Þá varð eyðimörkin honum að Paradís. — Eg sökti mér líka ofan í unaðssemdir lífsins, og naut þeirra í fylsta mæli — ekki samt eins og Ómar Khayyám, heldur eins og Súrajah Dowlah og hans líkar — í óhófi og með frekju, þangað til að eg varð leiður á lystisemdum heimsins — jafnvel þeim, sem áfengastar voru og ljúfastar aðgöngu — varð of saddur og fékk klígju á þeim. — Þá kom trúarþörfin mér til bjargar. Sál mín leitaði hvíldar í hinum ýmsu trúarkerfum mannkynsins — fornum og nýjum — en hvergi fann hún í þeim þann stað, er hún mætti hvílast um eitt einasta augnablik, því að hvergi var heila brú að finna, alt frá sálnatrú elztu tíma, til orkuhyggju og dularfullra fyrirbrigða nú á síðari árum. Að lokum brauzt sál mín út úr þessari ódæma trúarflækju og tók að mynda nýtt trúarkerfi fyrir sig, og notaði hún í það (hið nýja kerfi) alla sterkustu þáttuna úr hinum eldri, en einkum þó úr Múhameðstrúnni og Kristninni. Þegar þetta nýja trúarkerfi var fullgjört, hafði sál mín fengið fulla vissu um annað líf, og jafnframt fundið frið og ánægju. Gjörðist

eg nú postuli þessarar trúar, og var tákn, eða líkingarmynd, hennar: hálfmáni og kross. Og verða allir, giftir menn og konur, sem þessa trú játa, að bera tákn hálfmánans á enni, og tákn krossins á brjósti. — Eg var hinn fyrsti maður, sem lét skera þessi tákn á brjóst sér og enni, því að eg var hinn fyrsti *ímám* (eða prestur) þessarar kenníngar, og gekk um leið að því, að eiga unga persneska konu af tignum ættum, og var hún því hin fyrsta kona, sem bar þessi tákn. En nú er hún löngu dáin. — Fluttist eg þá hingað til Vancouverborgar með dætur mínar tvær og einn son, og fóru með okkur um þrjátíu karlar og konur, sem tekið höfðu mína trú. Hefi eg búið hér í ró og kyrð í full fimm ár. Fékk eg fyrir bústýru unga konu, norðan frá Íshafi, og er hún af hinum lítt-þektu, ljóshærðu Eskimóum, sem nýlega hafa fundist þar. Og varð afleiðingin þessi: að hún varð undir eins ásthrifin af mér, og það svo mjög, að eg hefi fastráðið að ganga að því, að eiga hana, þó hún sé svona lágrar ættar. — En nú getur hún ekki orðið konan mín, fyr en hún ber óafmáanleg tákn hálfmánans og krossins á brjósti og á enni. — Eg hefi fengið þig hingað, herra læknir, til þess, að framkvæma þessa einföldu hjónavígsluathöfn. Og muntu nú verða við bón minni, þar sem þú veizt til hlítar allar ástæður«.

Konráð þagði nokkra stund og var bersýnilega í djúpum hugsunum. »Segðu mér eitt«, sagði hann að lokum og horfði beint í hin kolsvörtu höggorms-augu Indverjans, »mælir þessi Eskimóa stúlka á enska tungu?«

»Nei«, svaraði Indverjinn, og það eins og glaðnaði yfir honum; »hún hefir aldrei verið á meðal ensku-mælandi manna. En hér í húsinu er einvörðungu töluð indverska, því að enginn kann hér ensku nema eg og dætur mínar«.

»Það er þá að eins indverska, sem hún skilur, auk móðurmálsins?« sagði Konráð.

»Já«, sagði Indverjinn, »en henni hefir samt gengið mjög treglega að læra indversku, þó hún sé búin að vera hér æði-tíma. Og alt af rausar hún mikið á móðurmáli sínu, þegar hún skilur mann ekki. — Nú í nokkra daga hefir hún verið mjög óróleg og æsileg í geði, og hefir hún sagt margt á sínu máli, sem við auðvitað skiljum ekki«.

»En veit hún, að hún er í þann veginn að verða konan þín?«

»Það veit hún með vissu«, sagði Indverjinn brosandi; »og það er líka hennar insta hjartans þrá, eins og eg tók fram áðan. En um hitt er eg ekki viss, hvort henni er það fyllilega ljóst, í hverju að hjónavígslu-athöfnin er fólgin. — Væri því langbezt að gefa henni inn svefnlyf, áður en læknisskurðurinn er gjörður«.

»Eg er enn ekki viss um það, að eg verði við bón þinni«, sagði Konráð, »eg þarf fyrst og fremst að vita það með áreiðanlegri vissu, að konan sjálf sé áfram um að þetta sé gjört. Og jafnvel þó hún sjálf láti það ótvíræðlega í ljós við mig, að hún vilji endilega að þetta sé gjört, þá getur samt vel fyrir komið, að eg, af góðum og gildum ástæðum, neiti að verða við bón ykkar. — En ertu alveg

viss um, að hún skilji ekki annað mál, en móðurmál sitt og Indversku?«

»Um það er eg alveg viss, herra læknir«.

»Og ertu líka alveg viss um, að hún er skrælingja-ættar?«

»Já«, sagði Indverjinn, »eg er alveg sannfærður um, að hún er ljóshærður Eskimói, og að hún er fædd og uppalin norður við Íshaf«.

»Eg hélt, að Eskimóar færu aldrei svona langt suður«, sagði Konráð.

»Nokkrir tugir af þeim hafa þó einhvern veginn flækst suður að stóru vötnunum á sléttunni fyrir austan fjöllin«, sagði Indverjinn, »og er mér sagt, að þeir reynist þar vel við fiskiveiðar á vetrum. Og sömuleiðis hefir mér verið sagt, að flestir þeirra séu ljóshærðir og bláeygðir og ekki ólíkir Norðmönnum og Svíum«.

»Og ekki ólíkir Norðmönnum og Svíum?« át Konráð eftir honum og varð hugsi um stund.

Hið glögga, rannsakandi auga Indverjans gætti fljótt að því, að svipur Konráðs breyttist sem snöggvast.

»Hvaðan ert þú?« spurði Indverjinn alt í einu.

»Eg er uppalinn í Nýja-Skotlandi«, svaraði Konráð. Hann kærði sig ekki um að nefna Ísland í þetta sinn.

»Skozkur, býst eg við?« sagði Indverjinn.

»Skyldur Skotum, að minsta kosti«, sagði Konráð.

Það glaðnaði auðsjáanlega á ný yfir Indverjanum. »Óðum líður að miðnætti, herra læknir«, sagði hann.

»Já«, sagði Konráð og leit á úrið. Klukkan var hálftólf.

»Viltu gjöra svo vel og sjá konuna?« sagði Indverjinn.

»Svo mikið get eg gjört«, sagði Konráð og stóð upp.

Indverjinn reis á fætur um leið, laut sem snöggvast ofan að skálinni á borðinu, strauk vísifingri hægri handar eftir barminum á henni, opnaði því næst, blindandi, bók eina, sem var á borðinu, studdi vísifingrinum, (sem snert hafði skálina), á miðja blaðsíðu hægramegin á opnunni, lauk síðan upp augunum og las í lágum hljóðum þær línurnar, sem fingurinn hafði komið niður á.

»Aha!« sagði hann, eins og sigri hrósandi, »heyr þú, herra læknir, hvað *Kóraninn* segir mér! Á þínu máli hljóðar það þannig: »Sálir rétt-trúaðra manna munu lifa í forsælu hinna himnesku aldingarða í Paradís í samvist við eilífar yngismeyjar!« — Mikil fagnaðartíðindi eru þetta! Og mikill er *ALLAH!* — Kom þú og fylg mér eftir!«

Og augu Indverjans urðu um leið hörð og hvöss, eins og tveir sverðs-oddar, og alt andlitið varð um fáein augnablik mjög afskræmt og ægilegt, og lýsti taumlausum, dýrslegum ástríðum og viðbjóðslegri spilling. Og sá Konráð á einu augnabliki, að Indverjinn var vitfirringur, og það á hættulegasta stigi, fyrir þá sök, að hann hafði með köflum svo gott vald á ýmsum hæfileikum sínum og lærdómi, að hann gat vilt mönnum sjónir á margvíslegan hátt milli æðis-kastanna. — Á þann hátt var Neró keisari brjálaður, og eins Calígúla. Er sú

tegund brjálseminnar algengari í Austurheimi en á Vesturlöndum.

Konráð gekk fram í ganginn á eftir Indverjanum, og hélt á töskunni. Fóru þeir fram hjá mörgum herbergjum, þangað til loksins að Indverjinn nam staðar við lágar dyr og einkennilegar. Var hurðin járnbend, og dyra-umbúnaður sérlega traustur.

»Hér er herbergi hinnar ungu skrælingja-konu«, sagði Indverjinn lágt, »og eru tvær indverskar konur hjá henni, og kann hvorug þeirra að mæla á enska tungu. Skaltu nú fara inn í herbergið og virða brúðina fyrir þér, og reyna að komast að niðurstöðu um það, á hvaða hátt að bezt og auðveldast yrði að gjöra læknis-skurðinn. Mun eg bíða þín hér á meðan, og vona eg að þú tefjir ekki lengi«.

»En af hverju vilt þú ekki koma inn með mér og láta konuna vita, til hvers eg er hingað kominn?« sagði Konráð.

»Það kemur til af því, herra læknir«, sagði Indverjinn og vék sér til hliðar um leið, »að það mundi æsa tilfinningar hennar, að sjá mig koma, því að blóð hennar logar og brennur af ástarþrá, í hvert sinn, er hún sér mig, og mundi sá æðisgangur, sem á hana kæmi, ef hún sæi mig nú, algjörlega hindra hjónavígsluna og eyðileggja áform mitt í þetta sinn. — Nei, gakk þú rakleitt inn í stofuna til konunnar, og hirð ekki um það, þó hún rausi eitthvað og láti undarlega«.

Konráð sagði nú ekkert. Hann opnaði dyrnar

með hægð, gekk inn í herbergið og lét aftur hurðina á eftir sér.

III.

Þetta herbergi var all-stórt, og var hringmyndað, með stórum þakglugga, en engum gluggum á veggjunum, og var þar vel bjart inni af nokkrum rafljósum. Á miðju gólfi var ákaflega breiður (en lágur) hvílubekkur, og var raðað á hann, og umhverfis hann, mörgum og stórum sessum og svæflum, og voru verin (utan um sessurnar og svæflana) úr silki og öðrum dýrum vefnaði. Með veggjunum, hér og hvar, voru kringlótt borð, og stóðu rósótt postulíns-ker á þeim, og voru blóm í sumum þeirra. Lagði sætan ilm á móti manni, þegar inn var gengið. — Upp við mjúk hægindi og sessur á hvílubekknum hölluðust þrjár konur, dapurlegar og hálf-sofandi. Og voru þær allar í ljósbláum silkikjólum. Minti alt í stofu þessari á lítið kvennabúr hjá tyrkneskum aðalsmanni á nítjándu öld, eins og því er lýst í skáldsögum.

Tvær af konum þessum voru að sjá um fertugt, dökkar mjög á hörund, og fremur veiklulegar. En á milli þeirra var há og þrekleg kona, á að gizka hálf-þrítug, ljóshærð, fríð sýnum, blómleg og elskuleg. Sá Konráð undir eins, að hún var af Norðmanna kyni — að öllum líkindum íslenzk. Enda hafði hann ímyndað sér að svo væri (að hún væri íslenzk), strax og Indverjinn hafði minst á það, að samlandar hennar væru svipaðir Norðmönnum og Svíum.

Undir eins og Konráð kom inn í herbergið, spratt ljóshærða konan á fætur, og tók um eitthvað, sem hún geymdi í barmi sínum. Var hár hennar ógreitt. Hvesti hún augun á Konráð og stappaði fæti í gólfið, eins og hindin í varnarstöðu. Og augun hennar voru himinblá, fögur og djúp, og lýstu einbeittni og orku, sem hún hafði tekið eins og að erfðum frá forfeðrum sínum — víkingunum gömlu. Hún minti á Brynhildi Buðladóttur. — En hinar indversku konur stóðu ekki á fætur. Þær risu að eins upp við olnboga og geispuðu.

Það þóttist Konráð vita, að augu Indverjans mundu sjá alt, sem gjörðist þar inni, þó hurðin fyrir herberginu væri aftur. Hér og þar á veggjunum voru speglar, og var þeim niður-raðað á einkennilegan hátt, og auðsjáanlega í vissu augnamiði. Og var mjög líklegt, að þeir stæðu á einhvern hátt í sambandi við spegla, sem voru utan herbergisins. Í tveimur stöðum á veggnum héngu líka löng og breið tjöld úr þykkum persneskum skrautvefnaði. Og voru allar líkur til þess, að þar væru hliðar-herbergi, og mátti vel vera að Indverjinn leyndist þar og gætti að öllu, sem fram fór í herberginu. — Konráð einsetti sér því, að fara gætilega, og reyna að forðast að láta Indverjann, og konurnar indversku, vita, að hann væri af sama þjóðflokki og ljóshærða konan.

»Komið þið sælar, frúr!« sagði Konráð á ensku og hneigði sig fyrir indversku konunum, en lét sem hann sæi ekki þá ljóshærðu.

Indversku konurnar sögðu eitthvað í lágum hljóðum á sínu máli, og gutu augunum til hans

um leið, og hreyfðu sig ofurlítið á líkan hátt og lyngormar.

»Eg er Íslendingur!« sagði Konráð á íslenzku við indversku konurnar — og hann sagði þetta lágt og seint.

»Drottinn minn góður! Íslendingur! — Sagðirðu Íslendingur?« hrópaði ljóshærða konan á íslenzku, tók höndina úr barmi sér, og steig eitt spor áfram. »Heyrði eg rétt? Eða var mig að dreyma? Drottinn minn og guð minn! Æ, mig er að dreyma!« Og hún kleip sig í kinn og höku og kipti í hárið á sér aftan í hnakkanum, eins og til að vita vissu sína um það, hvort hún væri vakandi, eða ekki vakandi.

Nú var Konráð alveg sannfærður um, að ljóshærða konan var íslenzk. Hann þóttist líka vera alveg viss um það, að hún væri þarna þvert á móti vilja sínum, — að hún væri í verulegri ánauð hjá vitskertum Austurlanda-manni, og að lífskjör hennar væru nú hin hörmulegustu, sem hugsast gætu — hér væri um hvítt þrælahald (*white slavery*) að ræða, og ekkert meira né minna en það. Og hann einsetti sér, að frelsa hana úr þessari óttalegu prísund, hvað sem það kostaði — jafnvel leggja líf sitt í sölurnar til þess.

»Þig er ekki að dreyma«, sagði Konráð á íslenzku. En hann leit samt ekki til ljóshærðu konunnar. »Eg er Íslendingur. En það má enginn vita það hér, nema þú — enginn hér má vita, að eg skilji þig. — Segðu mér, hvort eg get nokkuð hjálpað þér. Eða viltu fara héðan?«

»Guði sé lof, að einhver vill hjálpa mér!« sagði

ljóshærða konan og fórnaði höndum. »Já, hvort eg vil fara héðan? Guð minn almáttugur! Eg vil alt til vinna að komast héðan — eg hræðist ekkert nema það, að vera hér — eg hefi enga aðra löngun en þá, að mega losast héðan — mín eina þrá (og hún er logandi, brennandi og kvalafull) er sú, að fá að losast úr þessari gröf, — komast úr þessu víti — frelsast frá pyndingum vitstola djöfuls! — Hann er vitstola! Litli Indverjinn er með köflum bandóður! Hann fær hin hræðilegustu brjálæðisköst tvisvar og þrisvar á dag. Og engin orð, og enginn málari gæti lýst hinu viðbjóðslega æði hans. — Eg hefði fyrir löngu verið orðin brjáluð — hefði fyrir löngu verið búin að ráða mér bana — hefði ekki sú von gjört við og við vart við sig í brjósti mínu, að einhvern tíma kæmi einhver mér til hjálpar. — Æ, það er líka hugsunin um hana móður mína, sem haldið hefir mér uppi — sem gefið hefir mér þrótt og kjark til að verja mig nótt og dag! En móðir mín er heima á Íslandi. Eg hefi aldrei getað skrifað henni. Hún heldur víst, að eg sé dáin. Ó, drottinn minn góður! Hún heldur það! Eg kom að heiman í ágústmánuði í sumar. Þegar eg kom til Winnipeg, var mér og annari stúlku vísað á vist á hóteli í Klettafjöllunum. Hvorug okkar kunni orð í ensku. Útlend kona var með okkur frá Winnipeg til þess að leiðbeina okkur og fylgja okkur í vistina. Var sagt að hún væri systir hótel-eigandans. Hún skildi mig hér eftir, en hélt áfram með hina stúlkuna til næsta bæjar, að mér skildist. Eg veit ekki, í hvaða bæ eg er. Eg veit ekkert nema það, að eg er búin að

vera hér í fulla þrjá mánuði, og hefi aldrei komið út undir bert loft, síðan eg kom í þetta jarðhús. — Þessar tvær konur skilja aldrei við mig nótt né dag. Þær eru næstum eins og skynlausar skepnur og taka inn deyfandi lyf annan hvern dag. En hingað til hafa þær þó verið mér að vissu leyti til hlífðar, því í insta eðli sínu eru þær ekkert slæmar. — Samt er ekkert það til, sem skotið getur skelk í bringu illmennisins, þegar hann kemur hingað inn til okkar, nema þessi hnífur«. (Hún dró dálítinn pennahníf úr barmi sínum og opnaði hann). »Þó þessi hnífur sé lítill, þá er Indverjinn hræddur við hann, þegar eg ota honum fram. Það kemur æfinlega á mig eitthvert ógnar æði, þegar eg sé þenna viðbjóðslega mann, og eg gjöri þá alt sem eg get, til þess að vinna honum mein. En hann er heigull, eins og allir fantar eru vanir að vera. — Ó, fyrirgefðu mér þetta mas! Eg er svo glöð að vita, að þú ert Íslendingur! Eg veit, að þú vilt hjálpa mér. En hvernig getur þú hjálpað mér? Og hvernig var þér unt, að brjótast hingað inn? Hingað hefir enginn karlmaður komið, nema sjálfur þrællinn, síðan að eg kom hingað. Alstaðar eru Indverjar (eða eg þykist vita, að alt þetta fólk sé frá Indlandi), og sumir þeirra eru vopnaðir. Þeir eru í öllum göngum, og í hverju skúmaskoti. En þetta er jarðhús, eða eg ímynda mér það. Og hvernig getur þú komið mér út, nema að Indverjarnir sjái til ferða okkar? Ó, eg er svo hrædd! — Nei, eg má ekki stofna þér í hættu. Eg er þér ekkert vandabundin. Hví skyldi eg stofna þér í hættu? — Æ, farðu héðan á meðan tími er til —

flý þú og forðaðu lífi þínu! Fáðu svo lögregluna til að hjálpa mér héðan, þú vísar leiðina. Þetta þolir enga bið. Á morgun getur það verið orðið alt of seint. — Æ, farðu, farðu og — forðaðu þér í drottins nafni!«

Hún varð flóttaleg til augnanna, og fórnaði höndum á ný.

»Vertu óhrædd!« sagði Konráð lágt og horfði í einn spegilinn á veggnum, og lézt laga á sér hálshnýtið. »Eg skal gjöra alt, sem eg get, til þess að hjálpa þér. — Eg var sóttur hingað til að framkvæma læknisverk, því að eg er læknir. Eg vissi ekki, að hér var íslenzkur kvenmaður, fyr en eg sá þig. — Nei, þú mátt ekki láta það sjást, að þú sért að hlusta á mig. — Indverjinn er, ef til vill, að horfa á okkur. Láttu sem þú sért hrædd við mig. Líttu reiðulega til mín. — Já, svona. — Eg fer bráðum út, en kem aftur eftir litla stund, og Indverjinn með mér. Þú mátt ekki verða hrædd, þó þú sjáir mig fara með áhöld, sem sáralæknar nota. Vertu ekki hrædd við neitt, sem eg kann til bragðs að taka hér inni, því að alt, sem eg gjöri hér, mun lúta að því, að hjálpa þér til að losast héðan. Viltu lofa því, að verða ekki hrædd?«

»Eg skal ekki verða hrædd«, sagði hún og leit fram að dyrunum, eins og hún sæi einhvern koma inn. »Eg hrædd? Nei, eg er ekki hrædd við neitt, nema það, að vera hér í klóm Indverjans — að vera á valdi vitstola þrælmennis. — Eg skal bera fult traust til þín, og ekki verða hrædd. — En guð almáttugur hjálpi okkur!«

Það var barið snögt högg á hurðina. — Konráð

þóttist vita, að Indverjinn væri nú orðinn órólegur að bíða, og gekk hann því fram í ganginn. Þar beið Indverjinn og var að sjá nokkuð þyngri á brúnina en áður. Innar í ganginum stóðu tveir dökkleitir, risavaxnir menn með svarta vefjarhetti á höfði, og hélt annar þeirra á gildum og kvistóttum staf, en hinn á snæris-hönk. Og var að sjá sem þeir biðu eftir skipun, eða boði, frá Indverjanum.

»Þú tafðir lengi, herra læknir«, sagði Indverjinn, og það brá fyrir kynlegum glampa í augum hans.

Konráð leit á úrið.

»Tæpar tíu mínútur«, sagði hann.

»Það er löng stund«.

»Flestum læknum mundi þó þykja það æðistuttur tími, til þess að sjá hvað að sjúklingi gengi, þegar þeir mættu ekki horfa á sjúklinginn, nema í skuggsjá«.

Indverjinn brosti kuldalega.

»Hér var ekki um neinn líkamlegan sjúkdóm að ræða«, sagði hann.

»Hvað sem um það er«, sagði Konráð, »þá er hin unga, ljóshærða kona alvarlega sjúk«.

»Ástsjúk«, sagði Indverjinn.

»Já, og það svo mjög, að hún er í þann veginn að verða vitstola«.

»Vitstola?« át Indverjinn eftir og horfði hvössum augum á Konráð.

»Já«, sagði Konráð, »hún verður vitstola innan fárra klukkutíma, ef ekki verður við því spornað með einhverju móti«

»Með hvaða móti má sporna við því?«

»Í svipinn má reyna svæfandi lyf«.

»Mundi *ópíum* duga — eða *morfín?*«

»Ef til vill *klóróform*«, sagði Konráð lágt.

Indverjinn gretti sig ofurlítið. »Mætti ekki gjöra skurðinn á brjósti hennar og enni um leið?« sagði hann.

»Með öðru móti er það ekki hægt, án þess hún verði vitstola og bíði bana af. — En eg þarf hjálpar við«.

»Eg hefi hér tvo menn til taks«, sagði Indverjinn og leit þangað, sem risavöxnu mennirnir stóðu. »Þeir eru sterkir og geta haldið henni, svo hún hreyfi ekki legg né lið«.

»Nei, þeir mega þar ekki nærri koma. — Það mundi eyðileggja alt. Hún yrði bandóð, ef hún sæi þá koma inn í herbergið. Blóð hennar mundi ólga og loga. Æð mundi slitna í höfði hennar, og hún biði bana af. — Nei, þú verður sjálfur að vera þar og aðstoða mig — en enginn annar«.

»Ómögulegt!« sagði Indverjinn. »Eg má ekki mannsblóð sjá«.

»Hér er ekki um neitt mannsblóð að ræða«.

»Þegar skurðirnir verða gjörðir, mun blóð renna«.

»Tákn þau á enni og brjósti má gjöra með glóandi járni«.

»Nei«, sagði Indverjinn og afskræmdist í framan, »það verður að gjörast með hníf, og blóð verður að renna«.

»Þú gætir farið út á meðan skurðirnir eru gjörðir«, sagði Konráð, »en þú verður að aðstoða mig á meðan eg svæfi hana með klóróforminu«.

»En ef eg neita að aðstoða þig — hvað þá?« sagði Indverjinn og tók hendi um hökuna.

»Þá neita e g með öllu að svæfa konuna og gjöra skurðina«.

»En þú ferð ekki héðan, fyr en þú hefir framkvæmt þetta verk«, sagði Indverjinn stillilega.

»Er eg þá fangi hér?«

»Já, þangað til að þú hefir framkvæmt þetta verk«.

»En hvaða sönnun hefi eg fyrir því, að eg verði aftur frjáls, þegar verkinu er lokið?«

»Alls enga«, sagði Indverjinn.

»Þú býður mér byrginn?« sagði Konráð.

»Eg er svona hreinlyndur«, sagði Indverjinn, »að eg segi þér, á hverju þú mátt eiga von, ef þú maldar í móinn og neitar að verða við bón minni«.

»Er það dauði, sem þá bíður mín?«

»Langvinnar pyndingar og sárustu kvalir, og — dauði að lokum«.

»Og hið sama gæti beðið mín, þó eg yrði við bón þinni«.

»Það verður þú að eiga á hættu«, sagði Indverjinn sérlega hógværlega — næstum því raunalega.

»Eg býð þér þá byrginn, eins og þú mér«, sagði Konráð einbeittlega.

»Hvernig á eg að skilja það?«

»Á þann hátt, sem þér bezt líkar«, sagði Konráð. »Eg segi það á ný, að eg býð þér byrginn, eins og þú mér. — Eg framkvæmi það, sem þú hefir beðið mig að gjöra fyrir þig, svo framt að þ ú — og enginn annar k a r l m a ð u r en þú —

aðstoðir mig, á meðan eg er að svæfa konuna með klóróformi. Ef þú neitar að gera það, þá ábyrgist þú allar afleiðingar — ábyrgist líf konunnar, og líf allra þeirra, sem eru í þessu húsi — og sérstaklega þitt eigið líf! — Eg hefi nú sagt alt, sem eg ætlaði að segja þessu viðvíkjandi. Gjörðu það, sem þér sýnist bezt«.

Indverjinn varð sem snöggvast ofurlítið ljósari á hörund, en hann átti vanda til. Hann tók hendi um ennið og stóð þegjandi nokkra stund.

»Mega indversku konurnar, sem þú sást áðan, vera inni hjá okkur á meðan þú svæfir skrælingjastúlkuna?«

»Auðvitað mega þær það«.

»En viltu segja mér, á hvaða tungu þú mæltir, meðan þú varst inni í herberginu áðan?«

»Eg ávarpaði indversku konurnar fyrst á ensku og svo á tveimur háskozkum mállýzkum *(gaelic)*«, sagði Konráð. »Og gjörði eg það til að vita, hvort ljóshærða stúlkan skildi nokkurt orð í þeim mállýzkum. En því fór fjarri. Hún mælti á tungu, sem er gjörsamlega ólík öllum þeim tungum, sem eg þekki«.

Indverjinn þagði nokkra stund, og kreisti saman varirnar.

»Eg skal koma með þér og aðstoða þig, herra læknir«, sagði hann að lokum. Og hann gaf stórvöxnu mönnunum í ganginum bending um leið. Þeir hneigðu sig djúpt og færðu sig innar í göngin, þangað sem dimt var.

»En sjái eg blóð«, sagði Indverjinn við Konráð, »þá fær þú að vita, hversu dásamleg pynd-

ingar-tæki hafa verið upp fundin á síðari árum, austur í Asíu, með aðstoð hinnar makalausu menningar kristinna þjóða!«

## IV.

Þeir gengu nú báðir inn í herbergið, þar sem konurnar voru, og hélt Konráð á hattinum í annari hendinni, en töskunni í hinni. Var auðséð, að Indverjinn var hálf-smeikur við það, að ganga inn á gólfið. Hann lét hurðina að vísu aftur á eftir sér, en beið nokkur augnablik fram við dyrnar. — Strax og ljóshærða konan sá, að hann var kominn inn í herbergið, stökk hún á fætur, stappaði í gólfið, og atyrti hún Indverjann á íslenzku, og fauk með eitt og eitt indverskt orð á stangli. Blöskraði honum auðsjáanlega, því að hann setti hönd fyrir höfuð sér við og við, eins og til að bera af sér högg, hnipraði sig saman og gretti sig ámátlega.

Konráð setti töskuna á eitt kringlótta borðið, tók upp úr henni klút, flösku og hníf, fór síðan úr regnkápunni og frakkanum og bretti upp ermarnar á skyrtunni. Kallaði hann því næst á Indverjann og bað hann að aðstoða sig á meðan hann væri að útbúa klóróformið. Hlýddi Indverjinn möglunarlaust, og skauzt fram hjá ljóshærðu konunni, sem stóð á miðju gólfi og helti íslenzkum stóryrðum yfir hann.

En af indversku konunum er það að segja, að þær störðu á Konráð, eins og tröll á heiðríkju, þangað til að hann bretti upp ermarnar á skyrtunni. Þá greip þær geigur svo mikill, að þær stukku

á fætur, orguðu hátt og ámátlega, og hlupu út úr herberginu. — Ljóshærða konan þagnaði og sýndi sig líklega til að fara út á eftir þeim, því að hún gekk fram að dyrunum. Notaði þá Konráð tækifærið, hljóp fram fyrir hana að dyrunum og læsti þeim með lykli, sem stóð í skránni, og stakk svo lyklinum í vasa sinn. Augu hans og konunnar mættust sem snöggvast. En til allrar hamingju sá Indverjinn það ekki.

Þegar Konráð kom aftur að borðinu, tók hann klútinn, braut hann saman, og helti nokkru úr flöskunni í hann. — Það var klóróformið.

»Komdu fast að hliðinni á mér«, sagði hann við Indverjann, »og göngum svo saman þangað, sem konan stendur, og þá bregð eg klútnum fyrir vitin á henni, og verður þú að hjálpa mér á meðan hún brýzt um. Hún er sterk«.

»Of sterk«, svaraði Indverjinn og kom fast að Konráði. »Hún er alt of sterk fyrir mig!«

En hann hafði naumast slept síðasta orðinu, þegar klúturinn með klóroforminu var kominn fyrir vitin á honum (Indverjanum), en vinstri hönd Konráðs aftan á hálsinn á honum. — Ljóshærða konan hljóp að í því, og náði höndum Indverjans aftur fyrir bakið. Hún skildi hvað um var að vera.

Indverjinn brauzt um fáein augnablik, en hann var eins og í skrúfstykki, og fékk ekki hrært legg né lið. Það korraði í honum, og krampa-teygjur fóru um alla vöðva hans, aflið fór úr útlimunum og meðvitundin hvarf. — Þau lögðu hann aftur á bak á legubekkinn, og lokuðu augum hans. Hann and-

aði erfiðlega. — Í belti hans, innan undir gráu kápunni, var nýfægður rýtingur. Konráð tók hann og stakk honum á bak við einn spegilinn á veggnum. Önnur vopn hafði Indverjinn ekki á sér.

»Nú verðum við að komast út hið allra bráðasta«, sagði Konráð lágt og leit framan í ljóshærðu konuna íslenzku. Hún var mjög föl í andliti, og hendur hennar titruðu.

»Fram á ganginn megum við ekki fara«, hvíslaði hún, »þar eru konurnar, sem fóru út áðan, og þar eru líka vopnaðir menn«.

»Nú eru góð ráð dýr«, sagði Konráð. »En veiztu af nokkrum leynidyrum?«

»Nei, engum — engum«.

»Þá verðum við að ryðja okkur braut fram ganginn, og ofan í kjallarann, og þaðan út, og hafa Indverjann fyrir skjöld og brynju. Hvað segir þú um það?«

»Það er óðs manns æði, að reyna slíkt«, sagði hún. »Við kæmumst aldrei lifandi út með því móti«.

»Sérðu þá nokkurt annað ráð, sem er vænlegra?«

»Eg veit ekki«, sagði hún og leit upp í þakgluggann. »En væri nokkur vegur til að komast þarna út?«

»Já«, sagði hann og gleði-bjarmi breiddi sig yfir karlmannlega andlitið hans. — »Þarna verður okkur útgöngu auðið. Og mér datt þetta ekki í hug! — Hér sannast það sem oftar, að konur eru karlmönnum ráðsnjallari. Vertu margblessuð fyrir að taka eftir þakglugganum«.

»En hver veit, hvað við tekur, þegar upp kem-

ur? Þar geta verið menn á verði, eða einhverjar tálmanir fyrir«.

»Eigum það á hættu«, sagði hann, »en eg held að okkur sé nú borgið«.

Hann tók nú öll kringlóttu borðin, sem í herberginu voru, hlóð þeim þannig, hverju ofan á annað, að hann gat klifrað upp að þakglugganum; og tók hann þá eftir því, að nokkur hluti gluggans var á hjörum, og mátti opna hann svo, að fullvaxinn karlmaður gat farið þar út um. — Hann opnaði gluggann með gætni og fór svo ofan aftur, færði konuna í regnkápu, sem hún hafði fundið í klæðaskáp, og batt svo utan um hana silkibandi því, er Indverjinn hafði vafið um sig, (það var um fjóra faðma á lengd). Síðan fór hann í frakkann sinn og regnkápuna, tók töskuna, klifraði upp í þakgluggann af nýju, og hélt með tönnunum í annan endann á silkibandinu. — Þegar hann var kominn út um gluggann, sagði hann konunni að klifra upp á eftir sér, og veittist henni það fremur létt, af því Konráð hélt í bandið. — En ekki voru þau fyr komin út, en þau heyrðu að drepið var hart og snögt á dyrnar niðri, og var að heyra mikinn aðgang frammi í ganginum.

Úti var sama myrkviðris-þokan og verið hafði, logn og hráslaga-kuldi. Ekki sást faðms lengd. En öldu-sog heyrðist skamt frá. — Konráð lét aftur gluggann með mestu varúð, svo ekkert marr heyrðist. Hann tók í hönd konunnar. Þau héldu síðan af stað frá glugganum og leiddust, þreifuðu fyrir sér við hvert fótmál og sögðu ekki orð. — Þau vissu, að þau voru nú á flötu húsþaki, og var

sandur og möl undir fótum þeirra, og heyrðist urg í mölinni, þegar þau gengu. Það var enn óvíst, hversu auðvelt væri að komast niður af þakinu. Konráð bjóst við, að húsið stæði í hlíð, nærri sjó, og þóttist hann vita, að hægara væri að komast ofan þeim megin, sem að hlíðinni vissi. Hann hafði vafið silkibandinu utan um mittið á konunni, því að hann gat búist við að nota það aftur bráðlega, til þess að láta hana síga niður í því, ofan af þakinu.

Þau heyrðu að skarkalinn niðri var alt af að aukast, og að margt fólk var komið inn í herbergið til Indverjans og lét ófriðlega mjög. Og mátti búast við því á hverju augnabliki, að menn kæmu á eftir þeim upp um þakgluggann, og að aðrir biðu þeirra fyrir neðan og réðust á þau, þegar þau kæmu ofan. — Nú var hvert augnablikið dýrmætt. Þau urðu að flýta sér, alt sem hægt var, og fara þó gætilega.

Þau höfðu ekki farið mörg fet, þegar þau fundu að fyrir þeim varð lágur múrveggur, um tvö fet á hæð, og á að gizka hálft annað fet á þykt. Þetta var veggur hússins, þeim megin, sem fjær var sjónum, og var svona hátt yfir þakið. Hallaði þakinu frá múrveggnum ofurlítið. — Nú var um að gjöra fyrir þau, að komast þarna ofan, hvað svo sem tæki við. Konráð batt öðrum enda silkibandsins um töskuna, og rendi henni svo niður til að vita, hvort bandið næði alla leið. En það var nógu langt, og meira en það, því að það var að eins rúm hálf önnur mannhæð niður. Hann dró töskuna strax upp aftur, og lét konuna síga niður, og

gekk það bæði fljótt og vel. Leysti hún þá bandið af sér. Hann dró það upp á ný, rendi töskunni niður, og ætlaði að festa hinum enda bandsins í múrvegginn, ef nokkur kostur væri, til þess að lesa sig niður eftir því, en til þess var enginn tími, því að nú heyrði hann alt í einu, að menn voru að brjótast upp um þakgluggann. Vatt Konráð sér þá út yfir vegginn, rendi sér ofan og kom standandi niður um faðms lengd þaðan sem konan stóð.

Konráð fann strax töskuna. Hann tók í hönd konunnar að nýju, og hlupu þau nú frá húsveggnum, og fundu að brött brekka tók við. — Þau komu vonum bráðara að grjótgarði, sem var um fimm fet á hæð og all-þykkur, og var hann á blábrúninni á brekkunni. Ofan á garðinum var einn þáttur af gaddavír, og var hann víða festur með steinlími. Voru gaddarnir ákaflega langir og þéttir, og var mjög ilt að komast þar yfir, án þess að meiða sig og rífa föt sín. Og varð því að fara mjög varlega. Lyfti Konráð konunni upp á garðinn, kom svo sjálfur á eftir, og hjálpaði henni til að komast ofan af garðinum hinumegin. Gekk þetta alt vel og slysalaust, þó fötin vildu festast á vírnum.

En þegar Konráð var í þann veginn að renna sér niður, og var hálfur kominn út af brúninni á garðinum, þá fann hann að tekið var um úlnliðinn á vinstri hendi hans, og það heldur sterklega, og var hnykt í fast. Sá hann um leið að stórt höfuð, með vefjarhetti á, kom upp á grjótgarðinn, og fylgdu breiðar herðar á eftir. — Ætlaði hann að kippa að sér hendinni og láta sig detta niður. En

þess var enginn kostur. Hann fann að hann komst hvorki upp né niður. Hann hélt enn á töskunni í hægri hendinni, og var að hugsa um að sleppa henni, og reyna að ná (með hægri hendinni) í skegg eða hár hins indverska risa.

»Get eg hjálpað þér?« heyrði hann að konan sagði í lágum hljóðum. Hún vissi ekki, í hvaða nauðum hann var, því að hún sá ekki manninn, sem hélt um úlnlið Konráðs.

Konráð svaraði ekki, því að hann heyrði að menn komu upp brekkuna og voru móðir. Maðurinn, sem hélt um úlnlið hans, blístraði. Og það var blístrað á móti.

Konráð reyndi á ný að losa sig úr járngreipum risans, og tók á öllu afli. En það var alveg árangurslaust. Röndin á steininum á garðsbrúninni gekk enn þá lengra inn í vöðvann á handlegg hans, og hann kendi mjög sárt til. Enda var handleggurinn í þann veginn að brotna, því að allur líkamsþunginn hvíldi á honum.

En rétt í því, að Indverjarnir voru að koma að garðinum, hugsaðist Konráð það bragð, sem bjargaði honum. Hann hóf upp töskuna, og laust henni af öllu afli í höfuð risans. Var það mikið högg, þó taskan væri ekki stór. En hún var járnbent, og í henni voru tvær flöskur og nokkur smá verkfæri. — Í sömu svipan slepti risinn tökum, rak upp hljóð og datt út af garðinum. Og á sama augnablikinu datt Konráð niður hinumegin og hefði meitt sig illa á höfði, þó fallið væri ekki hátt, hefði konan ekki hjálpað honum. — Á höndum skaddaðist hann töluvert, og föt hans voru

rifin allmikið, en töskuna misti hann ekki. Samt varð silkibandið eftir. Það festist á gaddavírnum.

Fyrir utan grjótgarðinn tók við þéttur skógur. Og inn í skóginn hljóp Konráð og konan, eins og fætur toguðu, og leiddust með köflum. Að lokum komu þau á akveg, sáu rafljós fram undan, og heyrðu til ferjunnar við og við. Litlu síðar sáu þau ljósadýrðina í Vancouverborg (og er það fögur sjón), og vissi Konráð nú, að þau voru norðan á *Point Grey*. — Og þar við sjóinn einhversstaðar var hið einkennilega hús Indverjans.

Eftir að þau fóru frá grjótgarðinum, heyrðu þau ekki til Indverjanna. Þeir hafa að öllum líkindum numið staðar hjá risanum, og farið að stumra yfir honum.

»Ertu ekki orðin þreytt?« spurði Konráð.

»Nei«, svaraði hún, »eg gæti hlaupið á heimsenda í einum spretti«.

Það var mjög skamt til dags, þegar þau komu ofan í *Kitsilanó*. Sporvagnar voru komnir á ferð. Þau fóru upp í einn þeirra, kippkorn fyrir vestan Granville-brúna, og höfðu svo vagnaskifti á horninu á Davis-stræti og Granville-stræti, því að Konráð fór með hina ungu, íslenzku konu heim til systur sinnar.

»Hvað heitir þú?« spurði konan, þegar þau voru komin inn í síðari vagninn.

»Konráð Dagsson«, sagði hann.

»Og þú sagðist vera læknir?«

»Já, eg er læknir«.

Þau þögðu nokkra stund.

»Þú hefir meitt þig mikið«, sagði hún alt í einu; »vinstri hönd þín er blóðstokkin«.

»Það er ekki neitt«, sagði hann brosandi.

»Jú, það er mikið. Og alt þetta fyrir mig. Og eg alveg ókunnug þér. Eg get aldrei launað þér«. — Það komu tár í augu hennar.

»Við skulum ekki minnast á það«, sagði hann og tók um hönd hennar.

»Eg heiti Ingibjörg«, sagði hún eftir stundarþögn.

»Ingibjörg«, sagði Konráð, »við erum nú bráðum komin að húsi systur minnar. Þar verður þú alveg óhult, og þar máttu dvelja á meðan þú ert að ná þér aftur, og — eins lengi og þú vilt«.

»Eg þakka þér af öllu hjarta«.

»Eg á líka heima í húsi systur minnar«, sagði hann.

Hún sagði ekki neitt við því, en andardráttur hennar og svipbrigði gáfu það til kynna, að henni þótti hjartanlega vænt um að heyra það. — — — Nokkru síðar var Ingibjörg sofnuð sætt og vært í húsi systur Konráðs.

---

Konráð fór ekki að sofa. Hann fann undir eins yfirmenn lögreglunnar, og sagði þeim frá æfintýri því, er hann hafði ratað í um nóttina. Sögðust þeir vita til þess, að auðugur Indverji hefði fyrir

fám árum sezt að norðan á Point Grey — fast við sjóinn. Og hafði hann látið byggja sér þar hús, sem var meira en hálft í jörðu. Og var það all-langt frá öðrum húsum. Hafði hann nefnt sig *Hakim Múlk*, og var þess getið, að hann væri af indverskri aðals-ætt. En hann þótti dularfullur mjög og sást aldrei á fundum annara Indverja í Vancouverborg.

Um hádegið ók Konráð, og fjórir leyni-lögregluþjónar með honum, í bifreið yfir í Point Grey. Þeir komu að grjótgarðinum, sem Konráð og hin íslenzka kona höfðu klifrað yfir, og fundu þeir þar silkibandið Indverjans. En húsið með flata þakinu lá nú í rústum, það hafði sprungið í loft upp snemma um morguninn, og sást þar enginn maður, hvorki lifandi né dauður. — Menn þar í nágrenninu höfðu heyrt ógurlega hvell-sprenging laust eftir klukkan átta um morguninn, en engum kom til hugar að grenslast eftir því, hvað sprungið hefði. Menn voru svo vanir, í Vancouver og í grendinni, að heyra sprengidynki snemma dags, einkum um dögunina, því að allir stórir tréstofnar voru, til dæmis, sprengdir upp með *dýnamít*, eða öðru sprengiefni, og eins var það notað mikið á þeim árum, þegar kjallarar voru grafnir og grjót og klappir stóðu í vegi.

Hvort Indverjarnir, sem í húsi þessu bjuggu, hafa farið í burtu frá Vancoverborg, eða grafið sig þar niður á öðrum stað, um það vissi enginn. En menn gátu þess til, að þeir hefðu sprengt húsið viljandi.

---

Að endingu skal þess getið, að Konráð læknir kvæntist í aprílmánuði 1911. — Konan hans kvað heita Ingibjörg.

---

# KÍNVERJINN.

Kínverjahverfið á Penderstræti í Vancouverborg er ekki mjög stórt um sig, og ekkert einkennilegt að sjá — að eins nokkur stórhýsi úr múrsteini. En þar er alstaðar kínverskt letur yfir hverjum dyrum. Kínverskar matvörur eru þar í öllum búðargluggum, og er þeim á stundum fremur ósmekklega niðurraðað, og sumar þeirra vekja heldur klígju en matarlyst hjá hvítum mönnum. Og þef þeim, er leggur út úr sumum búðunum þar, getur enginn penni né tunga lýst, og hefir margur sannkristinn maður blótað beizklega, þegar hann hefir kent þann þef. Á sumum götuhornum eru límd dagblöð og auglýsingar með kínversku letri — þessum einkennilegu, hálf-afkáralegu, en þó aðdáunarverðu táknum eins-atkvæðisorða hinnar kínversku tungu. Og á götuhornunum, þar sem þessi blöð eru límd á múrvegginn, standa stórir hópar af Kínverjum allan liðlangan daginn, því að þegar einn fer, þá kemur strax annar í skarðið. Og allir lesa þeir af kappi, eins og letrið á veggnum sé þeim fagnaðar-tíðindi af fjarlægu landi, eða þá hið gagnstæða, en andlit lesendanna gefa manni aldrei neitt til kynna um það: Þau lýsa hvorki sorg né gleði. — Í Kínverjahverfi þessum eru ótal bakgötur,

ótal afkimar og skúmaskot, ótal jarðgöng og leynistígir. Þar eru einnig ýmsar leynidyr og — þar eru leynisalir, loftlitlir, dimmir og daunillir, þar sem *ópíum* er reykt og tekið inn, og þar sem spiluð eru áhættuspil nætur og daga árið um kring, þrátt fyrir allar tilraunir hins ágæta lögregluliðs Vancouverborgar til þess að sporna við þeim ófögnuði. — Og alstaðar úir þar og grúir af þessum gulu mönnum. Enginn getur gizkað á, hvað margir þeir eru í þeim bæ. Enginn hefir rétta hugmynd um það, ekki einu sinni lögreglan, og jafnvel ekki Kínverjarnir sjálfir. Þeir koma þar út úr hverri smugu og fara þar inn um hverja smugu, eins og maurar í mauraþúfu, og eru alt af á ferðinni, en fara þó aldrei hart. Og maður kemst varla áfram eftir gangstéttinni fyrir þeim. Þeir eru sí-talandi, og allir virðast þeir hafa eitthvað fyrir stafni, en hvað það er, verður ekki æfinlega öllum ljóst. Þeir virðast ekki líta til hægri né vinstri handar, en eru þó allra manna athugulastir, og sveima áfram rólegir og sýnilega áhyggjulausir, eins og ungmenni á skemtigöngu. Og lýsir svipur sumra þeirra kynlegu samblandi af lymsku refsins og þráa sauðskepnunnar. Og þó nokkrir hittist á meðal þeirra, sem kalla mætti sannarleg prúðmenni og snyrtimenni, fríða sýnum og gáfulega, þá eru þeir þó yfirleitt sérlega ófríðir (einkum til munnsins), væskilslegir og fráfælandi. En þess ber að gæta að flestir þeir Kínverjar, sem koma til þessa lands, munu vera af lægri stigum, og út-taugaðir af þrældómi og sulti frá æskuárum.

Frá því um vorið 1912, er eg fyrst kom til Van-

couverborgar, og þangað til vorið 1916, að eg fór þaðan, voru allir mínir línkragar þvegnir og sléttaðir af Kínverja, sem hét *Sell Lung*. Hann var hátt á fertugs aldri, þegar eg kyntist honum fyrst, en hann var svo unglegur og svo kvikur og liðugur í öllum hreyfingum, að maður gat ímyndað sér, að hann væri ekki eldri en sextán til átján ára. Eg hefi aldrei séð fullorðinn mann eins grannvaxinn og hann, né nokkrar karlmanns hendur eins nettar og hans, né nokkurn mann eins smáfríðan, píreygðan og tindilfættan. Mér fanst hann alt af að ýmsu leyti ólíkur flestum öðrum Kínverjum, sem eg hefi séð. Hann hafði að vísu afarlanga, kolsvarta hárfléttu aftan í hnakkanum (hana klipti hann aldrei af sér), og augun voru á ská, og kinnbeinin sérlega há, nefið fremur flatt, varirnar ákaflega þykkar, og hörundið ljósgult. Hann gekk á hælalausum ilskóm, var í ermavíðri úlpu, kiknaði mjög í knjáliðum og dinglaði ákaflega öðrum handleggnum, þegar hann hljóp með körfur sínar, sem hann bar á langri stöng, er hann reiddi um öxl sér. Hann átti erfitt með að nefna »r« á eftir »p«, en setti »l« í staðinn. Hann sagði því »plesident« fyrir »president«. — En þrátt fyrir öll þessi kínversku einkenni, sem á honum voru, var hann samt í mínum augum næsta ólíkur Kínverjum þeim, sem eg sá og rak mig á daglega í Kínverjahverfinu við Penderstræti, þar sem alt morar af þessum austrænu mönnum.

Sell Lung var af hinu betra kínverska bergi brotinn, og bar af flestum löndum sínum í Vancouverborg, eins og gull af eiri. En hann átti ekki

heima í Kínverjahverfinu. Hann bjó í snotru húsi, hann átti sjálfur, við Napierstræti í Grandview. Og sem var aldraður maður þar hjá honum. Þar hafði hann dálítið þvottahús. Hann sótti óhreinu fötin heim í hús viðskiftavina sinna, og hafði þá tvær stórar körfur meðferðis og bar þær á burðarstöng (sína á hvorum enda). En þegar hann skilaði fötunum aftur hreinum og sléttum, og innheimti laun sín, þá kom hann æfinlega akandi í litlum vagni, sem lítill, bleikur hestur gekk fyrir, ef til vill sá langfeitasti hestur, sem til var í Vancouverborg á þeim árum.

Í fyrsta sinni, sem eg borgaði honum fyrir línkragana mína, þá þakkaði hann mér fyrir með handabandi, og þótti mér það mjög einkennilegt, því að eg hafði ekki átt því að venjast, að menn þökkuðu fyrir með handabandi, þó þeim væri borgað það, sem þeim bar með réttu.

»Þú ert þá svona«, sagði hann á fremur góðri ensku, þegar hann hafði tekið í hönd mína.

»Hvernig þá?« sagði eg.

»Hjartað er veikt og lundin ör«.

»Af hverju heldur þú það?« sagði eg.

»Eg finn það á handtakinu. Það lýgur aldrei að manni í fyrsta sinn. Og þó höndin sjálf sé köld, getur handtakið verið heitt«.

»Þekkir þú lundar-einkenni manna á handtökum þeirra?« sagði eg.

»Að nokkru leyti. Því að maður með næmu taugakerfi, eins og eg, verður ósjálfrátt var við margt, bæði ilt og gott, sem í öðrum býr«.

»Hvítir menn kalla alt slíkt hégiljur og sjúka ímyndun«, sagði eg brosandi.

»En mentaðir gulir menn vita, að þetta eru háleit sannindi — að þetta er einn þáttur sálarfræðinnar og mjög áríðandi, því að mikið er í það varið, að þekkja mennina, sem við eigum saman við að sælda. Og sjálfa okkur sjáum við aldrei, nema í skuggsjá — við erum alt of nærri sjálfum okkur til þess að sjá okkur á annan hátt. En lundar-einkenni annara eru einmitt sú skuggsjá, sem við sjáum í okkar innra mann«.

»Þú segir að eg hafi veikt hjarta?« sagði eg.

»Já, sérlega veikt«.

»Áttu við það, að eg sé huglítill?«

»Ekki beinlínis, en heldur hitt: að dauðinn sé við hjartarætur þínar. — Þú hefir (eins og hvítum mönnum er svo gjarnt) borðað, þegar þú varst ekki svangur, og drukkið, þegar þú varst ekki þyrstur. Og að lokum varð hjarta þitt sjúkt«.

»Þú hefir verið í skóla?«

»Já, lengi, lengi, en þó of stutt. Eg er enn að læra. Eg veit meira að kvöldi, en eg vissi, þegar eg vaknaði að morgni. Eg er að læra í skóla mannlífsins. Eg er þar samt enn þá í neðsta bekk — er þar altaf nýsveinn«.

»Og hvað ertu alt af að læra?« sagði eg brosandi.

»Eg er að læra að þekkja sjálfan mig. Og eg er að læra að leita að því góða í hug og hjarta bróður míns«.

Einu sinni, þegar hann kom, sagði eg í gamni:

»Á hvað trúir þú, Sell Lung?«

»Eg trúi á minn guð«, sagði Sell Lung; »og hann er svo stór, að hann fyllir út alt rúm og allan tíma«.

»Hvað heitir þinn guð?«

»Hann heitir líf«.

»Fyllir þá lífið út rúm og tíma?« sagði eg.

»Já. — Alheimsrúmið endalausa — takmarkalausa — það er fult af lífi, og er ekkert nema líf«.

»Sérðu jöklana þarna austur frá?« sagði eg og benti á hina fannþöktu tinda Fossafjallanna.

»Já«, sagði hann. »Hinumegin við þá eru blómlegir dalir og fagrar sléttur«.

»Eru jöklarnir líka líf?«

»Já, jöklarnir, þeir arna, eru líf — sofandi líf. Og þau líf vakna einhvern tíma aftur, og taka þá höndum saman við hin starfandi lífsöfl í hinum blómlegu dölum fyrir vestan og austan. Alstaðar er lífið, og það er ekki minna í dag en það var í gær; en dauðinn er ekki til«.

»Er þetta kenning þeirra *Laó-tse* og *Kong-fu-tse*?« sagði eg.

»Það er kenning hins heilbrigða mannsanda«, sagði Sell Lung. »En þið, hvítu mennirnir, haldið að þið einir geymið allan fróðleik, og séuð einu mennirnir í heiminum, sem þekkja ögn inn í leyndardóma tilverunnar. Og þó eruð þið langt á eftir okkur gulskinnunum í flestu öðru en verkfræði. Þið þekkið ekki einu sinni undirstöðuatriði einfaldrar sálarfræði, og vitið hreint ekki, hvað sönn siðfágun er. Þið gangið, til dæmis, enn þann dag í dag inn í hinar skrautlegustu stofur nánustu

skyldmenna og ástvina ykkar með skóna á fótunum, eftir að hafa gengið eftir óhreinum götum, og hugsið aldrei út í það, að þið berið inn á gólfdúkana heila herskara af sóttkveikjuögnum. En þið takið ofan hattana með mestu hæversku, þó þeir mættu eins vel sitja kyrrir á kollunum á ykkur. — Og þegar þið komið saman í kirkjunum til að tilbiðja drottin ykkar, þá sitjið þið í mestu makindum með skó á fótum, hallið ykkur aftur á bak hálfsofandi, og leggið að síðustu fram peninga, sem í svipinn, að minsta kosti, hlýtur að draga hugann frá guði. Og þetta er að eins lítið dæmi af mörgum þúsundum, sem sanna að þið eruð enn þá harla skamt komnir á braut menningarinnar«.

»Ekki skal eg þrátta um þetta«, sagði eg, »en margt mætti líka að ykkar siðfræði finna, ef alt væri vel athugað«.

»Satt er það«, sagði Sell Lung mjög alvarlegur á svipinn, »að við, gulu mennirnir, erum enn börn við móðurknén, en hitt er líka dagsatt, að þið, hinir hvítu menn, eruð ekki farnir að ganga, og skríðið því enn á fjórum fótum á gólfinu«.

Og mér sýndist napurt háðbros leika um varir hans um leið og hann sagði síðustu orðin.

»En þetta er mín gullna regla«, sagði Sell Lung, þegar hann var að fara af stað, »og það var hið háleitasta markmið mannsandans, sem hinn mikli meistari Laó-tse þekti: að vera þeim góður, sem eru góðir, og vera þeim líka góður, sem ekki eru góðir, því að þá verða að lokum allir góðir«.

Nokkru síðar spurði hann mig að því, hverrar þjóðar maður eg væri.

»Eg er fæddur norður á Íslandi«, sagði eg.

»Nú! Ertu fæddur þar? Eg hélt að þú værir Norðmaður«.

»Þú þekkir víst lítið til Íslands?«

»Þú heldur að við Kínverjar séum mjög fáfróðir. En við þekkjum alveg eins mikið til vestrænu þjóðanna sem þið til hinna austrænu. Okkar menning er líka miklu eldri en ykkar. Þegar þið voruð óvita börn, vorum við farnir að draga til stafs. — Jú, eg þekki til Íslands ofurlítið. Eg veit, að þ a ð er stór ísklumpur með leirklessu að sunnanverðu og nokkrum eldgígum hér og þar. Eg veit að þar eru góð fiskimið, og að fólkið, sem þar býr, er af norrænu kyni, og að það á sögu. Þetta lærði eg í skóla. En eina sögu kann eg um Íslending, og þá sögu las eg í dagbók, sem langafi minn skrifaði fyrir meir en hundrað árum«.

»Er það mögulegt, að þú kunnir sögu um Íslending?« sagði eg. »Eg hélt, satt að segja, að þú hefðir aldrei heyrt Íslendinga getið«.

»En svona er það nú samt«, sagði Sell Lung. »Langafi minn kyntist Íslending, þegar hann var á Indlandi«.

»Kyntist hann Íslending á Indlandi?«

»Já, hann kyntist Íslending á Indlandi«.

»Þetta er einhver vitleysa«, sagði eg. »Það er víst mjög sjaldgæft, að Íslendingar hafi komið til Indlands«.

»Og þó er þetta satt. — Þegar langafi minn var

á Indlandi, þá bjargaði Íslendingur lífi hans. — Og langafi minn var *mandarín*«.

»Hvað hét þessi Íslendingur?« spurði eg og bjóst við að heyra eitthvert óþekt nafn.

»Eg skal segja þér, hvað Íslendingurinn hét, því nafn hans er gott að nefna, og enginn af ættmönnum mínum mun gleyma því. — Þessi Íslendingur, sem var lífgjafi langafa míns (og allra niðja hans), hét *Ví-da-lín*«.

Eg horfði fullur undrunar á Kínverjann. En á andliti hans var að eins bláköld alvara.

»Ertu viss um að þú munir rétt?« sagði eg.

»Já, eg man það vel. En er ekki nafnið íslenzkt?«

»Jú, það er að vísu íslenzkt, en þó fremur fágætt. Eg veit til þess, að tveir íslenzkir biskupar og einn lögmaður hafa heitið því nafni«.

»En þessi Íslendingur, sem bjargaði lífi langafa míns, var hvorki biskup né lögfræðingur. Hann var einungis óbreyttur háseti á dönsku kaupskipi, jötunn að afli, hugprúður maður og drenglundaður«.

»Láttu mig heyra söguna«, sagði eg.

»Eg skal gjöra nokkuð«, sagði Sell Lung, »eg skal biðja bróður minn að þýða á ensku þann kafla dagbókarinnar, sem getur um þennan Íslending. Eg er viss um að þýðingin verður nákvæm, því að bróðir minn er hálærður maður, og stundaði lengi nám við einn frægasta háskóla Bandaríkjanna. En nú sem stendur er hann í þjónustu kínverska sendiherrans í Washington. Eg ætla að skrifa honum og biðja hann að þýða kaflann á

ensku og senda mér þýðinguna hið bráðasta. Það er ekki langt mál«.

»Eg þakka þér fyrir«, sagði eg. »Eg er viss um, að eg mun hafa gaman af að sjá, hvað langafi þinn hefir ritað um Íslending«.

---

Eg var alt af að fá meira og meira álit á Sell Lung. Og mér þótti hann aldrei tefja nógu lengi hjá mér. Hann hafði alt af á reiðum höndum einhvern fróðleik, eitthvert spakmæli, einhverja hugvekju, sem kom mér til að skoða ýms málefni frá öðrum hliðum en eg hafði áður gjört. Og eg sannfærðist alt af betur og betur um það, að þessi austræni, einkennilegi, væskilslegi guli maður væri í raun og veru mesti spekingur, vel upplýstur og hreinhjartaður.

Rúmum mánuði eftir að Sell Lung hafði sagt mér frá Íslendingnum, er bjargað hafði lífi langafa hans, kom þýðingin af dagbókar-kaflanum. Og lét Sell Lung ekki lengi bíða, að koma með hana til mín.

»Hérna er þýðingin af dagbókar-kaflanum, sem eg gat um við þig«, sagði hann blátt áfram og rétti mér fáein blöð. »Þú átt að eiga þessi blöð. Og þýddu kaflann á móðurmál þitt, ef þú trúir því, að langafi minn hafi sagt satt um þenna Íslending, sem hann minnist á. Hver veit, nema að Íslendingurinn hafi líka ritað eitthvað um langafa minn í dagbók sína, og að sú dagbók sé enn til norður á Íslandi. Hver getur sagt um það?«

Eg tók við blöðunum með mestu ánægju og

þakkaði Kinverjanum innilega fyrir gjöfina. Sýndist mér ofurlítill gleðibjarmi breiðast yfir andlit hans, er eg tók við blöðunum, eins og eg hefði gjört honum einhvern stóran greiða.

Dagbókar-kaflann las eg með sérlega mikilli eftirtekt. Eg þýddi hann svo á íslenzku stuttu síðar, og er hann orðrétt eins og fylgir:

KAFLI ÚR ÆFISÖGU LUNGS MANDARÍNS.

*595. grein*, sem segir frá manninum kynlega með gullna skeggið, er borinn var og barnfæddur á undra eynni Íslandi; hvernig hann með dásamlegum og dularfullum hætti bjargaði lífi mandarínsins, og á þann hátt fékk því til leiðar komið, að hið helga leyndarmál glataðist ekki með öllu. — Má keisara-ættin kinverska vera þeim manni með gullna skeggið af hjarta þakklát fyrir slíka þjónustu, — og minning hans skyldu allir afkomendur mandarínsins í heiðri hafa, hans nafni aldrei gleyma, og álíta hann um aldur og æfi sannan lífgjafa sinn og velgjörðamann; — skyldu þeir rita nafn hans gullnum stöfum í minnisbækur sínar, en það ógleymanlega nafn er **Vi-da-lin.**

*Hin 595. grein* hljóðar þannig:

Eg dvaldi þrisvar sinnum tuttugu og sjö daga í Búddha-musterinu í Delhi. Á hverjum degi var mèr sagt eitt nýtt orð á annarlegri tungu. Þegar þeir

þrisvar sinnum tuttugu og sjö dagar voru liðnir, hafði eg fest mér í minni níu sinnum níu orð, sem eg hafði ekki minstu hugmynd um, hvað þýddu. En í þeim níu sinnum níu orðum var hið helga leyndarmál fólgið, sem eg átti að færa höfuðpresti Búddha-musterisins í Pekin. Var tímanleg heill og hamingja hinnar himnesku keisaraættar í Kína undir því komin, að eg færi rétt með þessi orð og hvíslaði þeim skýrt og í réttri röð í hægra eyra höfuðprestsins, fyrir innan insta altari hins helga musteris Pekinsborgar, undir eins og eg kæmi þangað. Hversu áríðandi var það þá, að mig brysti ekki minni! Og næsta dýrmætt var mitt auma líf allan þann tíma, sem eg var á leiðinni frá Delhi til Pekin. Og vissulega er það undrunarvert, að sonur himinsins (Kína-keisari) skyldi auðsýna mér, vesælum maðki jarðar, þá ódauðlegu sæmd, að velja mig til þess, að bera hið helga leyndarmál í minu ófullkomna og veika minni alla leið frá Indlandi til Kína. En þetta hið helga leyndarmál mátti enginn færa í letur. Enginn mátti geyma það, nema höfuðprestar Búddha-musteranna í Delhi, Madras og Pekin. Enginn mátti flytja það á milli musteranna, nema sá, er ekki skildi hina annarlegu tungu, sem það var á. Þá tungu talar enginn nú á dögum, nema örfáar þúsundir hvítra manna lengst norður í Evrópu. —

— — Eg lagði af stað frá Delhi með nýju tungli, hafði stuttar dagleiðir, og komst heilu og höldnu til sjávar. Í Gangesár-ósum beið skip það, sem hafði flutt mig yfir Bengal-flóa. Átti það að flytja mig til baka yfir flóann og suður með landi til

Síam. — Kvöldið áður en eg ætlaði að stiga á skipsfjöl, sagði eg þjónum mínum að þeir mættu skemta sér, eins og þeim bezt líkaði, alt til miðnættis, og tóku þeir því með fögnuði. En eg gekk einn míns liðs eftir fljótsbakkanum mér til gamans, og hafði yfir í huganum hið helga leyndarmál. Þegar eg gekk fram hjá lundi einum fögrum, sem stóð nærri fljótinu og all-fjarri húsum, vissi eg ekki fyr til, en á mig var ráðist af tveimur grímuklæddum illræðismönnum. Þeir bundu hendur mínar á bak aftur, tróðu gömlum vefjarhetti upp í munninn á mér, tóku alt, sem eg hafði fémætt á mér, festu stein við fætur mína, settu mig í poka og bundu fyrir ofan. Því næst báru þeir mig fram á blá-bakkann og ætluðu að fleygja mér í fljótið. Hugsaði eg þá, að úti væri um mig með öllu, og þótti mér sú hugsun svo hræðileg, að það steinleið yfir mig. — Þegar eg raknaði við aftur, var eg kominn úr pokanum, búið að leysa hendur mínar og fætur og taka vefjarhöttinn út úr munninum á mér. Illræðismennirnir lágu bundnir skamt frá, og stundu þeir þungan. En uppi yfir mér stóð hvítur maður stór vexti og vel limaður. Hann hafði blá augu, ljóst hár og skegg, sem var eins og lýsigull á litinn. Hann brosti blíðlega til mín, og sagði eitthvað, sem eg ekki skildi, og fékk mér það, sem illræðismennirnir höfðu frá mér tekið. Að því búnu fór hann með hina vondu menn til næsta dómara, sem lét varpa þeim í dýflissu, strax og hann hafði heyrt alla málavöxtu. Og fylgdist eg með hinum hvíta manni til dómarans. En dómarinn hafði í þjónustu sinni Indverja,

sem talaði mál, er hinn hvíti maður skildi. Þenna Indverja bað eg að vera túlk minn, því að eg skildi vel indversku. Og túlkaði hann eftirfylgjandi samtal: »Mikið hefir þú, göfugi hvíti maður, fyrir mig gjört«, sagði eg. Þá svaraði hinn hvíti maður og sagði: »Það er ekki þess vert, að á það sé minst«. Og hann brosti blíðlega. »Eg er þér mikið skuldugur, herra«, sagði eg, »og vil eg, þó eg sé aumur maðkur moldar, biðja þig að sýna mér þann óverðskuldaða heiður, að snæða með mér fátæklega máltið á morgun a skipi minu, sem liggur við akkeri þarna fyrir utan ósinn«. Þá svaraði hann og sagði: »Þér er eg þakklátur fyrir þitt góða boð. En eg get ekki þegið það, sökum þess, að eg sigli héðan i nótt. Og eg get fullvissað þig um það, að þú ert mér um ekkert skuldugur. Það sem eg gjörði fyrir þig i kvöld, hefði eg einnig gjört fyrir hinn versta óvin minn«. »Þetta lýsir hágöfugu hjarta«, sagði eg; »en eg vil biðja þig herra, þó að eg sé litilmótlegur hundur, að þiggja af mér þenna ómerkilega stein, og bera hann til minningar um góðverk það, er þú hefir gjört í kvöld«. Og eg tók upp smaragð þann, er eg hafði tekið að erfðum eftir föður minn. Þá svaraði hinn hvíti maður og sagði: »Nei, nei, góði maður! Eg tek aldrei á móti launum fyrir að bjarga mannslífi«. »Auðsýn mér miskunn, herra!« sagði eg, »og þigg af mér þenna fánýta smástein«. Og hann tók eftir því, að tár streymdu niður kinnar mínar. Þá svaraði hann og sagði: »Eg tek orð mín aftur, eg skal glaður þiggja þenna dýra gimstein og gyema hann til minningar um þakklátsemi þína

og höfðingsskap. Eg þakka þér af öllu hjarta!« Og hann tók smaragðinn og setti hann í lítið veski, sem hann bar í brjóstvasa sínum. »Segðu mér, göfugi herra, í hvaða landi þú átt heima«, sagði eg. Þá svaraði hann og sagði: »Eg er fæddur og upp alinn á Íslandi«. »Má eg, sem er einfaldur og fákunnandi kínverskur mandarín, spyrja þig, hágöfugi herra, hvaða tignarsess þú skipar í ættlandi þínu?« sagði eg. Hann svaraði þá og sagði: »Eg skipa þar ekkert tignarsæti, eg er einungis blátt áfram einfaldur háseti á dönsku kaupfari«. »Æ, hágöfugi herra!« sagði eg, »leyfðu mér, þó eg sé vesælt skorkvikindi, að vita hið rétta nafn lífgjafa míns og velgjörðamanns«. Og hann svaraði og sagði: »Eg heiti *Ví-da-lín*«. — Að því mæltu tók hann í hönd mína og fór sína leið. En eg horfði á eftir honum fullur lotningar, aðdáunar og þakklátsemi. — — — Það er mín trú, að maður þessi hafi ekki verið óbreyttur háseti, heldur konungborinn auðmaður á skemtiför um Austurlönd. En hvort sem hann var hærri eða lægri stéttar, þá á hin himneska keisaraætt í Kína honum mikið gott upp að inna, því að hann bjargaði frá algjörri glötun þeim þætti hins helga leyndarmáls, er snertir hina tímanlegu heill og hamingju þeirrar himinbornu ættar. Eg á þessum hvíta manni hvorki meira né minna að þakka en sjálft lífið, og það getur enginn metið til verðs. Vil eg að afkomendur mínir, í þúsund liðu, álíti hann sannan lífgjafa sinn og velgjörðamann, og leggi nafn hans að jöfnu við nafn *Kong-fu-tse* og — jafnvel *Búddha*.

Þannig var kaflinn úr dagbók (eða æfisögu) Lungs mandaríns, og eg sel hann ekki dýrara en eg keypti.

Sell Lung sá eg síðast í aprílmánuði 1916. Þá var hann á förum til Kína, og kvaðst hann ætla að eyða þeim árum, sem hann ætti eftir ólifað, til þess að kynna sér frumspeki og temja sér mannúð.

»Sumir kenna vísindi við háskólann« sagði hann, »og aðrir þvo óhreint lín, eða sópa götur. Alt kemur það í sama stað niður. Allir erum vér þjónar, og ekkert nema þjónar. — Markmið allrar þjónustu er mannúð. Án þekkingar getur enginn þjónað réttilega. En grundvöllur allrar þekkingar er frumspekin«.

# PRÓFIÐ.

Fyrsta sumarið, sem eg átti heima í Vancouverborg í British Columbia, bjó eg í Kitchener-stræti, sem reyndar hét þá alt öðru nafni. Þá kyntist eg manni, sem hét Ernest Hunter. Hann átti heima í snotru húsi hinumegin í strætinu og beint á móti húsi því, er eg bjó í. Hann var um þrítugt, þegar saga þessi gjörðist, og var ókvæntur, en móðir hans og systir voru þar hjá honum. Hann var fremur lítill vexti, dökkur á brún og brá, en þó fríður sýnum, þægilegur í viðmóti, og sérlega kvikur á fæti.

Mér var lengi ekki ljóst, hvaða atvinnu herra Hunter stundaði. Hann fór af stað til vinnu sinnar á ýmsum tímum sólarhringsins, stundum í býtið á morgnana, stundum um hádegið, og stundum seint á kvöldin. Ekki gat eg á neinn hátt dregið það af klæðaburði hans, í hvaða stöðu hann var, því að stundum var hann búinn eins og algengur verkamaður, þegar hann fór til vinnu sinnar, stundum bar hann smíðatól, með köflum var hann í einkennisbúningi farstjóra á strætisvögnum, oft leit svo út sem hann kæmi af dýraveiðum eða úr gull-leit, og margsinnis var hann til fara eins og hálaunaður embættismaður. Og þóttist eg vita að

hann væri ekki við eina fjölina feldur, og gæti lagt á margt »gjörfa hönd«. — En þegar hann var heima, þá var hann öllum stundum í garðinum, sem var á bak við hús hans. Í rauninni hafði hann gjört allan þann reit, sem hús hans stóð á, að blóma- og jurtagarði. Hann ræktaði hvern einasta þumlung, sem ræktaður varð af þeim reit, alt í kringum húsið. Hann fylti, meira að segja, ótal trog og gamlar skjólur og könnur með mold, og raðaði þeim á tröppurnar og loftsvalirnar og gluggasyllurnar, og plantaði þar blóm og jurtir af ýmsum tegundum. Og öllum þeim jurtum og öllum þeim blómum skipaði hann í flokka með vísindalegri nákvæmni, og hélt glöggva skýrslu yfir það alt, alveg eins og þeir Linnæus og Spotton hefðu gjört, hefðu þeir ræktað þann garð. — Það var eins og hann gæti um ekkert annað talað en blóm og jurtir, eins og hann væri grasafræðin sjálf holdi íklædd og þekti ekkert annað.

Eg gekk oft yfir í garðinn til hans, þegar hann var þar á kvöldin á meðal blómanna sinna. Hann tók mér ávalt vel, og fór undir eins að sýna mér einhverja jurt, sem hann dáðist að og tók að útlista, og varð þá æfinlega mjög margorður. Einu sinni spurði eg hann, að hverju hann starfaði. Hann kvaðst vinna hitt og annað fyrir félag nokkurt þar í borginni. Nefndi hann félagið, en eg kannaðist ekki við það. Eg fann að hann vildi eyða því tali, svo eg spurði hann ekki meira um það.

Eg segi, að mér hafi lengi verið það óljóst, í hvaða stöðu hann var. En samt var eg búinn að

komast að því, áður en eg fluttist frá Kitchener-stræti. Og skal eg nú í fám orðum segja frá því, hvernig eg komst á snoðir um það.

Þannig stóð á, að frændi minn, Sigurður að nafni Sigurðsson, kom vestur til Vancouver frá Winnipeg síðla sumars, árið 1912. Hann var rúmlega tvítugur að aldri og einn síns liðs. Hann var ekki mikill fyrir manni að sjá, var hæglátur og óframfærinn, en greindur vel og fremur vel að sér í enskri tungu, og hafði þó lítið í skóla verið. Hann hafði lengi verið veikur, en var nú á góðum batavegi, og kom vestur á Kyrrahafsströnd í þeirri von, að hann yrði þar fljótara albata en austur í Rauðárdalnum. Hann settist að í húsi mínu, og leið ekki á löngu áður en hann varð svo frískur, að hann fann að hann mundi geta unnið hæga vinnu. En það var enginn hægðarleikur, að fá vinnu við hans hæfi. Eg leitaði víða fyrir mér, og fékk ýmsa í lið með mér, en það kom fyrir ekki. Eg gat hvergi fengið neitt handa Sigurði að starfa nema það, sem honum hefði orðið um megn.

Svo var það eitt kvöld, að eg og Sigurður gengum yfir í blómgarð herra Hunters, og tók hann okkur með mikilli alúð. Eg sagði honum frá ástæðum Sigurðar og spurði hann, hvort hann gæti ekki vísað mér á stað, þar sem fá mætti vinnu handa piltinum. Herra Hunter kvaðst ekki vita af neinum slíkum stað þá í svipinn, en sagðist skyldi láta okkur vita, ef hann kæmist að því, að einhversstaðar væri tækifæri fyrir hann.

»Mundir þú vilja vera sendisveinn og vikapiltur,

ef þú ættir kost á því?« sagði herra Hunter við Sigurð.

»Já með ánægju«, sagði Sigurður, »ef kaupið væri svo gott, að eg gæti lifað af því«.

»Auðvitað er verkamaðurinn verður launanna«, sagði herra Hunter og brosti góðlátlega.

Þremur kvöldum síðar — það var 19. eða 20. sept. — kom herra Hunter yfir í húsið til okkar og hélt á kvöldblaðinu.

»Þið hafið vafalaust tekið eftir auglýsingunni?« sagði hann.

»Hvaða auglýsingu?« sagði eg.

»Frá manninum, sem vill fá tilsögn í íslenzku«.

»F r á m a n n i n u m, s e m v i l l f á t i l s ö g n í í s l e n z k u?« át eg eftir.

»Já, hún hefir staðið í blaðinu í tvö kvöld«.

»Nei, eftir henni hefi eg ekki tekið«, sagði eg. »Og eg hefi ekki litið yfir auglýsingarnar í þ e s s u blaði. Það er morgunblaðið, sem eg les«.

»Lestu þá þetta«, sagði herra Hunter og rétti mér blaðið.

Eg tók við blaðinu og las auglýsinguna með gaumgæfni. Hún var á þessa leið:

*»Ungur Austurlandamaður vill fá tilsögn í íslenzku (fornmálinu) fimm kvöld í viku hverri (tvo klukkutíma í senn), allan næstkomandi vetur. Góð laun verða goldin hæfum manni, svo hann þurfi engu öðru starfi að sinna í vetur, ef hann svo vill. — Umsækjandi skrifi tilboð sitt á ensku fyrir lok septembermánaðar, og tiltaki aldur sinn, þjóðerni og heimilisfang, og sendi til undirritaðs.*

*J ó t a K a p p a.*

*(Pósthólf 13, á skrifstofu Hindúa-blaðsins).*

*Vancouver, B. C«.*

Eg rétti Sigurði blaðið, og hann las auglýsinguna með ekki minni athygli en eg.

»Þarna er gott tækifæri«, sagði herra Hunter. »Þessi Jóta Kappa er án efa auðugur námsmaður frá Indlandi«.

»Eg kann ekki íslenzku svo vel, að eg geti kent hana málfræðislega«, sagði Sigurður.

»En þú getur þó kent honum að l e s a íslenzku?«

»Eg gæti það ef til vill«.

»Skrifaðu þá undir eins í kvöld«, sagði herra Hunter, »og sjáum hvað setur«.

Bréfið var skrifað þá um kvöldið, og kom herra Hunter því á póstinn um nóttina, þá er hann fór til vinnu sinnar.

Tveimur eða þremur dögum síðar kom svar. Það var svona:

*Herra Sigurður Sigurðsson!*

*Eg tek tilboði þínu með fögnuði. Skal launa starf þitt vel. Hittu mig klukkan tólf á hádegi á morgun á efstu tröppu fyrir framan aðaldyr pósthússins.*

*Vinsamlegast*

*J ó t a K a p p a«.*

Daginn eftir, þegar klukkan var hálf-tólf fyrir hádegi, voru þeir Sigurður og herra Hunter komnir að pósthúsinu, og stóðu þeir á efstu tröppunni, sinn á hvorum enda. Fólkstraumurinn út og inn um dyrnar var ákaflega mikill. — Þegar klukkan var tólf, gekk stór maður tötralega til fara upp tröppurnar. Hann nam staðar á efstu tröppunni, leit á víxl til þeirra Sigurðar og herra Hunters, vék sér svo alt í einu að Sigurði og sagði í lágum hljóðum:

»Ert þú hann Jóta Kappa? Eða hvað?«

»Nei«, sagði Sigurður.

»Sló þó ekki klukkan tólf, rétt nána?«

»Jú«, sagði Sigurður.

»Eg þóttist hafa heyrt rétt. Og Jóta Kappa lofaði því upp á æru og trú, að vera kominn hingað á þessa tröppu, þegar klukkan í turninum byrjaði að slá tólf. En hann kvað aldrei vera stundvís, karl sá. Og eg ætla ekki að láta hann hafa mig fyrir varaskeifu«.

Og stóri maðurinn í tötralegu fötunum sneri sér snarlega við, gekk snúðugt ofan tröppurnar og hvarf inn í fólkstrauminn á strætinu.

Klukkan varð hálf-eitt, og ekki kom Jóta Kappa. Klukkan sló eitt, og ekki kom hann.

»Okkur er bezt að halda heim«, sagði herra Hunter. »Við erum búnir að bíða hér í hálfan annan klukkutíma. Hann kemur varla héðan af í dag«.

Síðan héldu þeir heim og sögðu sínar farir ekki sléttar.

Um kvöldið ræddum við um þetta all-lengi, og komumst að þeirri niðurstöðu, að eitthvað sérlegt hefði hindrað Jóta Kappa frá að koma í pósthúsið á þeirri stund, sem hann hafði tiltekið.

Daginn eftir kom bréf til Sigurðar, og var það á þessa leið:

*»Herra Sigurður Sigurðsson!*

*Eg kom á þann stað, sem eg hafði tiltekið, rétt í því, að klukkan í turninum sló tólf á hádegi í gær. Á efstu tröppunni sá eg standa þrjá menn, og var einn þeirra að sjá verulegur flækingsbjálfi. Eg býst við að þú hafir verið einn*

*þessara þriggja manna. En eg vona að þú sért ekki hái maðurinn ræfilslegi, heldur annarhvor hinna. Eg áræddi ekki að ávarpa neinn ykkar, af því, að mig hrylti við hinum ófrýnilega mannræfli. Nú vil eg mælast til þess, ef þú ert ekki hái maðurinn, sem stóð á tröppunni klukkan tólf í gær, að þú hittir mig rétt fyrir innan aðaldyrnar á C. P. R biðsalnum, þegar klukkan í pósthústurninum slær átta annað kvöld. Lát það ekki bregðast.*

*Með vinsemd og virðingu*
*Jóta Kappa.*

»Ætti eg að verða við þessum tilmælum hans?« sagði Sigurður við mig og herra Hunter.

»Sjálfsagt!« sagði herra Hunter. »Eg skal fara með þér og standa álengdar«.

»Og eg skal slást í förina með ykkur«, sagði eg, »og láta sem eg þekki ykkur ekki«.

Og næsta kvöld, nokkru áður en klukkan varð átta, vorum við allir komnir í járnbrautarskálann, en fórum þó ekki allir inn í einu. — Sigurður settist á bekkinn, sem var næstur dyrunum; herra Hunter settist nokkru innar; en eg staðnæmdist fyrir framan stóra auglýsingu, sem hékk á veggnum nærri dyrunum, og lét sem eg væri að lesa af kappi. Eg vildi, sem sé, vera svo nærri Sigurði, að eg gæti heyrt, hvað við hann yrði sagt.

Rétt í því, að klukkan í turninum sló átta, gekk ung Indíánakona inn um aðaldyrnar á skálanum. Hún var fremur lítil vexti, en hvatleg á fæti, og hafði yfir sér ákaflega stórt sjal. Hún staðnæmdist rétt fyrir innan dyrnar og leit alt í kring um sig. Alt í einu kom hún auga á Sigurð, og eins og kiptist við um leið. Hún horfði á hann dálitla

stund, gekk svo til hans hægt og hljóðlega og sagði í lágum hljóðum með útlendum hreim:

»Jóta Kappa, þekkir þú mig?«

»Eg heiti ekki Jóta Kappa«, sagði Sigurður, stóð upp, lyfti hattinum og hneigði sig hæversklega fyrir hinni ungu Indíána-konu, eins og hún hefði verið hvít kona af aðalsættum.

Konan horfði þegjandi á hann litla stund, laut svo ofan að honum og sagði:

»Ef þú ert ekki Jóta Kappa, þá ertu samt svo líkur honum, að líf þitt getur verið í hættu, því að hann á volduga fjandmenn, sem elta hann land úr landi. — Flý þú þessa borg, ungi maður! Hér er þér ekki holt að búa. Flý út í skógana til bræðra minna, Indíánanna, og láttu skóginn vera þér vígi!«

»Eg er þér þakklátur fyrir að vilja aðvara mig«, sagði Sigurður blíðlega; »en eg get fullvissað þig um það, að eg er í engri hættu«.

»Þú heldur að þú sért óhultur«, sagði konan í enn lægri róm en áður. »En vita skaltu, að menn þeir, sem þykjast vera vinir þínir, eru í rauninni svarnir óvinir þínir og reyna á allar lundir að leiða þig á glapstigu. Og trú þú mér, þegar eg segi þér, að hin unga kona, sem fer með þér í leikhúsið og situr þar hjá þér og sóar út fé þínu, er í insta eðli sínu veruleg norn, sem hatar þig af öllu hjarta sínu og allri sálu sinni«.

»Þú fer hér vilt, góða kona«, sagði Sigurður; »eg hefi aldrei farið í leikhús í þessari borg, og þú hefir aldrei séð mig hér á ferð með neinni konu«.

»Þú álítur þá, ungi herra, að eg fari með þvaður og heimsku«, sagði konan þóttalega og steig eitt spor aftur á bak. »Þú veizt ekki, að eg les hugsanir manna og sé forlög þeirra. Þú veizt ekki, að eg sé, hvar þú átt að deyja«.

»Eg legg engan trúnað á forlagakenning eða bábyljur«, sagði Sigurður brosandi.

»Far þú þína leið, ungi herra«, sagði konan, »og sannast á þér máltækið: Ekki verður feigum forðað. Mun þig einhverntíma iðra þess, að þú virðir orð mín og holl ráð að vettugi. Og þú sérð mig aldrei — *aldrei* — *aldrei* framar!«

Indíánakonan unga vafði sjalinu fast utan um sig, eins og það væri hávetur, og gekk svo rösklega og hnakkakert út á strætið.

Við biðum þarna í járnbrautarskálanum í næstum tvo klukkutíma, en aldrei kom Jóta Kappa. Og fór eg að hugsa, að þetta væri gabb eitt og blekkingar. Þeir Sigurður og herra Hunter sögðu fátt, en eg sá það á Sigurði á leiðinni heim, að hann var mjög hugsandi.

Daginn eftir kom bréf til Sigurðar, og var innihald þess svona:

*Herra Sigurður Sigurðsson!*

*Illa tókst að tarna til í gærkvöldi, klukkan átta, þegar eg var rétt í þann veginn að ganga inn í járnbrautarskálann, þá tók eg eftir því, að Indíánakonan var komin inn á undan mér. En af því þessi kona er ekki með réttu ráði, og af því að henni er þar að auki í nöp við mig, þá áræddi eg ekki að fara inn í skálann. Fór eg því heim til mín, og hefi ekki þorað að fara út á strætið í allan morgun, því að eg óttast ekkert í heimi þessum eins mikið og þessa ungu Indíánakonu. — Og enn einu sinni vil eg mælast til þess, að*

*þú reynir að finna mig. Eg verð í fyrramálið á ferjunni, sem fer héðan frá borginni til Norður-Vancouver klukkan hálf-níu. Muntu finna mig hjá stýrishúsinu, strax og ferjan er lögð frá landi. Vona eg, að okkur takist að finnast í þetta sinn, hvað sem á gengur.*

*Þinn einlægur*

*Jóta Kappa.*

Þegar herra Hunter kom yfir í húsið til okkar um kvöldið, og las bréfið, þá sagði hann við Sigurð:

»Eg fæ ekki betur séð, en að þetta sé alt saman gabb og narr, og vildi eg ráðleggja þér, að sinna ekki þessum síðustu tilmælum Jóta Kappa, eða þá að skrifa honum bréf og segja honum, að hann geti komið hingað og fundið þig hér, ef honum er svo ant um að kynnast þér og fá þig í þjónustu sína«.

»Nei, eg ætla að verða við þessum tilmælum hans«, sagði Sigurður. »Eg hefi þegar einsett mér að fara yfir til Norður-Vancouver á ferjunni, sem héðan fer klukkan hálf-níu í fyrramálið«.

»En nú get eg ekki farið með þér í þetta sinn«, sagði herra Hunter, »því að eg verð að vera kominn til New Westminster klukkan níu fyrir hádegi á morgun«.

»Það sakar ekki minstu ögn«, sagði Sigurður; »eg get farið þetta einn«.

»Eg vil hreint ekki að hann fari þetta einn«, sagði herra Hunter og leit til mín.

»Eg skal fara með honum«, sagði eg.

Og morguninn eftir, þegar klukkan var hálf-níu, vorum við Sigurður komnir um borð á ferjunni,

sem ætlaði til Norður-Vancouver. Og þegar ferjan var að leggja af stað frá bryggjunni, þá gengum við rakleitt yfir að stýrishúsinu. Þar stóðu nokkrir ungir menn og voru að tala saman. Og skamt frá þeim sat aldraður Indverji á kassa og var að lesa morgunblaðið. Maður þessi var alskeggjaður og hafði svartan veljarhött á höfði, en var að öðru leyti til fara eins og hvítir menn hérlendir.

»Þetta er Jóta Kappa, að líkindum«, sagði eg á íslenzku við Sigurð.

Sigurður svaraði ekki. Hann horfði á Indverjann nokkur augnablik, og eg sá að augu hans (sem vanalega voru daufleg) urðu sem snöggvast hörð og tindrandi. Hann gekk svo til Indverjans, bauð honum góðan morgun og sagði:

»Ert þú herra Jóta Kappa?«

Indverjinn leit upp.

»Ekki er nú það«, sagði hann með mikilli hægð. »En áttir þú von á honum hér?«

»Já. Eg bjóst endilega við, að hann yrði hér á þessari stund. — Þekkir þú hann?«

»Mæta vel«, sagði Indverjinn. »En hann er maður, sem fáir unna en margir óttast. En veiztu ekki, hver hann er?«

»Nei«, sagði Sigurður.

»Veiztu þá ekki, hvað *jóta kappa* þýðir?«

»Alls ekki«.

»*Jóta Kappa* eru tveir stafir í gríska stafrófinu«, sagði Indverjinn. »En *jóta* og *kappa* eru líka tvö nafnorð í einni mállýzkunni, sem töluð er á Indlandi, og á því máli þýðir *jóta:* »villigöltur«, en *kappa* þýðir: »sá, sem eltir«. *Jóta Kappa* þýðir

þess vegna: »Sá, sem eltir villigölt«. Það getur því trauðlega verið skírnarnafn, heldur mun það vera notað sem dularnafn. Og eg veit að eins um einn mann, sem gengur undir því dularnafni«.

»Er það námsmaður?«

»Námsmaður og námsmaður ekki. Hann er í raun og veru vefari á líkan hátt og köngurváfan. Sá er samt munurinn, að köngurváfan veiðir flugur í vef sinn, en Jóta Kappa veiðir menn í sinn vef. — Forðast þú þess vegna, ungi maður, að koma nærri vef þess manns, nema svo að eins, að þú sért þess megnugur, að rífa hann í sundur, ef þú flækist í honum«.

Að því mæltu hneigði Indverjinn sig og gekk með mestu hægð inn í stýrishúsið. — Nokkru síðar lenti ferjan í Norður-Vancouver. (Það eru að eins tvær mílur enskar yfir fjörðinn). Indverjinn fór þar á land og gekk inn í hús, sem var stutt frá bryggjunni. En við Sigurður fórum til baka aftur til Vancouver með ferjunni, og vorum komnir heim, þegar klukkan var tíu fyrir hádegi.

En hér um bil einni stundu síðar, kom ungur Kínverji með bréf til Sigurðar. (En hin bréfin höfðu komið með pósti). Þetta bréf hljóðaði þannig:

*Herra Sigurður Sigurðsson'*

*Það er að öllum líkindum skrásett í forlaganna bók, að það eigi ekki fyrir okkur að liggja, að sjást í þessu lífi. — Eg var kominn út á bryggjuna í morgun í tæka tíð, búinn að kaupa farseðil, og rétt í þann veginn að stíga um borð í ferjuna, þegar eg gætti að því, að á undan mér gekk sá maður (ef mann skyldi kalla), sem verið hefir mér til meiri ama og mæða en nokkur annar, alt frá því, að eg var o-*

*málga barn, og fram á þenna dag. Og eg fann, að eg hafði ekki skap eða þrek til þess, að fara út á skipið á eftir honum. — Eg treysti því fyllilega, að þú misvirðir það ekki, þó svona óheppilega tækist til. — En nú vil eg biðja þig (og það verður mín síðasta bæn til þín), að koma á eystri sporðinn á Granville-brú, stundu eftir hádegi á morgun. Og skal eg fullvissa þig um það, að þú þarft ekki að bíða eftir mér í þetta skiftið, því að eg verð kominn þangað á undan þér, og eg — þekki þig nú.*

*Þinn vinur*
*Jóta Kappa«.*

Eg sá að Sigurður brosti, þegar hann var búinn að lesa bréfið.

Um kvöldið kom herra Hunter yfir í húsið til okkar, og spurði hann okkur, hvernig farið hefði. Og sögðum við honum alt eins og var, og svo sýndum við honum bréfið, sem komið hafði um daginn.

»Þetta bréf kórónar alt«, sagði herra Hunter. »Eg álít, að þetta sé alt saman gamanleikur drukkinna manna frá upphafi til enda; og vil eg nú ráða þér alvarlega til þess, að fara ekki yfir á Granville-brú á morgun, og láta þenna Jóta Kappa ekki leika lengur á þig«.

»Eg ætla að fylgja þínum ráðum í þessu«, sagði Sigurður, og það brá fyrir einkennilegum glampa í augum hans um leið og hann sagði það.

»Þetta líkar mér að heyra«, sagði herra Hunter. »Þú ert þá loksins farinn að sjá, að hér er ekki alt með feldu«.

»Mig grunaði það undir eins«, sagði Sigurður, »að eitthvað væri bogið við þetta alt saman. — Af hverju kom ekki Jóta Kappa heim til mín, þegar

hann vissi, hvar eg átti heima? Af hverju kom stóri maðurinn ræfilslegi upp á tröppuna í pósthúsinu á þeirri mínútu, sem við áttum von á Jóta Kappa? Og af hverju ávarpaði þessi hái maður mig, en ekki þig, herra Hunter?«

»Eg veit það ekki«, sagði herra Hunter.

»Af hverju kom Indíánakonan inn í járnbrautarskálann á þeirri mínútu, sem Jóta Kappa hafði heitið að koma þangað? Og af hverju gaf hún sig á tal við mig, en sagði ekki eitt einasta orð við hvorugan ykkar?«

»Það er annars nokkuð kynlegt«, sagði herra Hunter.

»Af hverju var Indverjinn við stýrishúsið á þeirri stundu, sem Jóta Kappa hafði lofað að vera þar? Og af hverju hræddist Jóta Kappa konuna og þessa tvo menn svo mjög, að hann gat ekki staðið við orð sín, af því þau voru þarna, og þó ekki nema eitt þeirra í hvert skiftið?«

»Það er í mesta máta undarlegt«, sagði herra Hunter.

»Og hvernig stendur á því, að Jóta Kappa þekkir mig nú, en þekti mig ekki áður?«

»Skrítið nokkuð«, sagði herra Hunter.

»Og hvernig atvikaðist það, herra Hunter, að þú skyldir endilega þurfa að bregða þér til New Westminster einmitt þenna morgun?«

»Já, undarleg tilviljun, vissulega!« svaraði herra Hunter.

»Og það má líka undarlegt heita, herra Hunter, að Indverjinn skyldi hafa augu alveg eins og þín«.

»Eg er dökkeygur eins og Indverjar«, sagði herra Hunter blátt áfram.

»Það var ekki einn saman litur augnanna, sem var alveg eins, heldur einnig sjálft augnaráðið«.

»Já, margt getur verið líkt með mönnum, þó þeir sé ekkert skyldir«, sagði herra Hunter.

»Og nú loksins hefi eg komist að niðurstöðu í þessu kynlega máli«.

»Gaman væri að vita, hver sú niðurstaða er«, sagði herra Hunter glaðlega.

»Eg hefi komist að þeirri niðurstöðu«, sagði Sigurður og talaði mjög hægt og skýrt, »að hái maðurinn tötralegi og Indíánakonan unga (sem vel getur verið piltur) séu í þjónustu Jóta Kappa«.

«Það má vel vera, að svo sé«, sagði herra Hunter. »En hvað heldur þú þá um Indverjann? Gæti hann ekki líka verið þjónn Jóta Kappa?«

»Indverjinn«, sagði Sigurður, »er meira en þjónn. Hann er húsbóndi hinna. Hann er sjálfur Jóta Kappa«.

»Þessu gæti eg bezt trúað«, sagði herra Hunter.

»Og svo skal eg segja þér meira, herra Hunter«, sagði Sigurður, og stálgráu augun hans urðu nokkuð dökk. »Eg hefi í dag, eftir langa og alvarlega íhugun, komist að þeirri kynlegu og næsta ótrúlegu niðurstöðu, að maður sá, sem nefnir sig Jóta Kappa, sé enginn annar en — þú«.

»Vissulega nokkuð einkennileg niðurstaða«, sagði herra Hunter og brosti vingjarnlega framan í Sigurð.

Eg horfði undrandi á Sigurð og herra Hunter á víxl. Þeir virtust skilja hvorn annan, en eg skildi

hvorugan. Mér fanst hvorttveggja alveg óskiljanlegt: d i r f s k a Sigurðar og s t i l l i n g herra Hunters.

Eg vék nú talinu að blómarækt. Ræddi herra Hunter um það efni fram eftir kvöldinu og virtist leika á als oddi. Hann kvaddi okkur svo með mestu alúð, tók þétt í hönd Sigurðar, og gekk út úr húsinu með bros á vör.

Næsta dag (sem var laugardagur) kom unglingspiltur (hvítur) um nónbilið með bréf í bláu umslagi til Sigurðar. Og var bréfið orðað þannig;

*»Vancouver, B. C. 28. sept. 1912.*

*Herra Sigurður Sigurðsson!*

*Hér með tilkynni eg þér, að leynilögreglumannafélagið N. N. hefir ákvarðað að taka þig í þjónustu sína, ef þú vilt gefa kost á þér. Launin verða $ 20 (tuttugu dollarar) um vikuna fyrsta árið. — Þú hefir staðist próf það, sem heimtað er af nýsveinum félagsins, og gleður það mig að geta sagt þér, að þú hefir lokið því prófi með ágætis-einkunn.*

*Með virðingu þinn*

*E r n e s t  H u n t e r.*

*(Formaður leynilögreglumannafél. N. N. í Vancouver B. C.).«*

Eg skal geta þess að síðustu, að Sigurður þáði boð herra Hunters með mikilli ánægju. Var Sigurður í þjónustu félagsins í full þrjú ár, og fór svo austur aftur til Manitoba. En meðan hann var í þjónustu félagsins, reyndist herra Hunter honum eins og bezti bróðir.

---

# KOFINN Á FELLSTINDI.

---

*Bowen-ey* liggur í *Howe*-sundi, og um tólf til fimtán mílur enskar frá borginni Vancouver í British Columbia. Þar er fremur hrjóstrugt land og sæbratt mjög, en fagurt útsýni, og þykir þar jafnan veiðisælt til lands og sjávar. Bændabýli eru þar fá, enn þá sem komið er; en fjöldi fólks frá Vancouverborg dvelur þar á ýmsum stöðum, á sumrum, sér til skemtunar og heilsubótar, og eru húsin flest með »bungalow«-lagi, snotur og þægileg.

Einn sumarbústaðurinn á Bowen-eyju heitir *Bindleys-landing*, og er þar ekki alveg eins sæbratt og annarstaðar á eynni. Þar er bryggja allmikil í litlum vog, og liggur akvegur frá henni upp í mitt fjallið. Meðfram veginum, til beggja handa, eru nokkrir sumar-skálar og fáein bændabýli, og hefir hvert þeirra sérstakt nafn, eins og sveitabæir á Íslandi og höfðingjasetur á Englandi. Þar sem akvegurinn endar í miðri fjallshlíðinni, taka við klettastallar, hver upp af öðrum, og efst uppi á brúninni á fellinu er dálítill sumar-skáli, sem heitir á »Fellstindi« *(Hill Crest)*. Er þar yndisfagurt útsýni, og sést þaðan ljósadýrðin á *Shaughnessy*-hæðum í Vancouverborg um nætur, þegar ekki er þoka. Koma þar í ljós ýmsar kynjamynd-

ir fjallanna við sjóinn. Og þaðan má glögglega sjá hinn »Sofandi risa« á fjallgarðinum fyrir austan sundið. Liggur hann þar upp í loft, karlinn, eins og á legubekk, með krosslagða arma á bringunni, og kreppir hnén ofurlítið. Hefir hann hæstu gnípuna fyrir kodda, og spyrnir fótum í hnúka tvo um tuttugu mílum norðar. Er hann næsta mikilfenglegur í sjón að sjá, brúnaþungur, með hrukkótt enni, og kinnbeinastór, og liggur snjóskafl á nefinu á honum fram að Jónsmessu, ár hvert. — Allir, sem koma á Fellstind á Bowen-eyju og hafa glögt auga, verða hrifnir af hinni fögru fjallasýn, og mun þeim flestum verða starsýnt á risa þenna. En þó virðist sem Indíánarnir við Howesund hafi gefið karli þessum lítinn gaum, því að skáldkonan E. Pauline Johnson *(Tekahionwake)* getur þess ekki í *Legends of Vancouver*, að gamli *Capílanó* hafi svo mikið sem minst á hann einu orði, þegar hann sagði henni þjóðsögurnar fögru, sem Indíánarnir í British Columbia hafa geymt frá alda öðli.

Það var hinn fyrsta dag júlímánaðar 1915, að eg kom í fyrsta sinn til Bindley's-landing á Boweneyju. Ung hjón, sem eg þekti, dvöldu þar, þá um sumarið, og bjuggu í sumarskálanum snotra á Fellstindi. Var konan íslenzk, en maðurinn af frakkneskum ættum. Fór eg og konan mín þangað til að finna þau. Veður var hið bezta: glaða sólskin allan daginn, og hæg og hressandi gola af hafi. Þótti okkur yndislegt að standa á klettabrúninni fyrir framan skálann og horfa á býlin fyrir neðan, á blómskreytta aldingarðana í hlíð-

inni, og á bátana úti á sundinu, og barst upp til okkar áraglamur, mannamál og — sætur ilmur blómanna. — Út úr klettunum, hér og hvar, uxu há og digur tré, sem teygðu kollana upp fyrir efstu hamrastallana, eins og til að litast um og sjá, hvernig umhorfs væri þar uppi. En uppi á fellstindinum var þéttur skógur, sem að mestu var ungviði, og var hann þó næsta stórvaxinn. — Dálítill, silfurtær lækur kom fram undan neðsta hjallanum, og hoppaði og skoppaði ofan hlíðina, og suðaði og söng við hnöllungana, unz hann að lokum hneig í faðm lognöldunnar, sem læddist inn voginn, eins hljóðlega og móðir að vöggu sofandi barns. —

En bratt er upp að ganga, þegar farin er styzta leið frá voginum til sumarskálans á Fellstindi, og liggja þar stigar upp klettana, og taldi eg þrjátíu og sex rimar í einum þeirra. — En við fórum ekki upp þessa stiga, því að mig sundlar jafnan, ef eg klifra hátt, og var okkur fylgt eftir stíg, sem lá á ská upp fellið, þar sem það var kjarri vaxið alla leið upp á brún, og ekki eins bratt og við sjóinn.

Eg og konan mín undum okkur vel þenna dag hjá hinum ungu hjónum og litlu dóttur þeirra. Við sátum lengi á veggsvölum sumarskálans, í forsælunni þar og svalanum, og notuðum vel hinn ágæta sjónauka, sem bóndinn átti, og töluðum um heima og geima.

Eg tók strax eftir því, að neyzlu-vatnið á Fellstindi var sérlega gott og tært og svalandi.

»Hvar fáið þið svona ágætt neyzluvatn?« spurði eg húsráðanda.

»Vatnsbólið er hérna inni í skóginum á Fellstindinum«, sagði hann, »og ef þú vilt, skal eg sýna þér það«.

»Já, umfram alla muni vil eg fá að sjá það«, sagði eg.

Og rétt eftir nónbilið fórum við inn í skóginn á fellinu, til þess að sjá þetta undraverða vatnsból. Við gengum um hríð eftir krókóttum, en glöggum stíg, og komum eftir stundarkorn að brunninum. Hann var hér um bil tólf fet á dýpt, og um þrjú fet að þvermáli, og var haglega hlaðinn innan með hnöllungum. Þar, sem brunnurinn var, hafði áður staðið feykilega hátt og digurt furutré, sem vindurinn hafði rifið upp með rótum fyrir æfalöngu, og var bolur trésins mosavaxinn og fúinn, en rótin hélt sér furðanlega vel, enn þá, og var að mestu ófúin, og hlífði vatnsbólinu fyrir rykinu, sem barst með vestan-gustinum.

Hér um bil tíu faðma frá brunninum stóð lítill og hrörlegur kofi í ofurlitlu rjóðri, sem einhverntíma hafði verið matjurtagarður, en var nú vaxið háum og grófgjörðum burkna. Í kringum rjóðrið var girðing úr sedrusviðar-rimlum, en víða var hún þó brotin niður, bæði af manna völdum og eins af trjám, sem fallið höfðu á hana í ofviðrum. Kofinn var á að gizka fjórtán fet á lengd, og tíu eða tólf fet á breidd, og voru veggirnir úr grönnum trjábolum (ef til vill úr furu), en þakið var úr sedrusviðar-skífum, sem frumbýlingurinn hafði klofið með exi sinni — að líkindum eina verkfærið, sem hann hefir átt, að undantekinni reku. Á öðrum gafli kofans var allstórt vindauga, sem

notað hefir verið fyrir glugga, og lá þar fyrir neðan kassalok með leðurhjörum á, og hafði það auðsjáanlega verið notað til þess að byrgja vindaugað, þegar þurfa þótti, bæði um nætur og í vondum veðrum. Hurðin var úr sama efni og þakið, og stóð í hálfa gátt. Eg gekk inn og litaðist um. Gólfið var úr mjóum, telgdum kylfum, og voru þær vel saman feldar, og báru þess vott, að sá, er smíðaði kofann, hafði vandað betur til gólfsins en nokkurs annars þar á nýbýlinu, að undanskildum brunninum. — Í einu horni kofans stóð lítil, ryðguð og marg-sprengd hitunarvél, og var hlaðið undir hana nokkrum hellum, því allir fæturnir voru týndir. Eitt lítið borð var þar, sem leit út fyrir að hafa einu sinni verið lok eða botn á vörukassa. Var önnur rönd borðsins föst í veggnum milli bjálkanna, hin röndin, sem var öll með smáskorum, hvíldi á tveimur rimlum, er negldir voru í gólfið. Í miðju borðinu var gat, sem gjört hafði verið með tálguhníf, og var bersýnilegt, að gat þetta í borðinu hafði verið notað sem kertapípa, og mátti glögt sjá, að síðasta kertið, sem þar hafði brunnið, var úr tólg, en ekki vaxi. — Við þann stafn kofans, þar sem vindaugað var ekki, stóð all-breitt rúmstæði úr sedrusviðar-rimlum, og var það enn fult af hálmi (þurrum burkna) og mosa, og var mikið meira af mosanum í þeim enda rúmstæðisins, sem nær var borðinu, og hefir höfðalagið að líkindum verið þar, sem mosinn var meiri.

Eg tók eftir því, að á einn rúmstöpulinn höfðu verið skorin, með oddhvössum hníf, þrjú upphafs »Ó«, og þótti mér það einkennilegt vegna þess, að

punktur (eða áherzlumerki) var yfir þeim öllum. En þó var annað, sem mig furðaði meira á, og það var það, að eg fann þarna í kofanum *titilblaðið* af Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar fyrir árið 1899. Var það af stakri tilviljun að eg rakst á það. Því hafði verið smeygt inn í rifu á bjálka í veggnum á bak við hitunarvélina, og var dálítil ræma rifin af því langsetis, og hafði henni líka verið smeygt inn í rifuna á bjálkanum. En á ræmunni stóð skrifað: »*Ós. Óf. Ól.*« Og voru stafirnir bláir.

Eg varð alveg hissa, þegar eg gætti að þessu, og tók eg nú til að leita í öllum kofanum, hátt og lágt — eða réttara sagt: eg athugaði hverja rifu og sprungu í bjálkunum í kofanum — til þess að vita, hvort eg fyndi ekki meira, sem benti á, að hér hefði Íslendingur komið. En hversu vel sem eg leitaði, þá sá eg engin önnur merki, er bent gæti á það.

»Hér hefir Íslendingur komið«, sagði eg við hinn unga mann, sem með mér var. Og eg sýndi honum blaðið, er eg hafði fundið, og benti honum á stafina á ræmunni og á rúmstöplinum. »Hver veit, nema að Íslendingur hafi átt hér heima? Eða veiztu, hver það var, sem bygði þenna kofa, og gróf brunninn þarna?«

»Ekki veit eg það«, sagði hinn ungi maður. »Mér hefir verið sagt, að kofi þessi hafi staðið í eyði um mörg ár, og að sá, sem bygði hann, eigi nú heima í borginni Victoría. En eini maðurinn hér nærlendis, sem nokkra fræðslu gæti veitt okkur um þetta efni, er hann Daníel Scott, sem býr hérna undir fellinu, og er elzti búandinn hér á eynni«.

»Mig langar til að hafa tal af Daniel Scott«, sagði eg, »því að hver veit, nema að hann geti satt forvitni mína«.

Að hálfri stundu liðinni vorum við komnir heim á búgarð Daníels Scott. Hann var írskur í húð og hár — þó nafnið hans benti ekki á það — og fæddur í Belfast á Írlandi; var hann meðalmaður á vöxt, nokkuð hniginn á efra aldur, en þó vel ern og frísklegur. Hús hans var snoturt, og var stór aldingarður kringum það. Lifði hann aðallega á aldina- og berjarækt, en hafði jafnframt fáeinar kýr og seldi mjólk á sumrum. Við hittum hann úti í garðinum, og tók hann okkur vel, og fór strax að tala um stríðið mikla í Norðurálfunni. En eftir nokkra stund vék eg talinu að búskapnum þar á eynni, og spurði eg Scott, hvað lengi hann væri búinn að vera þar. Og kvaðst hann vera búinn að dvelja þar síðan árið 1894, og vera hinn fyrsti hvíti landnemi í Bentley's-landing.

»En hver bygði fyrst á Fellstindi?« spurði eg.

»Á Fellstindi?« sagði Daniel Scott og horfði á mig stórum augum. »Já, það er nú saga að segja. Þar bygði maður, sem *Ólson* hét, eða að minsta kosti var hann kallaður það, þó nafn hans hafi, ef til vill, ekki verið stafað þannig. Hann var Íslendingur —«.

»Og var hann Íslendingur?« sagði eg.

»Já, alveg óblandaður Íslendingur«, sagði Scott í hjartans einlægni, »og heljarmenni að burðum, og köttur liðugur, með fagurgult hár og himinblá augu, eins og sagt er að víkingarnir gömlu hafi haft — þeir heljar-risar og voða-skálkar, víking-

arnir norrænu. — Eg var hér fyrir, þegar Íslendingurinn kom hingað með konuna og barn-ungann og settist að þarna uppi á fellinu. Konan hans var forkunnar-fríð og elskuleg, og var sögð að vera af spánverskum ættum frá Mexico. En þau fluttust hingað frá Suður-Californíu vorið 1895. Íslendingurinn bygði sér ofurlítið hreysi þarna uppi á fellinu, ruddi þar blett, og gróf góðan brunn. Og sjást þess glögg merki enn í dag. Hann var samt fremur latur og enginn búsýslumaður, en svo sterkur var hann, að hann bar tvo hundrað-punda hveitisekki (annan á baki og hinn í fyrir) upp hamrana hérna fyrir ofan, og alla leið upp á fellstindinn, án þess að hvíla sig eða verða móður. — Og þetta er eins satt og eg stend hérna. — Hann var fámálugur og hversdags-gæfur, en það var ekki við lambið að leika sér, ef honum rann í skap. — Eg man það, rétt eins og það hefði gjörst í gær, þegar hann fór með mér og Íranum stóra, honum Pat Harrigan, inn til Vancouver-bæjar, haustið 1897. Við þrír vorum þá einu búendurnir á Bowen-eyju. Þetta haust fórum við allir saman kaupstaðarferð til Vancouver-bæjar á litlu ferjunni minni, sem varla mátti kallast tveggja-manna far, þó svo ætti að heita. Okkur gekk ferðin mæta-vel til Vancouver-bæjar, sem þá var lítill bær í samanburði við það, sem hann er nú. Við drekkhlóðum þar bátinn og lögðum af stað heimleiðis svo síðla dags, að sólin var sezt, þegar við vorum komnir út á móts við *Siwash*-klett. Kul var á móti og urðum við að róa, og gekk alt skaplega í fyrstu. En þegar við vorum komnir á miðja leið, var Pat

Harrigan orðinn mjög drukkinn — því að hann hafði stóra rommflösku með sér og saup oft á henni — og var hann farinn að láta all-ófriðlega, en var þó jafnan hinn mesti spektar-maður ódrukkinn. Létum við hann hætta við róðurinn, og settist hann þá á öftustu þóftuna, en tók brátt til að halla sér út á borðstokkana og vagga bátnum, og það svo mjög, að sjór kom inn með köflum, og stóð okkur mikil hætta af þessum látum hans, einkum eftir að sjórinn fór ögn að ókyrrast. — En Pat Harrigan var ákaflega stór og þungur og mesta heljarmenni að burðum, og urðu drykkjulæti hans alt af verri og hættulegri eftir því, sem lengur leið. »Þetta horfir til vandræða, kunningi«. sagði eg við Íslendinginn. »Þú skalt þá róa einn það sem eftir er«, sagði hann lágt við mig, »og skal eg reyna að halda þrælnum í skefjum, þangað til við komum í land«. »Gjörðu það, heillakarlinn«, sagði eg, »því að öðrum kosti veina þrjár ekkjur í Bindley's-landing í fyrramálið, og átta föðurlaus krakka-grey«. Nú settist eg á fremstu þóftu, og tók einn við báðum árum, og reri af öllum kröftum, en Íslendingurinn settist á búlkann fyrir framan Pat Harrigan, eða kraup þar öllu heldur, eftir að hafa fært tvo eða þrjá vörusekki fram í bátinn, svo að hann væri ekki eins afturhlaðinn. »Gef mér að súpa á«, sagði Íslendingurinn við Pat Harrigan, þreif af honum rommflöskuna og fleygði henni fyrir borð. »Vogar bölvaður Íslendingurinn!« sagði Pat Harrigan og ætlaði að rísa á fætur. En Íslendingurinn — sá heljar-víkingur — fleygði sér ofan á hann og hélt

honum eins og litlum hvolpi, svo hann hreyfði hvorki legg né lið. En það marraði, small og brast í liðamótunum á þeim, og það fór einhver undarlegur titringur um allan bátinn, eins og dauðateygjur í nautsskrokk á blóðvellinum. — »Eg er stór!« sagði Pat Harrigan. Það var máltak hans, þegar hann var drukkinn, og þá vildu fáir fást við hann. — »Eg er stór — stór eins og jörðin!« sagði hann og gnísti tönnum. »En eg þekki tvo, sem eru stærri«, sagði Íslendingurinn. — Og þá hló strákurinn í mér. — »Og hverjir eru þeir?« sagði Pat Harrigan, og það var hrygla fyrir brjóstinu á honum. »Dauðinn og —« sagði Íslendingurinn og hvíslaði einhverju í eyrað á honum, en mér heyrðist það vera ljótt. Eftir það sagði Pat Harrigan ekki orð. En brestir og brak í liðamótum, og gnístran tanna, barst mér að eyrum við og við. — Nóttin var koldimm, og það rigndi með köflum. En eg reri eins og hinn helgi Patrekur mundi gjört hafa við slíkt tækifæri. Náðum við um miðjan morgun til Bindley's-landing, og var Pat Harrigan þá svo lémagna, að eg og Íslendingurinn urðum að bera hann á milli okkar heim í kofann hans. En mér og Pat Harrigan kom saman um það, síðar meir, að Íslendingurinn hefði bjargað lífi okkar allra þá nótt. Og aldrei drakk Pat Harrigan áfengt vín upp frá því, en hann var lengi stirður í liðamótum eftir ferðalag þetta, og tók æfinlega ofan, þegar hann sá Íslendinginn. — Og góður drengur var Ólson, eða hvað hann hét!»

Og gamli Daníel Scott horfði upp í fellið, eins

og hann byggist við að sjá Íslendinginn koma þar fram á einhvern klettastallinn.

»En hvað varð svo um hann?« sagði eg.

»Ja, og það er nú líka saga að segja«, sagði Daníel Scott og leit í kringum sig. »Hann fór héðan alfluttur vorið 1905, og var, að sögn, um tíma í Portland í Oregon, en mun svo hafa komið til Vancouverborgar, keypt þar fimm ekrur af landi á *Shaughnessy-hæðum*, eða þar í grendinni, og bygt sér þar mjög vandað íbúðarhús. Er sagt að hann eigi þar heima á sumrum, en á vetrum dvelur hann í Portland, því að þar á hann fallegt heimili, að sögn, því að hann varð alt í einu stór-auðugur maður — og ef til vill miljónaeigandi«.

»Með hvaða hætti varð hann svona auðugur alt í einu?« spurði eg.

Daníel Scott leit aftur í kringum sig

»Enginn, sem hér er, veit það með neinni vissu«, sagði hann lágt, »en menn geta þess til, að hann hafi fundið hinn mikla fjársjóð — gull og dýra steina — sem hann Gómez, sjóræninginn illræmdi frá Mexicó, gróf í jörðu hér á Bowen-eyju veturinn 1852, rétt áður en hann sigldi til Alaska, þar sem hann dó sumarið eftir. — Þykir ekki ólíklegt að kona Íslendingsins hafi verið dóttur-dóttir ræningjans Gómezar (af því að hún var ættuð frá Mexicó), að hún hafi vitað að fjársjóðurinn var falinn hér á eynni, og að þau þess vegna hafi sezt hér að og dvalið hér öll þessi ár. — Og eftir því tóku menn, að Íslendingur þessi svaf oft undarlega mikið um daga. Og síðasta veturinn, sem hann var hér, fór hann oft og iðulega einn á bát sínum

til Vancouverborgar, og lagði æfinlega af stað að heiman löngu fyrir dag. — En hvað sem öðru líður, þá er það deginum ljósara, að Íslendingur þessi varð alt í einu stór-auðugur á mjög dularfullan hátt. — En eg hefi aldrei séð hann síðan hann kvaddi mig, vorið 1905. — Og hann Pat Harrigan býr þarna fyrir handan voginn, og er nú orðinn gildur bóndi, af því að hann hætti að drekka«.

Og Daníel Scott horfði aftur upp í fellið.

»Vitið þið það, piltar«, sagði hann eftir stundarþögn, »að eg vildi heldur eiga blettinn, sem kofinn á Fellstindi stendur á, en þenna búgarð, sem þið sjáið hér?«

---

Nokkru síðar kvöddum við herra Scott og gengum upp að sumarskálanum á Fellstindi. En á leiðinni þangað hét eg því með sjálfum mér, að eg skyldi reyna að komast eftir því, hvað satt væri í þessari sögu um hinn dularfulla, stórauðuga Íslending. — Og nokkru eftir að eg kom heim aftur til Vancouverborgar, tók eg til að grenslast eftir því, hvort þessi maður ætti þar heima. En hingað til hefi eg einskis vísari orðið í því efni.

---

# MAÐURINN MEÐ ÖRIÐ Á ENNINU

# MAÐURINN MEÐ ØRIÐ Á ENNINU.

Í byrjun nóvembermánaðar 1915 fórum við (konan mín og eg) snöggva ferð til borgarinnar Victoria á Vancouver-ey. Við stigum á skipsfjöl í Vancouverborg snemma morguns, höfðum tveggja klukkutíma viðdvöl í Victoria, og komum heim aftur til Vancouver klukkan sjö um kvöldið. — En skipaleiðin á milli þessara borga er um áttatíu mílur enskar.

Veðrið var inndælt þenna dag, og stafalogn á Georgia-flóanum. Skipið var (eins og öll C. P. R. skipin) bæði fallegt og hraðskreitt, og hafði öll þau þægindi, sem hægt er að hugsa sér á skipi. Og mætti helzt líkja slíkum skipum við vönduðustu *hótel*. Allir pallar og stigar undir þiljum eru þaktir dýrustu dúkum, mjúkum og þykkum, og bekkir og hægindastólar eru af beztu tegund, og alt er eftir því. Það fer sérlega vel um farþegann á þessum ágætu skipum, og honum líður þar vel, ef hann er ekki veikur. Og þegar hann situr í hinum skrautlegu sölum undir þiljum, þá er ekkert sem minnir hann á, að hann sé á skipi, nema titringurinn, sem vélarnar orsaka, þegar þær hreyfast og knýja skipið áfram.

Ferð okkar til Victoriuborgar, í þetta sinn, var

eingöngu til skemtunar, þó viðdvölin væri svona stutt. Og gekk alt slysalaust. Við vorum ein okkar liðs, og þektum engan á skipinu. Á leiðinni heim sátum við lengst af undir þiljum, í einum af hinum skrautlegu sölum, og töluðum við saman á íslenzku.

Þegar skipið var komið út á miðjan Georgiaflóann, kom maður og stúlka inn í salinn, sem við sátum í, og settust þau skamt frá okkur, og sátu þannig, að við sáum vel í andlit mannsins, en stúlkan sneri að okkur vanga. Þau vöktu undir eins eftirtekt okkar, vegna þess, að þau voru bæði mjög sérkennileg og töluðu saman á tungumáli, sem við ekki skildum. Maðurinn var á að gizka hálf-fimtugur að aldri, hár og herðibreiður, höfðinglegur sýnum og bjartur yfirlitum, hann hafði blá augu, djúp og gáfuleg, og mikið og kúft enni með stórum hofmannavikum. Hár hans og efrivararskegg (sem var mikið) var að byrja að grána, en hafði auðsjáanlega verið glóbjart á yngri árum. Hann var í dökkum fötum úr mjög dýru klæði, og fóru þau honum sérlega vel. En það, sem einna mest einkendi hann, var gríðarstórt ör, sem var á ská yfir ennið á honum, alt frá hársrótum og ofan á hina vinstri augabrún. Þegar hann gekk inn í salinn, hélt hann á hattinum í hægri hendinni, og bar yfirhöfnina á vinstri handleggnum. — En stúlkan, sem með honum var, leit út fyrir að vera um tvítugt. Hún var lág og gild, með hrafnsvart hár mikið, og fremur dökkan hörundslit. Hún var ekki verulega fríð sýnum, en hafði þó falleg augu, var gáfuleg og bauð af sér góðan þokka. Búning-

ur hennar var dökkgrár, úr sérlega vönduðu efni, og smekklegur. Hún bar ekkert gullskart, svo sjáanlegt væri, og hatturinn hennar var ekkert skrautlegur, en þó fallegur.

Eg þóttist vita, að þau (maðurinn og stúlkan) hefðu komið um borð í Victoríuborg, því að eg hafði ekki séð þau á skipinu fyr en þetta. Og af því eg heyrði að þau mæltu á tungu, sem eg skildi ekki, þá fanst mér það sennilegt, að þau væru útlendingar á skemtiför um Norður-Ameríku.

»Hvaða tungumál er þetta, sem þau tala«, sagði konan mín.

»Eg veit það ekki með neinni vissu«, sagði eg, »en eg get þess til, að það sé spánverska eða portúgalska, þó maðurinn sé reyndar sérlega líkur Norðmanni, og stúlkan að öllum líkindum frakknesk eða ítölsk«.

»Og mér sýnist maðurinn vera svo dæmalaust líkur einum íslenzkum manni, sem við þektum í Manitoba«, sagði konan mín.

»Og hver var það?« sagði eg.

Hún nefndi mann, sem við höfðum kynst í Nýja-Íslandi.

»Það getur verið«, sagði eg, »að þeir séu nokkuð svipaðir, fljótt á að líta, en sá maður er þó ekki eins hörkulegur og þessi«.

»Það er örið á enninu, sem gjörir þenna mann hörkulegan á svipinn«, sagði konan mín.

»Og líka drættirnir í kringum munninn«, sagði eg.

En rétt í því, að eg slepti orðinu, stóð maðurinn upp, gekk yfir til okkar, hneigði sig hæversklega, og settist við hliðina á mér.

»Fyrirgefið mér, þó eg ávarpi ykkur ótilkvaddur«, sagði hann á góðri ensku, »en eg heyri að þið mælið á íslenzka tungu, sem er móðurmál mitt, og vildi eg láta ykkur vita það í tæka tíð, að eg skil íslenzku nokkurn veginn, þó eg geti ekki talað hana óbjagaða«.

Lesarinn getur þess nærri, hvort eg hafi ekki rekið upp fremur stór augu, þegar eg heyrði það að maður þessi skildi alt þetta, sem eg hafði verið að tala um hann á íslenzku.

»Eg er þér sannarlega þakklátur«, sagði eg, »fyrir það, að láta okkur vita, að þú ert Íslendingur, og að þú skilur íslenzku. Og hver veit, hvað eg hefði kunnað að segja ilt um þig, ef þú hefðir ekki gefið þig undir eins fram og tekið í taumana, því sannast að segja, þá þótti mér þú vera eitthvað svo æfintýralegur og dularfullur, að eg hefði getað haldið áfram að tala um þig, þangað til að skipið hefði lent í Vancouver í kvöld«.

»Eg óttaðist það«, sagði hann brosandi, »að þú kynnir að segja um mig eitthvað, sem eg vildi síður heyra af vörum ókunnugs manns. En í raun og veru varð eg að gefa mig fram undir eins, eða að öðrum kosti, að gjöra mig sekan í því ódæði, að standa á hleri«.

»En okkur hefði aldrei komið það til hugar, að þú værir Íslendingur«, sagði eg, »hefðir þú ekki sagt okkur það, sérstaklega vegna þess, að við heyrðum þig tala eitthvert Suður-Evrópu mál«.

»Já«, sagði hann, »eg var að tala við dóttur mína á spánversku, því að það er hennar móðurmál«.

Við litum þangað sem stúlkan sat.

»Hún heitir Ísabella«, sagði faðir hennar.

Hún stóð upp, hneigði sig lítillega, brosti blíðlega, og settist svo niður aftur, en sagði ekki eitt einasta orð.

»Hefir þú dvalið á Spáni?« sagði eg.

»Nei«, sagði maðurinn með örið. (Og hann talaði alt af á ensku). »Eg er fæddur og uppalinn í Mexico. Foreldrar mínir fluttust frá Íslandi árið 1868, og ætluðu beint til Brazilíu. En skipið, sem þau fóru á frá Hamborg, fór ekki til Ríó de Janeiró, eins og ætlast var til í fyrstu, heldur hélt það til borgarinnar Vera Cruz í Mexico, og losaðist þar við alla farþega, af hvaða ástæðu sem það var. Frá Veraz Cru héldu foreldrar mínir, og tvær aðrar íslenzkar fjölskyldur, til Mexicó-borgar, og unnu þar fyrir sér um hríð, og settust síðar að á fáeinum ekrum af landi skamt fyrir vestan borgina. Þar fæddist eg, ólst þar upp, og kvæntist þar. Eg hefi verið um mörg ár á Kyrrahafsströndinni, og á nú heimili í Pasadena í Californíu«.

»Og hvað heitirðu?« spurði eg.

»Eg er kallaður *Ósófól*«, svaraði hann, og það var eins og honum væri ekkert um það gefið, að eg spurði hann að heiti. Og það var líka eins og hann kærði sig ekkert um að vita nafn mitt, en eg sagði honum það, án þess að hann spyrði um það.

Nú datt mér alt í einu í hug, að skeð gæti að þessi maður þekti Íslendinginn (Ólson), sem gamli Daníel Scott í Bindley's-landing hafði sagt mér að bygt hefði *kofann á Fellstindi.* En kona þess

manns var sögð að vera af spánverskum ættum frá Mexico.

»Þektir þú nokkurn íslenzkan mann í Mexico, eða Californíu, sem hét, eða var kallaður Ólson?« sagði eg.

»Nei«, sagði maðurinn með örið, »í Californíu hefi eg aldrei Íslending séð, en engin af þeim þremur íslenzku fjölskyldum, sem settust að í Mexico, gengur undir slíku nafni, því að það nafn er hvorki íslenzkt né spánverskt. En af hverju spyr þú um þetta?«

»Af því«, sagði eg, »að mér var sagt það í sumar, að Íslendingur, að nafni Ólson, sem um tíma var búsettur á ey einni nærri Vancouverborg, hafi átt konu af spánverskum ættum — konu, sem var fædd og uppalin í Mexico«.

»Einmitt það!« sagði maðurinn með örið, »og hvar er þessi Ólson nú?«

»Mér er sagt«, sagði eg, »að hann sé á vetrum í Portland í Oregon, en á sumrum í Vancouverborg«.

»Rétt er það!« sagði maðurinn með örið, og strauk vinstri hendinni yfir ennið. »Eg þekki hann ekki«.

»Þig langar ekki til að sjá Ísland?« sagði eg, til þess að breyta umtalsefninu.

»Eg hefi þegar séð það«, sagði hann, »eg fór heim sama sumarið og konungur Dana ferðaðist þangað«.

»Þótti þér ekki landið hrjóstrugt og harðbalalegt?« sagði eg.

»Ekki fanst mér það«, sagði hann, »og eg fæ

ekki betur séð, en að Ísland verði eitt með beztu löndunum í Norðurálfunni, þegar þjóðin fer að hagnýta sér afl fossanna. Á fáum tugum ára má gjöra alla sandana á suðaustur-landinu að blómlegum ökrum, með því, að veita á þá rafmagni, sem fáeinir smá-fossar geta framleitt; — og með rafmagni má bræða alla jöklana á Íslandi á tæpum hundrað árum, ef rétt er að farið«.

Eg leit framan í þenna einkennilega Íslending til að vita, hvort eg sæi ekki votta fyrir gletni í augum hans — því að eg hélt að hann væri að spauga. En á andliti hans var ekki annað að sjá en ströngustu alvöru.

»Ísland er gott land«, sagði hann; »jarðvegurinn þar er feitur og frjósamur. Og þjóðin, sem þar býr, er enn þá ung, hraust, þolgóð og bráðgáfuð. Hún er að eins þúsund ára gömul. Eftir önnur þúsund ár gæti hún — ef hún notar fossana sína réttilega — verið ein af atkvæðamestu og auðugustu þjóðum heimsins. Og umfram alt verða Íslendingar (á Íslandi) að varðveita tunguna norrænu«.

»En hvað segir þú um okkur Vestur-Íslendinga?« sagði eg. »Eigum við að leggja kapp á að viðhalda íslenzkri tungu hér í Ameríku?«

»Hvort sem við leggjum kapp á það, eða ekki«, sagði hann, »þá verða fáir hér vestan hafs um næstu aldamót, sem mæla á íslenzka tungu. En þjóðar-einkennum okkar, hinum norrænu, höldum við hér ósjálfrátt í þúsund ár, og lengur, hvaða tungu sem við tölum«.

Eg leit aftur framan í hann. En þar var að eins köld og hörð alvara.

Og á meðan á þessu samtali stóð, horfði dóttir hans á okkur með rannsakandi augnaráði, brosti með köflum og kinkaði ofurlítið kolli.

»Það gleður mig, að þú hefir gott álit á íslenzku þjóðinni«, sagði eg.

Hann þagði litla stund, tók upp hjá sjer úr, leit á það, lét það aftur í vestisvasann með mestu hægð, og mælti:

»Eg skal segja ykkur stutta sögu af Íslending, sem eg þekti í Mexico. Og hún er svona: — Fyrir þremur árum bjó Íslendingur í afdal einum í Mexico, og skamt fyrir sunnan landamæri Bandaríkjanna. Hann hét Kjartan, þessi Íslendingur, en þarlendir menn kölluðu hann *Carta*. Hann var auðugur hjarðeigandi, átti mikinn og fallegan búgarð utarlega í dalnum, og var hús hans stórt og vandað og tvíloftað með flötu þaki. Kjartan var maður fremur lítill vexti, en knálegur. Hann var kominn hátt á sextugsaldur, þegar hér er komið sögunni. Kona hans var af spánverskum ættum, og áttu þau þrjár dætur barna, allar gjafvaxta og forkunnar-fríðar. Kjartan hafði búið þarna í friði og ró, um mörg ár, og lítið orð af honum farið, að öðru leyti en því, að hann þótti vel efnaður.— En fyrir rúmum þremur árum kom ræningjaforinginn *Júan Silva* þangað í nágrennið. Hann var tröll að vexti, og allra manna ljótastur, og svo grimmur, að hann átti ekki sinn líka í öllu Mexico-ríki. Jafnvel hann *Villa* þótti mesta meinleysislamb hjá honum. Með Júan Silva voru um sjö

hundruð manna, og alt voru það illræmdir stigamenn og blóðhundar, og fóru þeir með ránum og manndrápum um öll héruð, þar norður við landamærin. Og flýði flest bændafólk undan, annaðhvort út í óbygðir, eða til borganna. En Kjartan og hans fólk fór hvergi, og það var eins og enginn á því heimili væri hræddur við óaldarflokk þenna, þótti mörgum það næsta kynlegt, og jafnvel ræningjunum sjálfum. — »Það er nokkuð skrítinn náungi, þessi Íslendingur þarna norður í dalnum«, sagði Silva einn dag við undirforingja sína, »hann sendir okkur ekki einu sinni kveðju guðs og sína, hvað þá meira. En nú skulum við ríða heim til hans í nótt, og sjá, hvað marga feita uxa hann vill láta af hendi við okkur, og vita, hversu birgur hann er af ölföngum og öðru góðgæti. Og mér hefir líka verið sagt, að hann ætti nokkrar fríðar og efnilegar dætur«. — Og eins og nærri má geta, þá gjörðu allir ræningjarnir góðan róm að þessari tillögu foringja síns; enda sáu þeir ekki neitt ískyggilegt við það, fyrir mörg hundruð vopnaða menn, að ráðast á eitt varnarlaust bóndabýli í afdal. — Og þessa sömu nótt reið Silva með þrjú hundruð og fimtíu mönnum heim til Kjartans bónda. — Nóttin var koldimm. — Ræningjarnir slóu hring um húsið, rétt eftir miðnættið, og börðu að dyrum nokkuð hranalega. — Kjartan kom sjálfur til dyra, á nærklæðunum, en fór sér mjög hægt. Hann spurði hverjir það væri, sem sýndu honum þá stóru sæmd að heimsækja hann, kotunginn. Silva sagði til sín, og kvaðst vilja vera þar nætursakir. Kjartan bauð hann velkominn, og bað hann

að ganga inn í stofuna með eins marga menn og hann vildi, en kvað það hryggja sig mjög, hvað húsrúm væri lítið hjá sér. — Silva gekk inn og sextán menn með honum, en dyrnar voru látnar vera opnar, svo þeir sem úti væru, gætu séð, hvað gjörðist þar inni. — »Hvar er alt þjónustufólkið?« sagði Silva, þegar búið var að kveikja ljós. »Þjónustufólk hefi eg ekki«, sagði Kjartan, »nema fjóra drengi, sem standa yfir hjörðinni í efri dalnum, og búa þar í kofa einum«. »Hvað áttu margar dætur?« sagði Silva. »Drottinn hefir gefið mér þrjár góðar dætur«, sagði Kjartan. »Og hvar eru þær nú?« sagði Silva. »Þær fóru í gær skemtiför til kauptúnsins fyrir norðan«, sagði Kjartan, »en má eg ekki bjóða hinum tilvonandi *forseta* Mexicoríkis eina flösku af víni?« »Hvar geymirðu vínið?« »Í kjallaranum, eg skal sækja það«. »Nei«, sagði Silva, »það sæmir ekki, að sjálfur húsbóndinn beri gestum sínum ölföngin. Eg skal leggja til kjallarameistarann og þjónana, fyrst þú veitir vínið. Og vil eg að þú sitjir hér hjá mér, og drekkir af sömu flöskunni og eg«. »Mín er þægðin, en þitt er lítillætið, voldugi herra!« sagði Kjartan. »Hann kann sig, þessi«, sagði Silva við Antonió Lúna undirforingja. — Silva skipaði nú fjórum af mönnum sínum, að leita að víni í kjallaranum og bera það upp til þeirra, sem í stofunni sátu. Og komu þeir aftur að vörmu spori með nokkrar flöskur af brennivíni og stóran brúsa af sterku rommi. — »Þú býr vel, bóndi«, sagði Silva, þegar hann sá vínið. »Drottinn hefir gefið mér nægilegt viðurværi«, sagði Kjartan. »En hvar er húsfreyjan?« sagði

Silva og helti á staup; »eg vil endilega drekka skál hennar í þessu ágæta rommi!« »Hún er nú sem stendur, hjá systur sinni í Mexicoborg«, sagði Kjartan. »Á eg að trúa því, að þú hafir verið aleinn í húsinu, þegar við komum?» sagði Silva og hvesti augun á Kjartan. »Eg vona að gestir mínir álíti það ekki saknæmt, þó þeir hafi komið að mér einum í mínu eigin húsi. Og hefði eg átt von á því, göfuga forseta-efni, að þú mundir leita skjóls í nótt undir mínu húsþaki, þá hefðu fleiri verið heima«. »Við trúum því, bóndi, að þú hafir gilda ástæðu til að slá okkur gullhamra«, sagði Silva, tæmdi staupið og lét fylla það á ný; »en eftir á að hyggja, þú átt mjög væna nautahjörð inn á dalnum«. »Og drottinn hefir líka gefið mér nautahjörðina«, sagði Kjartan. »Jæja þá, fyrst drottinn hefir vikið svona miklu að þér, sem hefir svo fáa munna að fæða, þá ættirðu nú að miðla mér nokkru af þeim gæðum, þar sem eg hefi svo mikið föruneyti. Eða hvað segir þú um það?« Og Silva horfði beint framan í Kjartan, og setti á sig mikinn alvörusvip. »En hví skyldir þú, göfugi herra, biðja kotunginn ölmusu?« sagði Kjartan og mætti augnaráði hins grimma ræningja, »og mundir þú ekki fljótt taka það með valdi, sem eg neitaði að gefa?« — Það kom ofurlítið hik á Silva um eitt eða tvö augnablik. — »Já«, sagði hann svo alt í einu, »þú hefir rétt að mæla, eg tek alt, sem eg næ hendi til. Og hjörðin þín öll er mín eign«. »Njóttu vel, stóri herra!« sagði Kjartan. »Og þetta hús og landið, sem það stendur á, er líka mín eign upp frá þessu augnabliki«, sagði Silva.

»Eg læt það glaður af hendi«, sagði Kjartan, »og verði þér að góðu!« »Og á morgun læt eg sækja dætur þínar og konu þína«, sagði Silva og tæmdi staupið á ný. »Hví skyldi eg taka fram fyrir hendurnar á hinum tilvonandi einvaldsherra Mexícó-ríkis?« sagði Kjartan. »Og svo er eitt enn«, sagði Silva, dró upp skammbyssu og miðaði henni á Íslendinginn, »og það er það, að upp frá þessu augnabliki er líf þitt algjörlega á mínu valdi«. »Líf mitt er sannarlega lítils virði«, sagði Kjartan, »því að það kostar einungis eina smá blýkúlu og ofurlítið af púðri«. »Þetta er alveg rétt«, sagði Silva, »þú metur líf þitt samkvæmt núgildandi gangverði í Mexícó, og sýnir um leið að þú ert kaupsýslumaður. En nú vil eg bjóða þér tvo kosti. Annar er sá, að segja mér í heyranda hljóði útúrdúralaust, hvar kona þín, og dætur þínar, og annað heimilsfólk þitt er niður komið, og eins hvar nautahjörðin þín er, og hestarnir þínir og sauðfé þitt. Og sömuleiðis verðurðu að afhenda mér tafarlaust alla peninga þína, silfurmuni og aðra verðmæta gripi. Að öðrum kosti læt eg þig deyja þeim dauða, sem eg álít að þú verðskuldir«. »Hví skyldi eg deila við slíkan þjóðhöfðingja sem þú ert?« sagði Kjartan og studdi vísifingri vinstri handar á naglahaus, sem var þar í veggnum rétt hjá honum; »en eg vil samt segja þér dálítið launungarmál, og það er þetta, eg hefi líf þitt og allra þeirra, sem hér eru inni, í hendi minni, því að um leið og eg þrýsti á þenna naglahaus, þá springur *dínamít*-kúla, sem er hér undir gólfinu, og um leið erum við allir komnir yfir um til landsins fyrir

handan gröf og dauða. Nei, voldugi Silva, og þið allir, sem mál mitt heyrið, hreyfið ekki skammbyssurnar fyr en þið komið út, því svo framarlega sem nokkur ykkar dregur upp bóginn á byssu hér inni, þá skal eg hiklaust senda sjálfan mig og ykkur alla, beint inn í eilífðina! Kjósið nú sjálfir. Eg hefi lokið máli mínu«. — Silva var í þann veginn að lyfta upp skammbyssunni á ný, en þá heyrðu þeir allir að hrikti í húsinu, eins og það hefði orðið fyrir snöggum vindbyl. — »Í hamingju-bænum stiltu þig, foringi!« sagði Antonió Lúna, »þrællinn svífist einskis, hann er í vígahug. Við skulum fara út úr húsinu«. »Hann er að gabba okkur«, sagði Silva, »og það er vindurinn sem hristir húsið«. Aftur hrikti í húsinu, og enn þá meir en í fyrra skiftið. Allir ræningjarnir leituðu nú til dyranna, nema Silva. »Eg býð þér byrginn!« sagði hann. — Kjartan sagði ekki orð, en hann horfði einbeittlega framan í Silva, og studdi fingrinum altaf á naglahausinn. Og í þriðja og fjórða sinn kiptist húsið við, og það svo hart, að það var eins og það væri að takast á loft. — »Forðaðu þér út, herforingi!« hrópaði Antonió Lúna, »finnurðu ekki að húsið hristist eins og hrísla í stormi? Það er að lyftast upp frá grunni!« »Eg skal gjöra það fyrir ykkur, piltar, að ganga út«, sagði Silva til manna sinna, sem nú voru að ryðjast út úr húsinu; »en þegar eg kem út fyrir dyrnar, skulum við senda fantinum nokkrar kúlur til gamans«. — Hann gekk aftur á bak fram gólfið, að dyrunum, með skammbyssuna í hendinni. En um leið og hann steig út úr dyrunum, leit hann sem allra snöggvast til

hliðar. Í sama bili dó ljósið í stofunni, og Kjartan var horfinn. — Nú var skotið látlaust inn í húsið, og vandlega að því gætt, að enginn kæmist út. Þegar dagaði, voru allir gluggar brotnir, allar hurðir eyðilagðar, og öll þil með ótal götum eftir byssukúlur. — Þegar fram á daginn kom, gengu nokkrir af ræningjunum inn í húsið og leituðu um það alt, en hvergi sást Kjartan bóndi, né nokkur annar af heimamönnum, hvorki lífs né liðinn. — — — En klukkan tvö um nóttina leið loftfar upp frá þakinu á húsi Kjartans, og barst fyrir golunni norður, um hálfa mílu enska frá jörðu. Í loftbátnum voru tveir karlmenn og fjórar konur. Um dagmálaskeið sveif loftfar þetta yfir landamærin og inn í Bandaríkin. Og um sama leyti var stór nautahjörð rekin í grösugan dal, þar skamt fyrir vestan. — Þá lagði mikinn reykjar-mökk upp úr afdalnum fyrir sunnan. Hús Kjartans stóð í björtu báli. — — — Að endingu vil eg geta þess, að nagli sá í veggnum, sem Kjartan studdi á, var í sambandi við loftfarið á þakinu, en ekki við neina sprengikúlu. — Þannig er sagan, og eg veit, að hún er sönn. Og mitt álit er það, að sú þjóð, sem á slíkan son og Kjartan bónda í Mexícó, sé ekki í afturför. — — — —«

Á meðan maðurinn með örið var að segja okkur þessa sögu, horfði dóttir hans á mig og konuna mína á víxl, eins og hún vildi sjá það á svip okkar, hvaða áhrif frásögnin hefði á okkur.

Nokkru síðar lenti skipið við bryggju í Vancouverborg. Þar kvöddum við þenna merkilega Íslending og dóttur hans. Hann sagði að þau mundu

dvelja einn eða tvo daga í Vancouver, hjá einum vini sínum, og halda síðan suður til Portland í Oregon. Og bað hann okkur að heimsækja sig, ef við kæmum einhverntíma til Pasadena í Californíu. Fékk hann mér að skilnaði miða, með nafninu hans á, sem sýndi, hvar í Pasadena hann átti heima. Og tók eg eftir því um kvöldið, þegar eg kom heim og fór að skoða miðann, að nafnið var skrifað þannig: *Ós-óf-ól.* Og minti það mig á stafina, sem eg sá á pappírs-ræmunni, er eg fann, hinn fyrsta dag júlímánaðar 1915, í kofanum á Fellstindi.

Eftir því tók eg, að feðginin stigu upp í luktan vagn, mjög skrautlegan, sem beið skamt frá bryggjunni, og virtist mér ökumaðurinn þekkja þau. Fyrir vagninum gengu tveir gráir hestar, sérlega fallegir, og ólíkir hinum þreytulegu hestum, sem vanalega draga leiguvagna í stórborgum. Og virtist mér alt benda á það, að eigandi vagnsins og hestanna væri auðmaður, en ekki algengur ökumaður.

Um eitt langaði mig sérstaklega til að spyrja þenna einkennilega Íslending, og það var það, hvernig stæði á örinu, sem var á enninu á honum. En eg kom mér einhvern veginn aldrei að því.

---

# FÓLKIÐ, SEM FLUTTI SIG Í HÚSIÐ „Nr 13“.

Eins og eg hefi tekið fram í sögunni af *Frú Teresu Fenn*, þá fluttumst við (konan mín og eg) í húsið nr. 2075 á *Third Avenue East* í Vancouver-borg, í British Columbia, haustið 1912. Skamt frá húsi okkar var hús það, sem á þeim árum var kallað »*Nr. 13*«, þó götu-tala þess væri alt önnur. Það stóð hátt í hlíð, og mátti sjá þaðan yfir mest-alla borgina, þegar heiðríkt var. Það var stórt og fallegt timburhús, með miklum loftsvölum á suð-ur-hliðinni, og ljósgrænt á lit. Á því voru tveir reykháfar úr múrsteini, annar upp úr miðjum mæni, en hinn utan á norður-hliðinni. Átta tröpp-ur lágu upp að framdyrunum, og var gangstétt úr steinsteypu í kringum alt húsið. Hringinn í kring var há rimla-girðing, máluð græn, og var hurðin fyrir hliðinu úr járnteinum, rammgjör og traust, eins og vígis-hurð á kastala á miðöldunum. — Í húsi þessu voru níu herbergi, fimm niðri og fjög-ur uppi á loftinu, öll sérlega vönduð, hrein, rúm-góð og björt. Og allur útbúnaður fyrir rafljós, vatnsleiðsla og upphitun var í bezta lagi og eftir nýjustu tízku. Og alt virtist benda á það, að hús

þetta hefði í fyrstu átt að vera heimili einhvers ríkismanns eða höfðingja.

Þegar við fluttumst þangað í grendina haustið 1912, þá var hús þetta mannlaust, og búið að standa í eyði í hálft ár, eða meir. Þá um haustið færðu eigendur hússins leiguna töluvert niður. Og rétt fyrir jólin fluttist fjölskylda þangað, en fór þaðan aftur eftir tæpan mánuð. Svo kom önnur fjölskylda þangað í aprílmánuði 1913, en fluttist burt aftur eftir rúmar þrjár vikur. Og í júnímánuði seint, það sama ár, sváfu tveir ungir menn þar nokkrar nætur. En svo fóru þeir líka í burtu alfarnir og sáust þar aldrei framar. Og húsið stóð aftur mannlaust og tómt, en »girnilegt og fagurt á að líta«, eins og skilnings-tréð góðs og ills í aldingarðinum *Eden*.

Svo leið alt sumarið, og næsti vetur, og sumarið þar á eftir, að enginn fékst til að búa þar, hvernig sem á því stóð. En iðulega gekk fólk þangað heim, horfði inn um gluggana, las auglýsinguna, sem límd var í eina rúðuna, skrifaði eitthvað í vasabækur sínar, gekk síðan burt og kom aldrei aftur.

Og fólkið í grendinni kallaði hús þetta jafnan »Nr. 13«, að líkindum vegna þess, að það þótti ekki sérlega mannsælt. En engan heyrðum við nefna það, að leigan væri of há, eða að nokkur missmíði væri á húsinu, eða að heilsu manna væri þar nokkur hætta búin. Og því síður heyrðum við þess getið, að þar hefði nokkurntíma verið framinn stórglæpur, eða sjálfsmorð, eða að þar

þætti reimt, eða að nokkuð annað hefði komið þar fyrir, sem fælt gæti fólk frá að búa þar.

Svo var það einn dag í nóvembermánuði 1915, að við tókum eftir því, að tvær konur voru á gangi í kringum húsið »nr. 13«. Þær voru báðar á að gizka hátt á fertugsaldri. Önnur þeirra var fremur há vexti og þrekin, fyrirmannleg, og bar höfuðið hátt, en hin var lág og grönn, og mögur og vesældarleg, eins og hún hefði verið sárþjáð um langt skeið. Þreklega konan var í ljósleitum silkikjól, og með sérlega skrautlegan hatt á höfði. Hélt hún á mjög vandaðri sólhlíf, og virtist ráða ferðinni. En grannvaxna konan var í bládröfnóttum lérefts-kjól, með hvítan stráhatt á höfði, og voru tvær afarstórar, svartar fjaðrir á honum að framan, beint yfir enninu. Hún bar handskýlu *(muff)* úr dýru loðskinni, fylgdi hinni konunni eftir, hvert sem hún fór, en gekk aldrei samhliða henni, og leit hvorki til hægri né vinstri handar. — Og þrátt fyrir það, þó þær væru svona ólíkar í vexti og búningi og látbragði, þá var samt eitthvað svo líkt með þeim, — einhver svipur eða hreyfing — að við þóttumst vera alveg viss um, að þær væru systur, eða náskyldar frændkonur.

Gilda konan fyrirmannlega horfði nokkra stund á húsið, leit svo inn um gluggana niðri, las síðan auglýsinguna, tók miða úr handtösku, er hún hélt á, skrifaði eitthvað á miðann, stakk honum því næst ofan í töskuna, gekk svo hægt og hátíðlega fram að hliðinu, sem var á girðingunni, snéri sér þar við með hægð og horfði á ný á húsið. Að því búnu lagði hún af stað ofan strætið. Og það leit

ekki út sem hún vissi, að nokkur væri henni samferða. En grannvaxna konan var þó altaf stöðugt á hælunum á henni, fylgdi henni eftir þögul og dularfull, og starði út í bláinn. Það var eins og hún hreyfði ekki fæturna minstu ögn, en bara liði áfram eins og dapurleg skuggamynd.

Morguninn eftir sáum við, að unglingspiltur gekk heim að þessu húsi. Hann var á að gizka átján ára gamall, stór vexti, feitur, þunglamlegur og búlduleitur — var andlitið langt til að sjá eins og tungl í fyllingu, eldrautt og gljáandi. Útlimirnir voru ákaflega langir, og hendurnar stórar og klumbslegar. Fötin, sem hann var í, voru upplituð, og næstum gatslitin á hnjám og olnbogum, og hann var fyrir löngu vaxinn upp úr þeim. Og mátti með sanni segja, að hann léti hendur standa fram úr ermum. En hann hafði þær samt oftast í vösunum, þegar hann gekk, vaggaði ofurlítið út á báðar hliðar, velti vöngum og steig mjög þungt til jarðar. Hann gekk rakleitt upp að framdyrum hússins, opnaði þær með lykli, sem hann tók úr vestisvasa sínum, gekk síðan inn, opnaði hvern einasta glugga á húsinu, stakk höfðinu út um leið og horfði upp. Að því búnu kom hann út með stiga, sem hann reisti upp við húsið, klifraði síðan upp á þakið, skoðaði reykháfana með mestu nákvæmni og horfði lengi ofan í þann, sem var upp úr miðjum mæni, rendi blýlóði (á snærisspotta) þar niður, dró það upp með hægð, og fór svo aftur að kíkja niður. — Og að öllu þessu fór hann með allra mestu hægð og stillingu, og auðsjáanlegri hugarrósemi. — Loksins fór hann ofan af

þakinu, lokaði framdyrum hússins, (en skildi gluggana eftir opna), gekk út á strætið og hélt ofan hlíðina með sömu hægðinni og hann hafði gengið hana upp — vaggaði ofurlítið út á hliðarnar og steig þungt til jarðar, eins og ístrumaður um sextugt.

Undir kvöldið, þann sama dag, kom hann aftur upp hlíðina, og leiddi þá við hægri hönd sér roskinn mann lítinn, horaðan og mjög væskilslegan. En á eftir þeim gekk gilda konan fyrirmannlega, sem komið hafði daginn áður, og á eftir henni gekk (eða öllu heldur leið) hin dapurlega, grannvaxna kona, sem áður var með henni, og starði hún út í bláinn, eins og maður, sem gengur í svefni. En báðar svörtu fjaðrirnar í hvíta hattinum hennar sveigðust til og frá, og hneigðu sig og beygðu, þegar hún gekk — þær virtust dansa af ofsakæti, eins og tvær mjúklimaðar, æskuteitar svertingja-stúlkur undir fjörugum hljóðfæraslætti.

Okkur varð sérlega starsýnt á þetta undarlega fólk, þar sem það gekk upp hlíðina í *Grandview*, (en svo heitir sá hluti Vancouverborgar, þar sem við áttum heima). Það var eitthvað svo makalaust skringilegt að sjá þá, piltinn og gamla manninn, leiðast. Pilturinn var á vöxt við hæstu og gildustu lögregluþjóna, en gamli maðurinn ekki hærri né þreknari en tólf eða þrettán ára gamall drengur. Hann (gamli maðurinn) gekk á gráum stuttbuxum, víðum um mjaðmir, en þröngum um hnén, voru sokkarnir mosalitaðir, og skórnir gulir. Treyjan var grá og að sér dregin um mittið, með belti úr sama efni og treyjan sjálf. En á höfði hafði

hann skozka húfu stálgráa, og var hár og skegg hans nákvæmlega eins á litinn og húfan.

Gamli maðurinn var bersýnilega hinn mesti göngugarpur, og var hann að sjá ólmur að komast áfram upp brekkuna, en pilturinn hélt honum aftur, því að hann var þyngri til gangs, og virtist sem hann yrði á stundum að taka á öllu afli, til þess að missa ekki af karlinum. En alt af stöðugt lét pilturinn dæluna ganga, og karlinn hló dátt að því, sem hann var að segja honum, bar fæturna ótt og títt og vildi áfram og upp brekkuna upp á líf og dauða, að því er virtist.

Að lokum hvarf fólk þetta inn í húsið »nr. 13«, eftir að hafa gengið tvisvar eða þrisvar í kringum það. — Um kvöldið seint kom þangað stór flutnings-vagn, hlaðinn húsgögnum, og tók það langan tíma að bera þau inn í húsið, og unnu þó allir ósleitulega að því.

Snemma næsta morgun kom gamli maðurinn út og gekk ofan hlíðina. Hélt hann á regnkápu og lítilli ferðatösku, og var hann sérlega léttstígur og næstum hljóp við fót. En um kvöldið, rétt fyrir sólarlagið, kom hann heim aftur með kápuna og töskuna og gekk alveg eins greitt upp hlíðina og hann hafði farið hana ofan um morguninn.

Og þannig gekk það til á hverjum virkum degi í margar vikur, að hann fór af stað með töskuna og regnkápuna í býtið á morgnana, og kom heim á hverju kvöldi rétt eftir sólsetur. Hann var alt af eins búinn, virtist alt af vera ný-rakaður og hljóp alt af við fót, eða því sem næst.

En pilturinn feiti og þunglamalegi sást mjög

sjaldan, fyr en seinni hluta dags. Þá kom hann út á veggsvalirnar, eða stakk höfðinu út um einhvern gluggann á loftinu, og horfði yfir borgina. — Aldrei sást hann fara neitt frá húsinu, ekki einu sinni út fyrir garðshliðið, hvað þá lengra. Alt af var hann í sömu fötunum, þegar hann sást, og alt af voru buxna-skálmarnar að styttast, að því er virtist, og treyjan að verða þrengri um herðarnar og ermastyttri, og hattkúfurinn að minka, en búkurinn að gildna að því skapi, og andlitið alt af stöðugt að verða feitara og kringluleitara.

Konurnar sáust oft á gangi í garðinum, og fóru stöku sinnum út í borgina. Þær voru æfinlega saman, en gengu þó aldrei hlið við hlið, og enginn af nágrönnum þeirra heyrði þær nokkurntíma talast við, eða sá þær líta hvor til annarar, eða gefa það á nokkurn hátt til kynna, að þær vissu verulega hvor af annari. Og fólk komst á þá skoðun, að grannvaxna konan væri mállaus og heyrnarlaus. — Gilda konan réði auðsjáanlega ferðinni, en hin fylgdi henni eftir, hvert sem hún fór, eins og skugginn hennar.

Sum kvöld, einkum þegar bjart var úti og stafalogn, þá barst þýður og hálf-angurvær hljóðfæraslättur frá húsinu »nr. 13«, og var auðheyrt, að spilað var á strengleik, og að sá, er fór fingrum um hljóðfærið, var alls enginn viðvaningur, og minti á Mozart og Beethoven. En það, sem þótti einkennilegast, var það, að þegar hljóðfærasláttur þessi heyrðist, þá sást aldrei ljós í gluggum á þessu húsi. Aftur á móti var það æfinlega uppljómað af rafljósum, þegar mjög var dimt úti, eða þegar

stormur var um nætur og austan rigningar. En þá heyrðist þar aldrei neinn hljóðfærasláttur.

Stöku sinnum kom kona þangað. Hún var mjög vel búin, og ók í bifreið. Við sáum aldrei framan í hana, því að hún hafði blæju fyrir andlitinu. En í vexti var hún tignarleg og leit út fyrir að vera á bezta skeiði. Hún var jafnan tómhent, þegar hún fór inn í húsið, og hún stóð þar sjaldan lengi við, en æfinlega, þegar hún kom út aftur, þá hélt hún á dálitlum kassa, ekki óáþekkum vindlakassa, sem hún lagði með gætni undir sætið í bifreiðinni.

Einn morgun snemma — það var í marzmánuði 1916 — sáum við, eins og oftar, að gamli maðurinn kom út á götuna með tösku sína og regnkápu. En í staðinn fyrir að ganga rakleitt ofan brekkuna, eins og hann var vanur, þá gekk hann nú þráðbeint yfir að okkar húsi, hljóp upp tröppurnar, sem lágu upp að framdyrunum, og barði hvatskeytlega þrjú högg á miðja hurðina, en kom ekki við dyrabjölluna.

Eg gekk til dyra.

»Góðan daginn!« sagði hann, tók ofan og steig inn fyrir þröskuldinn.

»Góðan daginn!« sagði eg. Og eg tók strax eftir því, að hann var sérlega þunnleitur, hrukkóttur í andliti, og gulur á hörundslit. Sýndist mér hann nú miklu væskilslegri en áður og vesældarlegri. En röddin var þó fremur karlmannleg og ekki óviðfeldin. Hann hafði stór blágrá augu, þunt íbogið nef, var skakkmyntur og dróst vinstra munnvikið niður á kjálkabarðið, þegar hann talaði.

»Við hvern veitist mér sá heiður að tala?« sagði hann og opnaði tösku sína.

Eg sagði honum, hvað eg héti.

»Það mun vera útlent nafn?« sagði hann.

»Já, það trúi-eg«, sagði eg.

»Og með leyfi að spyrja«, sagði hann, »hvaðan ertu?«

»Frá Manitoba«, sagði eg.

Hann lét sem hann tæki ekki eftir svari mínu.

»Eg heiti Goggin«, sagði hann og tók tvær bækur upp úr töskunni, og voru báðar í ódýru bandi. »Eg er farandsali (*pedlar*), og hefi jafnan á boðstólum tvær mestu og beztu bækurnar, sem til eru í heimi — nefnilega *Heilaga Ritningu* og *leikrit Shakespeare's.*

»Eg á bæði Biblíuna og Shakespeare«, sagði eg.

»Eg hálfpartinn bjóst við því«, sagði hann, »en nú er eg alveg viss um það. Og það gleður mig að vita, að einn af næstu nágrönnum mínum kann að meta þessar dýrðlegu bækur. — Vertu sæll!«

Hann hneigði sig djúpt, tók tösku sína og fór.

Fám dögum síðar kom hann aftur. Eg fór til dyra, eins og áður. Hann tók ofan og gekk inn fyrir þröskuldinn, strax og eg opnaði dyrnar, alveg eins og hann hafði gjört í fyrra skiftið, sem hann kom.

»Við hvern veitist mér sá sómi að tala?« sagði hann, alveg eins og hann hefði ekki séð mig fyr.

Eg sagði honum á ný nafn mitt.

»Og með leyfi, hverrar þjóðar ertu?« sagði hann og opnaði tösku sína.

»Eg er af norrænum ættum«, sagði eg.

»Einmitt það!« sagði hann. »Þú ert nefnilega

maður norrænn frá Manitoba. En eg heiti Goggin, er varningsmaður, og hefi jafnan nægar birgðir af tveimur beztu bókum þessa heims: *Heilagri Ritning* og *Shakespeare*«.

»Eg á þessar bækur«, sagði eg hálf-önuglega.

»Það gleður mig«, sagði hann, »það gleður mig stórlega, að einn af næstu nágrönnum mínum skuli kunna að meta þessi ágætisrit. — Vertu sæll!«

Hann hneigði sig djúpt og fór. Og það var töluverður asi á honum.

En viku síðar kom hann á ný. Og eg gekk til dyra eins og fyr.

»Við hvern veitist mér sú æra að tala?« sagði hann, þegar hann var búinn að heilsa mér og hafði stigið inn fyrir þröskuldinn.

Eg sagði honum enn einu sinni nafn mitt, og gat þess um leið, að við hefðum tvisvar áður sézt, en hann lét sem hann tæki ekki eftir þeirri athugasemd.

»Og með leyfi að spyrja«, sagði hann, »hvað heitir föðurland þitt?«.

»Ísland«, sagði eg og var stuttur í spuna.

»Einmitt rétt!« sagði hann, »þú ert nefnilega Íslendingur, af norrænum ættum, frá Manitoba«.

»Eg heyri að þú manst eftir því, að við höfum sézt tvisvar áður«, sagði eg.

En hann lét sem hann tæki ekki eftir því, sem eg sagði.

»Eg heiti Goggin«, sagði hann, »og eg sel með vægu verði og góðum skilmálum tvær hinar beztu bækur, sem til eru í víðri veröld, nefnilega *Heilaga Ritningu* og *leikrit* hins ódauðlega *Shakespeare's*«.

Og hann tók tvær bækur upp úr tösku sinni og sýndi mér.

»Herra Goggin«, sagði eg, »eg hefi sagt þér það tvisvar áður — og eg skal taka það fram einu sinni enn — að eg á þessar bækur í góðu bandi, og að eg ætla ekki að kaupa fleiri útgáfur af þeim«. Og eg ætlaðist til þess, að rödd mín léti það í ljós, að eg vildi engin viðskifti við hann eiga.

»Já, víst gleður það mig«, sagði hann, »að þú átt bækur þessar í góðu bandi, því það sýnir það ótvíræðlega, að þú kant að meta þær«.

»Þú hefir sagt mér það áður«, sagði eg.

»Það er meira en satt«, sagði hann, leit niður fyrir sig og talaði lágt; »eg hefi komið hingað tvisvar áður, en erindið hefir ekki verið það, að selja þér bók, heldur hitt, að komast eftir því, við hvern mér veittist sú upphefð að tala«.

«Og eg vona að þú vitir það nú«, sagði eg.

»Já«, sagði hann, »eg veit, að þú ert maður íslenzkur af norrænum ættum frá Manitoba, og að þú átt *Shakespeare* og *Heilaga Ritningu* í bandi. En svo veit eg það líka, að bandið á bókum getur bilað, og eins hitt, að sumir kaupa það glaðir í dag, sem þeir vildu ekki líta við í gær«.

Og gráu augun hans urðu ögn dökkvari og fjörlegri, þegar hann sagði þetta.

»Já, þú munt hafa reynsluna fyrir þér í þessu«, sagði eg, »en eg ætla nú að biðja þig að gjöra svo vel, að bjóða mér ekki þessar bækur framar, því að eg þarf ekki fleiri eintök af þeim en eg hefi«.

»Já, góði herra«, sagði hann, »eg skal muna það,

að bjóða þér aldrei bækur, enda hefi eg ekki gjört mig sekan í slíkri óhæfu; eg hefi að eins getið þess, að eg hefði á boðstólum tvær bækur, en engan hefi eg beðið að kaupa þær. — Samt hefi eg selt mörg þúsund eintök árlega, því að eg hefi farið um öll lönd í hinu brezka ríki, nema Canada, og nú er eg kominn þangað, eftir að hafa ferðast um Asíu, Afríku og Ástralíu samfleytt í átján ár«.

»Í átján ár?« át eg eftir honum, »hefirðu verið að selja Shakespeare og biblíuna í átján ár?«

»Já, á hverjum einasta virkum degi í átján ár«, sagði hann; »en á öllu því ferðalagi, í öll þessi ár, hefi eg aldrei hitt þann mann, sem mælt gæti á íslenzka tungu«.

»En hefir þér þá verið það verulegt áhugamál, að heyra íslenzku talaða?« sagði eg, og fór nú að virða manninn betur fyrir mér.

»Já«, sagði hann, og augu hans voru að verða býsna hvöss, »eg hefi fátt þráð eins mikið, í síðastliðin átján ár, sem það, að ná tali af manni, er mælt gæti á íslenzka tungu. Og um tíma var það mér næstum lífs-spursmál, að ná tali af Íslending«.

Eg varð á einu augnabliki allur að forvitni.

»Vertu svo góður að ganga inn í stofuna þarna á móti«, sagði eg, og lét aftur framdyrnar, því að mig langaði mjög til að heyra meira um þetta.

»Eg hefi jafnan sérlega nauman tíma«, sagði hann dræmt, en gekk þó inn í setustofuna. »Eg má satt að segja, aldrei halda kyrru fyrir, því að eg hefi fyrir tveimur kvenmönnum og einum

unglingspilti að sjá, og útgjöldin eru mikil, en tekjurnar litlar«.

»En getur pilturinn ekki unnið?« sagði eg.

»Hann er ekki kominn á lögaldur«.

»Getur hann ekki unnið, þó hann sé ekki kominn á lögaldur?« sagði eg.

»Hann er að læra«.

»Gengur hann þá á skóla?« sagði eg.

»Nei, hann les heima«.

»Hvað les hann?« sagði eg.

»Guðfræði — og hljómfræði. Hann ætlar að verða prestur«.

»En getur hann ekki jafnframt unnið ofurlítið?« sagði eg, »hann virðist þó vera nógu stór og sterkur til þess«.

»Hann er ekki sonur minn«, sagði herra Goggin lágt, »en eg hefi unnið eið að bók og lofað guði og samvizku minni því, að sjá þessum pilti fyrir uppeldi og veita honum þá mentun, sem hann getur á móti tekið, þangað til hann er tuttugu og eins árs gamall. Og nú er hann nýkominn á nítjánda árið«.

»Er hann þá náskyldur þér?« sagði eg.

»Já«, sagði herra Goggin, »við erum náskyldir, því að við erum bræður í Kristi og sam-arfar eilífs lífs. Samt er eg af enskum ættum, en hann er Íslendingur«.

»Gjörðu svo vel að setjast á stólinn þarna«, sagði eg, »og eg skal taka við húfunni þinni og kápunni«.

»Því miður má eg hreint ekki tefja«, sagði hann hálf-raunalega.

»Jú, rétt fáeinar mínútur«, sagði eg.

Hann settist á stól, og eg hengdi upp húfuna hans og kápuna. — Eg brann af forvitni.

»Eg kem alt of seint í víngarðinn í dag«, sagði hann og varpaði mæðilega öndinni, eins og móðursjúkur maður.

»Þú veizt ekki, nema að þú sért þegar kominn í víngarðinn«, sagði eg brosandi, »en segðu mér nú, hvernig það atvikaðist, að þú tókst Íslending til fósturs«.

»Eg tók hann aldrei til fósturs«, sagði herra Goggin og hvesti á mig augun, sem alt af voru að verða hvassari og harðari, »en forsjónin lagði hann á herðar mér, eins og annan kross, og eg hefi borið þann þunga kross möglunarlaust í full átján ár«.

»Hvað heitir pilturinn?« spurði eg.

»Hann heitir Afríkanus«.

»Það er ekki íslenzkt nafn«, sagði eg.

»Eg gaf honum það nafn«, sagði herra Goggin, »því að hann er fæddur á *Góðrarvonarhöfða* í Afríku. Og eg skýrði hann sjálfur, þegar hann var þriggja nátta«.

Og hann setti á sig kennimannlegan svip um leið og hann sagði þetta.

»Voru báðir foreldrar hans alíslenzkir?« spurði eg.

»Já, eftir því sem eg bezt veit, voru þeir al-íslenzkir«.

»Eru foreldrar hans dánir?« sagði eg.

»Faðirinn dó daginn áður en drengurinn fæddist«, sagði herra Goggin, en móðirin er enn á lífi, og hún er alt af hjá okkur og fylgir konunni minni

eftir, eins og skugginn hennar, hvert sem hún fer. Konan mín er því sannur krossberi, ekki síður en eg«.

Og það var eins og hann ætti sérlega erfitt með að draga andann.

»En hvað heitir móðir piltsins?« spurði eg.

»Það er nokkuð, sem við höfum aldrei fengið að vita«, sagði hann.

»Hvað er þetta!« sagði eg, og leit á hann stórum augum, »hefir hún aldrei sagt ykkur nafn sitt?«

»Eg skal segja þér nokkuð«, sagði herra Goggin lágt og hvesti á mig augun á ný, »hún er mállaus«.

»Mállaus!« át eg eftir.

»Já, mállaus og heyrnarlaus! — Og nú verð eg að fara, hvað sem það kostar«.

Hann ætlaði að standa á fætur.

»Nei, herra Goggin minn góður«, sagði eg, »vertu svo vænn, að sitja ögn lengur. — Eg held annars að hann *Shakespeare* minn sé orðinn laus í kjölnum, og væri því ekki úr vegi, að eg keypti eitt eintak«. (Og eg þóttist nú vera dálítið séður). »En segðu mér nú, hvernig á því stóð, að pilturinn og móðir hans urðu þér og konunni þinni áhangandi«.

»Sú saga er svo löng, að það þyrfti heilan dag til að segja hana«, sagði herra Goggin í hálfgjörðum vanstillingar-róm.

»Gjörðu svo vel að segja mér aðal-inntakið í fám orðum. — Og hann *Shakespeare* kaupi eg af þér um leið og þú fer«.

»Jæja, þá!« sagði herra Goggin og lét sem hann hefði ekki heyrt síðustu orð mín. »Sagan er í fám orðum þessi: Það var vorið 1897, að eg og konan mín lögðum af stað frá Englandi áleiðis til Melbourne í Ástralíu. Við fórum á gufuskipi, sem hélt suður með Afríku að vestan, og kom við á Góðrarvonarhöfða, og var því mikið lengur á leiðinni heldur en Ástralíu-för þau, er fara suður um Súez-skurð. Skipið hét *Cató*, og skipherrann *Holt*. Allmargir farþegar voru á skipinu, og ætluðu flestir þeirra til Höfða-nýlendunnar í Afríku, en þó voru nokkrir, sem ætluðu alla leið til Ástralíu, og þar á meðal voru ung hjón frá Íslandi. Var sagt að bróðir konunnar væri ríkur hjarðeigandi og ætti heima fyrir norðan Melbourne, og ætluðu þau (ungu hjónin) að flytja sig til hans, að sögn. — En kvöldið, sem skipið kom við land á Góðrarvonarhöfða, datt Íslendingurinn útbyrðis og drukknaði, og vissi enginn, hvernig það atvikaðist. Daginn eftir ól konan hans sveinbarn. Tóku menn þá eftir því, að hún var bæði heyrnarlaus og mállaus. Og allir sáu það glögt, að harmurinn var henni næsta þungbær, og hefir hún ávalt síðan verið hálf-sturluð og eins og í leiðslu. — Nú varð það hlutverk konunnar minnar, að annast þessa konu og barnið hennar, og var það meira vandaverk en margur hugði. Og eins og eg gat um áðan, þá skírði eg drenginn, þegar hann var þriggja nátta, og nefndi hann Afríkanus í höfuðið á hinum fræga Públíusi Cornelíusi Scipíó (*Afríkanusi* hinum eldra). Og fanst mér það vel við eigandi fyrir margra hluta sakir, þó eg hafi á stundum

iðrast þess, af því eg er svo hræddur um að hann kafni undir nafni. — Eftir að hafa dvalið tvær vikur á Góðrarvonarhöfða (*Cape Town*), héldum við áfram og náðum að lokum heilu og höldnu til borgarinnar Melbourne í Ástralíu. Kom það nú á mig, eins og margt annað ilt, að fylgja hinni íslenzku konu þangað, sem sagt var að bróðir hennar ætti heima. — Sagði Holt skipstjóri, að bróðir hennar héti John Johnson og að hann ætti heima um hundrað og fimtíu mílur enskar fyrir norðan Melbourne. Líka sagði Holt mér það, að sér hefði verið sagt þetta af málsmetandi manni á Englandi, og hefði sá maður beðið sig að sjá til þess, að hinum íslenzku hjónum yrði leiðbeint, þegar til Melbourne kæmi. — Eg lagði nú af stað með konu þessa og barnið hennar, og vorum við átta daga að komast þangað, sem Holt hafði sagt mér að John Johnson væri búsettur, því að vegir voru mjög slæmir, og sérlega ilt að fá fylgd. En þegar við loksins komum þangað, var mér sagt að John Johnson hinn íslenzki væri löngu farinn þaðan, og kominn annaðhvort til Ameríku eða Afríku. — Var nú ekki um annað að gjöra fyrir mig, en að fara með konuna og barnið aftur til Melbourne, og ætlaði eg endilega að fá Holt skipstjóra til að taka við þeim og flytja þau til Englands. En þegar við komum aftur til Melbourne, þá var Holt lagður af stað heim. — Þótti mér nú vandast málið meira en lítið. Fór eg því til yfirvaldanna og bað þau að taka konuna af höndum mér og senda hana og barnið til Englands eða Íslands. En yfirvöldin vildu fá nægar sannanir fyrir því, að konan væri íslenzk,

áður en þau sendu hana frá Melbourne. Skrifaði eg þá eigendum skipsins, sem við höfðum komið á, og bað þá að fá Holt skipstjóra til að gefa mér skriflegt og eiðfest vottorð þessu viðvíkjandi, að konan væri íslenzk. Beið eg nú eftir svari í þréttán mánuði, en þegar það loksins kom, var það þess efnis, að Holt skipstjóri væri dáinn, og að hvergi í dagbókum hans eða brjefum væri einu orði minst á Íslendinga. — Nú fór mér að þykja málið ætla að verða næsta alvarlegt, og sá eg brátt að eg var knúður til að sjá fyrir konunni og barninu, þangað til að eg annaðhvort fyndi bróður hennar, eða kæmi þeim (mæðginunum) norður til Íslands. En í Melbourne var enginn, sem vildi taka við þeim, jafnvel ekki sjálf yfirvöldin. — »Eg sé að eg verð að ala upp drenginn í drottins nafni«, sagði eg við konuna mína, »og við móður hans skulum við láta okkur farast eins og hún væri systir okkar«. Og konan mín var þessu í alla staði samþykk. — Og svo liðu árin. Við fórum um alla Ástralíu og ýmsar af Suðurhafs-eyjum, héldum svo aftur til Afríku, þaðan til Indlands og Ceylon, og annara landa, sem Bretar eiga í Asíu, og síðast sigldum við í sumar frá Hong Kong til Victoríuborgar á Vancouver-ey, og komum hingað (til Vancouverborgar) í haust. Og allan þenna tíma hefi eg aldrei rekist á Íslending, sem mælti á íslenzka tungu, fyr en eg sá þig. — En af drengnum er það að segja, að hann óx og dafnaði með degi hverjum, varð stór vexti og jötunn að afli, og fékk miklar og góðar gáfur. Sextán ára gamall tók hann að lesa guðfræði, og hefir lesið hana af kappi

síðan. — Hefði eg talið mig sælan, og lifað ánægjulegu lífi, ef ekki væri tvent, sem veldur mér miklum og þungum áhyggjum. — En, hvað er eg að hugsa? Eg má ekki lengur tefja«.

Og augu herra Goggins voru nú orðin svört eins og kol.

»Er pilturinn, ef til vill, heilsutæpur?« spurði eg.

»Já, og það svo mjög, að eg er dauðhrædddur um að hann eigi skamt eftir ólifað«, sagði herra Goggin og stóð upp.

»Ekki er hann þó tæringarveikur?« sagði eg.

»Það má lækna tæring«, sagði herra Goggin, »en sjúkdóm þann, sem hann Afríkanus hefir, læknar enginn jarðneskur maður«.

»Hvaða voða-kvilli er það, sem að honum gengur?« sagði eg.

»Það er svefnsýki«, sagði herra Goggin. »Hún ágerist alt af stöðugt. Það beit hann eiturfluga, þegar við vorum í Afríku í seinna sinni. Þá byrjaði veikin í honum. Lengi fram eftir nægði honum tólf-stunda svefn á sólarhring, en nú dugir honum ekki minna en sextán til átján klukkustundir. — Matarlyst hefir hann samt sérlega góða, og starfsþolið er óbilandi á meðan hann vakir, enda les hann guðfræðina af dæmafáu kappi, er nú að vaða í gegnum sögu kirkjufeðranna, og dreymir dýrðlega drauma um þá Jóhann gullmunn og Filó. — En nú fer eg, hvað sem þú segir«.

Hann gekk fram í ganginn, tók húfuna sína og kápuna og ætlaði út.

»Nei, eitt orð enn!« sagði eg, »þú ætlaðir að láta mig fá eitt eintak af *Shakespeare*. Hvað kostar það?«

»Tvo dollara«, sagði herra Goggin, og rétti mér bók í ódýru bandi.

»Hér er andvirðið«, sagði eg, og rétti honum tveggja-dollara seðil. »En vertu nú svo góður að segja mér, hvað hitt er, sem veldur þér svo mikillar áhyggju«.

»Það er nokkuð, sem er þyngra en tárum taki«, sagði herra Goggin, og augu hans voru að verða eins og glóandi kol, »og það er líka þess kyns, að eg get ekki sagt það alveg ókunnugum manni«.

»En þú ert búinn að segja mér svo margt«, sagði eg, »að það gjörir minst til, þó þú lofir þessu að fara með. — Og eftir á að hyggja þá ætti eg að kaupa af þér eitt eintak af *Heilagri Ritning*, og senda gömlum vin mínum hana í jólagjöf«.

»Já«, sagði herra Goggin, og lét sem hann hefði ekki tekið eftir því, sem eg sagði viðvíkjandi biblíunni, »það er alveg rétt, sem þú segir, að eg er búinn að segja þér, ókunnugum manninum, svo margt, að þetta atriði mætti eins vel slæðast með. Eg ætla þess vegna að segja þér, hvað það er, sem hvílir svo þunglega á huga mínum og hjarta. Og það er það, að vesalingurinn hann Afríkanus — fóstursonur minn — elskar konu, og það konu, sem hann veit ekki hin minstu deili á. Og ást hans er sjóðandi heit! Hann logar og brennur! Og konan elskar hann, eins heitt og hann elskar hana — ef til vill með enn meiri frekju — og hún hefir elt okkur hingað alla leið frá Hong Kong—«.

»Og ekur í bifreið, þegar hún kemur til að heimsækja hann?« sagði eg.

»Já, einmitt rétt!« sagði herra Goggin, »hún ekur í bifreið, sem hún tekur á leigu á minn kostnað«. Hann rétti mér eitt eintak af biblíunni í ódýru bandi.

»Verðið er tveir dollarar, með leyfi«, sagði hann, »og það er að eins hálft verð«.

Og nú sýndust mér gneistar hrökkva úr augum hans, eins og frá steðja, þar sem glóandi járn er barið.

Eg rétti honum aftur peninga, og tók við biblíunni, og hélt að eg væri að gjöra kærleiks-verk.

Herra Goggin opnaði sjálfur dyrnar og gekk út. Það var asi á honum, fanst mér.

»Þökk fyrir viðskiftin«, sagði hann, »og vertu nú sæll!« Og hann hljóp ofan tröppurnar.

»Eitt orð enn«, sagði eg. »Getur ekki mállausa konan skrifað?«

»Nei«, sagði hann og leit ekki við. Hann var næstum kominn fram að gangstéttinni.

»Hún les íslenzku?« kallaði eg á eftir honum.

»Nei«, sagði herra Goggin, án þess að líta við. Hann var nú kominn út á gangstéttina og stefndi vestur.

»En hún getur, ef til vill, skilið og talað fingramál?« orgaði eg á eftir honum.

»Alls ekki«, sagði herra Goggin, og röddin var nú afkáraleg (eins og gól í úlfi), »hún veit ekkert, skilur ekkert, og er alt af eins og maður sá, sem gengur í svefni«.

Og hann hljóp við fót ofan brekkuna og alla leið ofan að *Commercial Drive*. — — —

En næsta dag tókum við eftir því, að húsið »nr.

13« var mannlaust á ný. Herra Goggin og fólk hans hafði flutt sig burtu um nóttina, og enginn þar í nágrenninu vissi, hvert það hafði farið.

Eigendur hússins vissu ekki um brottför þessa fólks, fyr en hálfum mánuði síðar. Þóttust þeir sjá þess ljós merki, að *ópíum*-reykingar hefðu átt sér þar stað, og var þess getið til, að kona sú, er þangað ók svo oft í bifreið, hefði í raun og veru verið kínverskur karlmaður, sem verzlaði með ópíum, en Goggin og fólk hans tollsmyglar frá Bandaríkjunum.

Aldrei fékk eg að vita, hvort sagan um mállausu konuna íslenzku var sönn, eða ekki sönn. Ef til vill var það blátt áfram hrekkjabragð herra Goggins, að búa til söguna og segja mér hana, til þess að eg keypti því fremur *Shakespeare* og biblíuna af honum. Hann var óefað langtum meiri og snjallari kaupsýslumaður en eg. — En hafi sagan verið sönn (sem ekki er ómögulegt), þá var herra Goggin sannur ágætismaður. — Og að síðustu vil eg taka það fram, að eg trúi því ekki, að hann (eða nokkur hans) hafi verið tollsmygill. En hitt þætti mér trúlegra, að alt þetta dularfulla fólk hafi neytt *ópíums*, eða einhvers annars svefnlyfs, og það jafnvel í afar-stórum skömtum.

---

# MAÐURINN MEÐ GRÁU HÚFUNA.

Nú ætla eg að segja ykkur frá kynlegum manni, sem eg sá í Vancouver í British Columbia. Ekki veit eg hvað hann hét, og ekki get eg verulega lýst honum að öðru leyti en því, að hann var lítill vexti, með stutt og grátt og ósélegt skegg á vöngum og höku. Hann var á að gizka hálf-sextugur að aldri, og hafði æfinlega, þegar eg sá hann, stálgráa húfu með stóru skygni, sem huldi ennið og skygði á augun. Eg sá hann í fyrsta sinn snemma í maímánuði 1912. Hann stóð þá í efstu tröppunni í stiganum mikla, sem (á þeim árum) lá upp bakkann, eða brekkuna, þar sem Howe-stræti og Cordova-stræti mætast. Hann studdist fram á handriðið á stiganum og horfði út á Burrard-fjörðinn. Eg vann þá á skrifstofu, sem var rúma faðmslengd frá stiganum, og hafði eg því gott tækifæri til að veita þessum aldraða manni eftirtekt. En hann stóð þarna í þessum sama stiga tvo klukkutíma á hverjum einasta degi alt liðlangt sumarið og allan næsta vetur, þangað til seint á þorra. Hann kom þangað ætíð, þegar klukkan var níu á morgnana, og fór þaðan, þegar klukkan sló ellefu fyrir hádegið. Eg tók eftir því, að þegar klukkan í turninum á pósthúsinu byrjaði að slá níu á morgnana, þá var

gamli maðurinn ekki kominn í stigann, en hann var æfinlega kominn þangað, áður en hún sló síðasta höggið. Eins var það, þegar klukkan byrjaði að slá ellefu (fyrir hádegi), þá var hann ekki farinn úr stiganum, en þegar hún sló síðasta slagið, þá var hann æfinlega horfinn. — — — Á stundum gekk eg í hámót á eftir honum, nokkurn spöl, þegar hann fór frá stiganum. Hann gekk alt af nokkuð greitt og leit hvorki til hægri né vinstri handar, og var niðurlútur, eins og hann væri að horfa eftir einhverju, sem hann hefði týnt á leiðinni til stigans. Og hann hafði æfinlega vinstri höndina í treyju-vasanum. Hann gekk alt af eftir ytri brúninni á gangstéttinni, bæði þegar hann kom og fór, og það var eins og honum stæði einhver geigur af búðargluggunum. Hann snerti með hægri hendinni hvern einasta símastaur, sem á leið hans var, en gekk út fyrir alla lampa-staura, eins og hann væri hræddur við að ganga á milli þeirra og húsanna. — Frá Hove-stræti beygði hann ætíð undir eins inn í Hastings-stræti, fór þar inn í pósthúsið, en kom út úr því aftur um dyrnar á Granville-stræti, og hélt suður eftir því, að austanverðu, þangað til hann kom að brúnni, sem liggur þar yfir *False Creek*. Þar nam hann staðar, hallaði sér fram á handriðið, skamt frá brúarsporðinum, beið þar oft nokkra stund, en var þó oftast horfinn þaðan aftur, þegar klukkan sló síðasta slagið á hádegi.

Svo liðu margir mánuðir, að eg sá þenna kynlega mann á hverjum einasta degi, ýmist í stiganum við norður-endann á Hove-stræti, eða ein-

hversstaðar á leiðinni frá stiganum og yfir á *Granville-brú*. Og einn dag var eg staddur þar á brúarsporðinum, þegar klukkan var langt gengin tólf. Eg sá þá þenna mann, eins og oftar, bíða þar skamt frá og horfa á bifreiðarnar, sem fóru yfir brúna. — En rétt í því, að klukkan var að verða tólf, kom skrautleg bifreið norðan strætið, og nam staðar, þegar hún var komin þangað, sem gamli maðurinn beið. Hann brá hendinni upp að hægri augabrúninni, á hermanna vísu, sagði eitthvað um leið, sem eg heyrði ekki hvað var, og steig svo upp í bifreiðina. En hún hélt svo áfram yfir brúna og stefndi til *Shaughnessy*-hæða.

Seint á þorra 1913 hætti eg að vinna nærri Howe-stræti, og sá þá þenna mann miklu sjaldnar úr því. Eg mætti honum samt endrum og sinnum nærri pósthúsinu, og á leiðinni suður Granville-stræti. Og alt af var hann eins, alt af eins búinn, með gráu húfuna á höfðinu, með vinstri höndina í treyju-vasanum, niðurlútur og undarlegur í öllum hreyfingum. — Svo var það einn dag snemma í desembermánuði 1915, að eg gekk út á Granville-brú, rétt fyrir hádegið, og ætlaði eg vestur yfir. Gamli maðurinn með gráu húfuna var þar fyrir, þegar eg kom. Og staðnæmdist eg þá skamt frá honum. En í sömu svipan kom bifreiðin skrautlega þar að, og nam staðar rétt hjá okkur. Tók eg strax eftir því, að maðurinn, sem stýrði bifreiðinni, var japanskur, en í aftara sætinu sat hvítur maður, þreklegur og höfðinglegur sýnum og vel búinn, og hélt hann á gull-búnum staf. Hann leit út fyrir að vera um fimtugt, og var lítið eitt far-

inn að hærast. — Maðurinn með gráu húfuna gekk strax að bifreiðinni, þegar hún stöðvaðist, brá hendinni upp að hægri augabrúninni og sagði á íslenzku:

»Skipið er ekki komið — ekki komið!«

Og um leið steig hann upp í bifreiðina, og settist við hliðina á hinum höfðinglega manni. Höfðinglegi maðurinn kinkaði ofurlítið kolli, en sagði ekkert, svo eg heyrði. — Svo þaut bifreiðin aftur af stað og stefndi til Shaughnessy-hæða.

Eg varð alveg hissa að heyra mann þenna mæla á íslenzku, því að eg hafði alt af haldið, að hann væri enskur, skozkur, eða írskur. En hverrar þjóðar sem hann nú var, þá mælti hann á íslenzka tungu, um það var eg alveg sannfærður, því að hann sagði þessi orð bæði hátt og skýrt: »Skipið er ekki komið!« Og hann endurtók tvö síðustu orðin, og lagði á þau sérstaka áherzlu.

Nokkru fyrir hádegið daginn eftir gjörði eg mér ferð yfir á Granville-brú, og beið þar eftir gamla manninum, sem hafði gráu húfuna. Og ekki hafði eg lengi beðið þar, þegar eg sá hann koma norðan strætið, og nema staðar við brúarsporðinn.

Eg gekk til hans.

»Sæll vertu!« sagði eg á íslenzku. »Ertu ekki Íslendingur?«

Hann horfði fyrst nokkur augnablik á mig, eins og hann væri að reyna til að koma því fyrir sig, hver eg væri. Og þá tók eg eftir því, að einhver undarlegur eirðarleysis-svipur var á augum hans. En þau voru blágrá og smá.

»Það geta verið skiftar skoðanir um það, hverr-

ar þjóðar að maður er«, sagði hann á íslenzku, og talaði nokkuð hátt, eins og maður sem heyrir illa. »Þó einhver mæli á spánversku, þá getur hann verið norskur eða danskur fyrir því. Og hver mundi vilja kalla þann mann íslenzkan, sem fæddur er og uppalinn í Ameríku, jafnvel þó hann skildi ekkert annað mál en íslenzku? — En skipið er ekki komið!«

»Hvað heitir þú?« spurði eg, eftir að hafa sagt honum nafn mitt.

»Það geta líka verið skiftar skoðanir um nafn manns«, sagði hann hálf-óstillingarlega og horfði norður strætið. »Mitt nafn er, til dæmis, mín eigin eign, sem enginn getur frá mér tekið. Það er mitt óðal og erfðafé — og alt, sem eg á. — En skipið er ekki komið!«

»Hvaða skip er það?« spurði eg.

»Það geta einnig verið skiftar skoðanir um skip«, sagði hann, og augu hans urðu fjörlegri en áður. »Menn eru aldrei sammála um neitt — jafnvel ekki um sólina. Í dag getum við hér í Vancouver, til dæmis, svarið það, að sólin sé á loftinu, og að hún skíni í allri sinni dýrð, en bræður okkar fyrir vestan Kyrrahafið mundu líka geta svarið það, að hún sé ekki til á loftinu. — Mitt skip er þrímastrað seglskip og kemur fyrir *Horn*. Og fyrst það kom ekki í dag, þá kemur það á morgun frá klukkan níu til klukkan ellefu fyrir hádegi. — Og það kemur með hana og börnin«.

»Er það þín kona?« sagði eg, en þó hikandi.

»Hvernig getur það verið mín kona?« sagði

hann hálf-önuglega. »Mín kona er búin að liggja í gröf sinni í rúm tuttugu og þrjú ár«.

»Jæja«, sagði eg, »fyrst það er ekki þín kona, sem þú átt von á með þessu skipi, hvers kona er það þá?«

»Þarna geta skoðanir manna orðið skiftar á ný«, sagði hann, og það var eins og honum hefði runnið í skap. »Maður getur, til dæmis, átt dóttur, og hún getur verið ekkja með börn. — Og því skyldi maður þá ekki bíða eftir skipinu, sem flytur hana og börnin frá voðanum og inn á friðarins land. — En skipið er ekki komið!«

»En eg skil þig ekki, góði maður«, sagði eg. Og eg þóttist sjá, að hann væri ekki með réttu ráði.

»Skilurðu ekki!« sagði hann og hló, eins og þegar örninn hlakkar. »Þú skilur ekki, að dóttir manns geti verið ekkja með fimm ungbörn, og að faðirþess ara ungbarna hafi verið skotinn af níðingum, með köldu blóði, fyrir augunum á þeim og móður þeirra. — Þú skilur ekki, að í *Mexicó* geti verið blóðhundar í manns-mynd, sem ræna og myrða, hvar sem þeir fara. — Þú skilur ekki, að þeir, sem mögulega geta, reyni til að flýja frá öllum þeim hörmungum og ógnum, sem þar hafa á gengið í fjórðung aldar eða meir. — Og fyrst þú skilur þetta ekki, þá er ekki von að þú skiljir í því, að eg skuli bíða eftir skipi, sem svona lengi er á leiðinni. En það kemur á morgun frá klukkan níu til klukkan ellefu fyrir hádegi!«

»Þú ert, ef til vill, frá Mexicó«, sagði eg, »og þú þekkir þá hann herra Ósófól?«

Hann hvesti á mig augun, og þau urðu ein-

kennilega hörð og fjörleg, svo mér varð hverft við.

»Hér geta verið frámunalega skiftar skoðanir«, sagði hann og næstum hvæsti. »Því að hann Ósófól getur verið svarinn óvinur eins manns, en sannur velgjörðamaður annars«.

Í sama bili sá eg að bifreiðin skrautlega, sem þessi aldraði maður hafði farið upp í daginn fyrir, kom brunandi norðan strætið, og sat japanski maðurinn í vagnstjóra-sætinu, en höfðinglegi maðurinn, með gullbúna stafinn, í hinu aftara sæti.

»Hver er þessi höfðinglegi maður í bifreiðinni?« sagði eg við manninn með gráu húfuna. »Er hann líka Íslendingur?«

»Það getur verið vafa-atriði«, sagði hann hálfþóttalega. »En hvort sem hann er íslenzkur, eða ekki íslenzkur, þá hefir hann það jafnan hugfast, að sá, sem lætur brauð sitt fara yfir hafið, finnur það aftur eftir marga daga«.

Að því mæltu gekk hann út af gangstéttinni og í veg fyrir bifreiðina. Þegar hún nam staðar, brá hann hægri hendinni upp að enninu og sagði: »Skipið er ekki komið — ekki komið!« — Svo steig hann upp í bifreiðina, og settist við hliðina á höfðinglega manninum. Og því næst héldu þeir af stað vestur yfir brúna og stefndu til Shaughnessy-hæða, eins og daginn áður. — — —

Nokkra daga á eftir gekk eg, bæði út á stigann við norður-endann á Howe-stræti, og eins út á Granville-brú, en sá nú aldrei gamla manninn með gráu húfuna, né bifreiðina skrautlegu og manninn með gullbúna stafinn. Eg hafði að líkindum óviljandi fælt þá frá þessum stöðvum.

---

# UNGFRÚ NORLAND.

## Saga frá Nýja-Skotlandi.

*(Tileinkuð »Frænku minni í skóginum«).*

---

Það var sumarið 1875, að eg fluttist með foreldrum mínum frá Íslandi til íslenzku nýlendunnar á Elgsheiðum í Nýja-Skotlandi. Eg var þá á tíunda ári. Þá um haustið sá eg í fyrsta sinn ungfrú Norland. Skírnarnafn hennar var Helga, hún var Indriðadóttir, ættuð úr Reykjavík, og hafði farið vestur um haf árið 1874, hafði verið einn vetur í Ontario, fluttist svo austur til Halifax og vann þar í vistum. Hún kom til nýlendunnar á Elgsheiðum fáeinum vikum eftir að foreldrar mínir voru seztir þar að, og hún var þar að eins tvo eða þrjá daga um kyrt, og var allan þann tíma hjá okkur. Hún sagðist engan þekkja í nýlendunni, en kvaðst hafa komið rétt til þess, að sjá samlanda sína og heyra fólk mæla á íslenzka tungu. — Hún var á að gizka um tvítugt, var há og grönn, ljóshærð, með blágrá augu, nokkuð langleit og hálslöng og ekki verulega fríð sýnum, en hún bauð af sér, þrátt fyrir það, mikinn yndisþokka. Málrómur hennar var þýður, og það var eins og fólk veitti því sérstaka athygli, sem hún sagði.

Þá daga, sem ungfrú Norland var hjá okkur um haustið 1875, var hún iðulega á gangi um skóginn kringum húsið, og var eg þá oft með henni. Hún leiddi mig, og var alt af að tala við mig um það, hvað skógurinn væri fagur, en þó jafnframt ægilegur — skuggalegur — dularfullur.

»Farðu aldrei einn út í skóginn á meðan þú ert ekki fermdur«, sagði hún við mig einu sinni.

»Því þá?« sagði eg.

»Það býr svo margt í skóginum, sem tælir börnin lengra og lengra inn í myrkviðinn, þangað til þau villast«.

»Er það huldufólk, sem býr í skóginum?« spurði eg.

»Já«, sagði hún, »en huldufólkið í skóginum tekur á sig allskonar gerfi. Það er stundum eins og fögur blóm, og á stundum eins og söngfuglar, eða falleg rádýr, sem leika sér um runnana«.

Eg man, að eg leit í kringum mig.

»Vertu ekki hræddur«, sagði hún. »Huldufólkið er gott í sjálfu sér. En mensk börn, ófermd, mega ekki með álfum búa. — Hugsaðu þér að trén, sem eru í kringum húsið, sé fólk í álögum«.

»Fólk í álögum?« sagði eg, og tók í höndina á ungfrú Norland.

»Já, við getum hugsað það. Þarna er, til dæmis, stórt beykitré«. Hún benti á tré, sem var þétt við húsið. »Eg ætla að ímynda mér, að það sé köngsdóttir í álögum. Og viltu þá gjöra það fyrir mig, að höggva ekki í tréð?«

»Mundi það þá finna til?«

»Já, auðvitað, ef það er köngsdóttir í álögum.

Og kóngsdóttirin mundi þó líða enn þá meira, ef hún sæi þig fara einan um skóginn. Viltu lofa því, að fara aldrei einn lengra inn í skóginn en að þessu tré?«

»Já, eg skal lofa því«, sagði eg.

»Þú ert góður drengur«, sagði hún. »Eg ætla að treysta þér«. Og hún kysti mig um leið og hún sagði það. Og mér fanst kossinn vera sætur — ljúfur — seiðandi — og skilja eitthvað eftir hjá mér, eitthvað, sem eg þó ekki vissi, í hverju var fólgið. — En upp frá því langaði mig til að fylgja ungfrú Norland, hvert á land sem væri.

Og þegar hún var aftur farin til borgarinnar, þá hugsaði eg oft til hennar. Og næsta sumar, þegar skógurinn skaut út laufi, þá sat eg oft undir beykitrénu og hallaði mér upp að því og lét mig dreyma ljúfa dagdrauma um fríða og góða kóngsdóttur í álögum. Og alt af fann eg til áhrifa kossins, sem ungfrú Norland gaf mér, og þó sérstaklega, þegar eg sat undir trénu. Og langur tími leið áður en eg vogaði að fara einsamall út í skóginn.

En svo var beykitréð höggvið einn dag, þegar eg var í skólanum; og það var sagað niður í búta, í eldinn. — Þá fanst mér alt dauflegra á eftir um langt skeið. Og eg sat oft hnugginn við stofn trésins og hugsaði til ungfrú Norland; og mig dreymdi nú enn meiri dagdrauma en áður — suma hálfdapurlega og blandaða söknuði, en alla þó töfrandi og seiðandi.

— — —

Svo kom frænka mín með foreldrum sínum frá Íslandi. Hún var einu ári yngri en eg, og var fall-

eg stúlka og gáfuleg, og eg unni henni strax hugástum sem elskulegri systur. Við lékum okkur saman, og hlupum um skóginn og sögðum hvort öðru sögur af huldufólki og kóngsbörnum í álögum. — Einu sinni, stuttu eftir að hún kom að heiman, átti eg að fara út í skóginn til að sækja kýrnar. — »Komdu með mér«, sagði eg við frænku mína.— »Ertu hræddur að fara út í skóginn ?« spurði hún. — »Eg er hræddur að fara einsamall«. — »Ertu hræddur um að þú villist ?« — »Nei, eg rata um allan skóginn«. — »Við hvað ertu hræddur ?« — »Við huldufólkið í skóginum«. — Þá tók frænka mín í hönd mér og við hlupum út í skóginn, leituðum að kúnum og sögðum hvort öðru álfasögur.

— — —

Svo var það eitt haust, að ungfrú Norland kom til nýlendunnar á ný. — Þá var eg orðinn fjórtán ára gamall, og frænka mín þrettán. — Og ungfrú Norland dvaldi í húsi okkar þrjá eða fjóra daga, eins og í fyrra skiftið, sem hún kom. Og strax fyrsta kvöldið bað hún mig og frænku mína að ganga með sér út að litlu vatni, sem var skamt frá húsinu. Og þegar við vorum að leggja af stað frá húsinu, tók hún (ungfrú Norland) eftir því, að búið var að fella beykitréð. Hún nam staðar, og horfði ýmist á mig eða téstofninn, og augu hennar urðu hvöss og ásakandi. — »Það var ekki eg, sem feldi það«, sagði eg. — »En eg bað þig að vernda það«, sagði hún. — »Mér var það ómögulegt«, sagði eg. — »Það var kóngsdóttir í álögum«, sagði ungfrú Norland eftir litla þögn.

Og við lögðum öll af stað út að vatninu. Eg

ætlaði að taka í hönd ungfrú Norlands og leiða hana. En hún vildi ekki taka í hönd mína. Og í hvert sinn, sem eg ætlaði að ganga við hlið hennar, þá hindraði hún það með einhverju móti. Og það atvikaðist einhvern veginn þannig, að frænka mín var alt af á milli mín og hennar, hvort sem við vorum á gangi eða vorum um kyrt, sátum eða stóðum. — Og eg fann að ungfrú Norland eins og forðaðist mig, en vildi þó, að eg væri alt af með sér og frænku minni. Og eg hélt endilega, að það kæmi til af því, að tréð hafði verið felt — að hún kendi mér um það — en ekki af því, að eg var nú fjórtán ára gamall og fermdur.

Síðasta daginn, sem hún dvaldi í nýlendunni, gengum við þrjú út að vatninu og fram með því um hríð. Loksins námum við staðar við stóran stein og settum okkur niður. Ungfrú Norland horfði inn í skóginn um stund og var hugsi.

»Þetta er einkennilegt land«, sagði hún alt í einu, »ekkert nema myrkviður og stórgrýti. Íslendingar verða hér aldrei lengi«.

»Því þá?« sagði eg.

»Þeir geta ekki lifað hér til lengdar. Enginn lifir á grjóti og mosa«.

»En það getur verið gull í steinunum«, sagði eg gletnislega.

»Já, það má vel vera«, sagði hún. »Steinninn sá arna getur verið höll álfadrotningar, og þá er þar nóg gull. Og ef eg gæti komist þangað, þá liði öllum Íslendingum vel úr því. Eg skyldi gjöra þá alla efnaða. — Er það ekki óttalegt að hafa ekki

nóg af öllu, þar sem svo mikið er til af gæðum í heiminum«.

»Ef þú yrðir drotning«, sagði eg, »myndir þú þá muna eftir fátæka fólkinu?«

»Eg mundi reyna að gjöra þeim gott, sem þyrftu þess með«.

»Ef þú verður drotning«, sagði eg, »þá gjörðu mig að skrifara þínum og settu frænku mína yfir allar þernurnar í höllinni þinni«.

»Já, það skal eg gjöra«.

»Og viltu gefa mér hönd þína upp á það?« sagði eg.

»Já, eg skal glöð gefa hönd mína því loforði til staðfestingar«.

Og hún rétti fram höndina, en hún rétti mér hana ekki, heldur frænku minni.

»En setjum nú svo«, sagði eg, »að þú yrðir ekki drotning, heldur bara auðug kona. Mundi þá þetta loforð þitt gilda?«

»Alveg eins«, sagði ungfrú Norland.

»Gefðu mér þá þína hægri hönd upp á það«.

Hún rétti frænku minni höndina þegjandi. Svo héldum við heim og töluðum fátt.

Næsta dag kvaddi hún okkur og kom aldrei framar í íslenzku nýlenduna á Elgsheiðum.

— — —

Svo liðu tvö ár. — Eg var kominn á seytjánda árið, og frænka mín á hið sextánda. Þá var það einn dag síðla sumars, að roskinn maður af enskum ættum kom til nýlendunnar og færði okkur bréf frá ungfrú Norland. Var það efni bréfsins, að hún kvaðst geta útvegað mér og frænku minni

góða atvinnu næstkomandi vetur. Og ef við vildum taka því boði, áttum við að láta bréfberann vita það, og áttum að vera komin til Halifax þann 21. dag septembermánaðar. — Við tókum þessu boði með þökkum, því að við vissum, að það mátti treysta ungfrú Norland í öllu til hins bezta og reiða sig á það, sem hún sagði. — Frænka mín skrifaði henni nokkrar línur með manninum, sem kom með bréfið, og sagði að við yrðum að öllu forfallalausu komin til Halifax þann 21. september.

Og þann 20. september lögðum við frænka mín af stað úr nýlendunni, og ætluðum að ná til næstu járnbrautarstöðvar þá um kvöldið, en við náðum ekki þangað fyr en næsta dag, sökum þess, að maðurinn, sem flutti okkur þangað, hafði seinfæra hesta, en vegurinn slæmur. Komum við því ekki til Halifax fyr en 22. september.

Ekki vorum við fyr komin út úr lestinni (þegar til Halifax kom), en ökumaður nokkur ávarpaði okkur og spurði, hvort við værum ekki frá íslenzku byggðinni á Elgsheiðum og værum á leið til ungfrú Norland. Og þegar við höfðum játað því, vísaði hann okkur til sætis í léttivagni (*cab*), sem þar stóð örstutt frá, og ók með okkur í einu vetfangi suður fyrir borgina, að húsi sem stóð þar við lítinn vog, er skerst inn í nesið, er borgin stendur á.

Þetta hús var allstórt og mjög einkennilegt. Það var gamalt, úr gráum steini, og voru fimm gaflar á því. Og það leit út eins og lítil kirkja, langt til að sjá. Í kringum það var grjótgarður, og var stórt

hlið á honum, þeim megin, sem að sjónum vissi. Á bak við húsið, innangarðs, voru tvö hundruð eplatré. Þar var líka dálítil hlaða, og geymsluhús rétt hjá. En fyrir framan húsið voru nokkur afarstór álmtré og fagrir blómreitir, og á milli blómreitanna lágu breiðar malar-götur fram og aftur. Alt bar vott um það, að þetta væri höfðingjasetur.

Ökumaðurinn nam staðar við hliðið á grjótgarðinum. Þar var ungfrú Norland fyrir og tók á móti okkur með fögnuði, og bauð okkur margvelkomin. — Hún faðmaði frænku mína að sér og kysti hana heitt og innilega, og kvaðst hafa beðið eftir henni í marga daga. Og þegar hún hafði lagt pening í lófann á ökumanninum, og hann lagður af stað aftur inn í borgina, þá fylgdi hún okkur heim í húsið og færði okkur kaffi og brauð, því að það var um dagmálaskeið, og við höfðum ekkert borðað um morguninn.

Eftir því tók eg strax, að ungfrú Norland var venju fremur föl í andliti og þreytuleg, og hún talaði lágt og seint, og fór að öllu með mestu hægð. Hún var í dökkum búningi og hafði svarta perlufesti (talnaband) um hálsinn, og hékk við festina dálítill kross úr fílabeini.

Strax fyrsta daginn, sem við frænka mín vorum í þessu húsi, fór okkur að gruna, að ungfrú Norland væri að einhverju leyti húsráðandi þar, og að húsbændurnir væru fjarverandi, því að hún sagði tveimur rosknum konum, sem þar voru, fyrir verkum, og eins öldruðum manni, sem hirti um garðinn. Og það leyndi sér ekki, að þau báru

öll djúpa lotningu fyrir henni. En sjálf virtist hún ekki vinna nein húsverk.

Frá því fyrst, að frænka mín kom þangað og til þess, að hún fór þaðan um vorið eftir, þá mátti heita að hún væri öllum stundum með ungfrú Norland. Hún svaf í sama herbergi, fór með henni inn í borgina, næstum á hverjum degi, og gekk með henni um garðinn og ofan að sjónum kvölds og morgna. Eg sá þær sitja á veggsvölunum, einn og tvo klukkutíma í senn, þegar gott var veður. Og það bar við, að eg sá þær reika um garðinn um miðjar nætur, þegar alt var kyrt og tunglsljós var á. Og það var aldrei (eða mjög sjaldan) þann vetur, að eg gæti talað við frænku mína, án þess að ungfrú Norland væri viðstödd.

Undir eins fyrsta daginn spurði eg ungfrú Norland að því, hvaða starf það væri, sem hún hefði útvegað mér. Hún sagði að það væri ritstörf, en að það mundu líða nokkrir dagar, þangað til að eg gæti byrjað, og að eg skyldi bíða rólegur. — Eg hafði stórt og rúmgott herbergi út af fyrir mig. Það var uppi á lofti, og gluggarnir vissu að sjónum. Og álmtrén teygðu limarnar upp á þakið. Það sást langt út á fjörðinn, og eins fram á veginn, sem lá frá hliðinu á grjótgarðinum. Og sömuleiðis sást frá þeim gluggum, ef einhver gekk frá hliðinu og heim að húsinu.

Fyrsta daginn gjörði eg mjög lítið, nema ganga fram með sjónum, og eins skoðaði eg hvern krók og kima í garðinum. Eg gat mig á tal við aldraða manninn, sem hirti garðinn. Hann hét Davíð Prest, lágur maður vexti, glaðlegur í viðmóti og spaug-

samur. Önnur konan, sem vann húsverkin, var konan hans, en hin var systir hennar. Og eg komst að því síðar um veturinn, að þau voru búin að vera þarna rúmt hálft ár.

Davíð Prest var oftast úti við, var alt af að hugsa um garðinn, alt af að lagfæra og bæta eitt og annað. Fyrst þegar eg sá hann, kom hann út úr geymslukofanum með körfu í hendinni og tók að tína upp epli, sem dottið höfðu af trjánum og lágu í grasinu hér og hvar. Eg gekk til hans og heilsaði honum, og tók hann kveðju minni kurteislega.

»Ert þú húsbóndinn hérna?« spurði eg, og fór að tína upp eplin með honum.

»Sýnist þér eg þesslegur?« sagði hann og brosti.

»Já«, sagði eg. »Mér sýnist þú vel geta verið eigandi þessa húss«.

»Þar skjátlast þér«, sagði hann.

»Ertu þá bara vinnumaður hér?« spurði eg.

»Meiri líkindi eru til þess«, svaraði hann.

Eg sagði honum nú hvað eg héti, og að eg ætti heima norðaustur á Elgsheiðum, og að eg væri Íslendingur. Eg hélt endilega að honum myndi þykja það markverð tíðindi, og bjóst við að hann færi að spyrja mig um Ísland og Íslendinga. En því fór fjarri. Hann spurði einskis. En hann fór að segja mér sögur frá æskuárum sínum, þegar hann var á bjarndýraveiðum upp með Tangierfljóti.

»En hvað heitir húsbóndinn?« sagði eg, þegar hann hafði lokið sögunni.

»Hvaða húsbóndi?«

»Nú, húsbóndinn hérna — sjálfur eigandinn? Hvað heitir hann«?

»Veiztu það ekki?« sagði hann og horfði á mig.

»Nei, eg veit það ekki«, sagði eg, »eg er hér alveg ókunnugur«.

»Eg skal segja þér nokkuð«, sagði hann og tók upp körfuna, sem nú var full af eplum, »fyrst þú veizt það ekki, hver hér er hæstráðandi og eigandi þessa höfðingjaseturs, þá vil eg ráðleggja þér að spyrja ungfrú Norland um það«. — Og Davíð Prest brosti mjög góðlátlega, bar körfuna inn í geymsluhúsið, kom út aftur að vörmu spori og fór að segja mér nýja, eftirtektarverða sögu um bjarndýraveiðar norður í Cobequid-hálsum. En flestar sögur hans enduðu þannig, að bangsi slapp ómeiddur.

Það var einn morgun, skömmu eftir að eg kom í húsið við voginn, að eg sá að lítill bátur kom að landi örstutt frá hliðinu á grjótgarðinum. Eg sá að maður gekk á land og staðnæmdist við hliðið. Hann tók eftir mér, þar sem eg var á gangi eftir malargötunum, og benti mér að koma. Eg hlýddi undir eins og gekk til hans. Hann var á að gizka um þrítugt, meðalmaður á vöxt og bar sig vel, var fríður sýnum, með kolsvart hár hrokkið, og fallegt efrivararskegg. Hann var í gráum fötum, sem fóru honum sérlega vel. Og hann hafði svart band um vinstri handlegginn fyrir ofan olnbogann. Og þóttist eg vita, að hann hefði nýlega orðið fyrir sárum ástvinamissi. Hann bauð mér góðan dag, mjög alúðlega, og það var angurværð í rödd hans. — Eg ætlaði undir eins að opna hlið-

ið fyrir hann, því að eg bjóst við, að hann vildi fara heim að húsinu, en hann sagðist ekki ætla að fara lengra að svo stöddu.

»Er ungfrú Norland heima?« spurði hann.

Eg sagði að hún væri heima.

»Ertu frændi hennar?« var næsta spurning hans.

»Nei«, sagði eg, »en eg er samlandi hennar«.

»Eg heiti Frank Ferguson«, sagði hann og tók bréf úr vasa sínum um leið, »og eg er góður vinur ungfrú Norlands. Eg þarf út af lífinu að koma þessu bréfi til hennar og fá svar. Viltu gjöra mér þann greiða, að fara með það til hennar? Eg bíð hér þangað til þú kemur aftur með svarið«.

»En því viltu ekki sjálfur fara heim með bréfið og tala við hana?« spurði eg.

»Af gildum og ónefndum ástæðum fer eg ekki inn fyrir þetta hlið, fyr en ungfrú Norland hefir svarað bréfinu«.

Eg tók við bréfinu, fór heim í húsið og fékk ungfrú Norland það. Hún leit á skriftina á umslaginu, og eg sá að hún varð dreyrrauð í framan.

»Hver fékk þér þetta bréf?« spurði hún.

Eg sagði henni að maður að nafni Frank Ferguson hefði fengið mér það.

»Hvar fanstu hann?« spurði hún.

»Við hliðið á garðinum«, svaraði eg, »og hann bíður þar eftir svari«.

»Farðu með bréfið aftur til hans«, sagði hún, og rétti mér það aftur óuppbrotið.

»Er það þá ekki til þín?« sagði eg.

»Það er að vísu til mín«, sagði hún, »en eg neita að veita því móttöku. Það er mitt svar. Segðu honum það«.

Eg fór svo aftur með bréfið til hins unga manns, sem beið við hliðið. Hann tók þegjandi við því og var bersýnilega mjög hnugginn. Hann spurði einskis, og eg sagði honum því ekki, hvað ungfrú Norland hefði sagt. — Hann gekk með mestu hægð að bátnum, án þess að segja orð við mig, ýtti honum frá landi, settist undir árar og réri út á fjörðinn og yfir um til Dartmouth.

Þetta var í eina skiftið, sem eg talaði við Frank Ferguson, en eg sá hann oft og einatt um haustið, því að hann kom iðulega á bát sínum yfir fjörðinn og gekk á land nálægt þessu húsi, og eg sá hann stundum á reiki fyrir utan hliðið á grjótgarðinum. Og æfinlega sýndist mér hann niðurlútur og hnugginn.

— — —

Það var komið fram í októbermánuð, þegar eg tók til starfa. Eg byrjaði á því, að búa til skrá yfir hart nær tvö þúsund bækur, sem geymdar voru í vönduðum skápum í stóru herbergi nálægt aðaldyrum hússins. — Skrifaði eg (eftir stafrofsröð) nafn hverrar bókar og nafn höfundar, og einnig hvar og hvenær bókin var prentuð. Var því starfi lokið fyrir jól; og var bókunum síðan raðað í stóra kassa og þeir sendir til Englands stuttu eftir nýárið. — Ungfrú Norland var mjög umhugað um það, að verk þetta væri vel af hendi leyst; og hún leit yfir það að kvöldi, sem eg gjörði á daginn, og bað hún mig að vanda skriftina sem mest og fara mér hægt.

Undir eins upp úr nýárinu byrjaði eg á því, að raða bréfum og skjölum (eftir aldri) í stór hulstur, sem til þess voru gjörð. Voru bréfin í stórri kistu í bókhlöðunni (sem líka hafði verið notuð sem skrifstofa), og skiftu þau hundruðum, og sum þeirra voru um fimtíu ára gömul, eða eldri. Og þar voru ársreikningar og kvittanir, sem líka skiftu hundruðum. — Flest voru bréfin frá lögfræðingafélagi, sem nefndist Campbell & Lawson (og síðar Campbell, Lawson & Clarke), öll voru þau stíluð til manns, sem hét Malcolm Archibald og var um eitt skeið skipstjóri, og öll (eða flest) voru þau áhrærandi arf, sem ein kona og tveir menn (aðrir en Archibald) höfðu gjört tilkall til. En síðustu bréfin sýndu, að Archibald hafði orðið hlutskarpastur. Tekjur hans af fasteignum og stórhýsum (eingöngu) árið 1881 voru að upphæð £ 8000.00, eftir því sem reikningar lögfræðinganna sýndu. Síðasta bréfið frá Campbell, Lawson & Clarke til Archibalds var dagsett í marzmánuði 1882. Í því bréfi tilkynna þeir honum, að þeir hafi þegar selt fyrir hann marghýsið á Grafton-stræti, og sömuleiðis minnast þeir á erfðaskrá hans, sem hann var þá nýlega búinn að semja og fá þeim til geymslu. — Við það að yfirfara þessi bréf og reikninga, og raða þeim, var eg í fulla tvo mánuði.

Líka skrifaði eg nokkur bréf fyrir ungfrú Norland, og var eitt þeirra til Frank Ferguson. Sagði hún (í bréfinu), að svar sitt við öllum hans bréfum væri það, *að hún vildi aldrei framar sjá hann né heyra*. — »Eg er dóttir Fjallkonunnar í Norðurhöfum«, sagði hún, »og engin dóttir Fjallkon-

unnar lætur neinn mann svikja sig tvisvar«. — Annað bréf skrifaði eg fyrir hana til konu nokkurrar, sem hét Isabel Grant og átti heima í Montreal. Í því bréfi sagði hún: »Eg gleymi því aldrei, hvað þú varst góð við mig, þegar eg var fátæk og einmana .... Eg hefi þegar beðið lögmanninn minn að senda þér eignarbréf fyrir húsinu, sem þú áttir svo lengi heima í hér í Halifax, því að eg veit að þú þráir að koma hingað austur aftur, fyrst alt fór svona vel á endanum. Hér fylgir dálítil bankaávísun, sem eg vona að þú þiggir af mér«.

Eftir að eg skrifaði þetta bréf fyrir ungfrú Norland, fór eg að hugsa að skeð gæti, að hún væri eigandi hússins, sem hún var nú í. En með hvaða hætti hún hafði eignast það, var mér auðvitað mikil ráðgáta.

— — —

Um páskaleytið lét ungfrú Norland okkur frænku mína vita, að hún þyrfti okkar þjónustu ekki við lengur. Hún leysti okkur út með góðum gjöfum, (þar á meðal var ágætur klæðnaður), og hún lagði tvö hundruð dollara í lófann á hvoru okkar að skilnaði, en það var mikið fé á þeim dögum. Og þegar hún kvaddi okkur á járnbrautarstöðinni í Halifax, sá eg að augu hennar flutu í tárum.

Á leiðinni heim töluðum við frænka mín margt um þessa ágætu velgjörðakonu okkar, því þó kynlegt megi virðast, þá höfðum við aldrei allan veturinn getað talað saman, án þess að aðrir heyrðu. — En frænka mín vissi mikið meira um ungfrú Norland, heldur en eg. Ungfrú Norland sjálf hafði

sagt henni sumt, og sumt hafði kona Davíðs Prest sagt henni.

»Ungfrú Norland hefir reynt margt og mikið«, sagði frænka mín, »og er orðin fjarskalega taugaveikluð og undarleg. Fyrir tveimur árum tókst hún það starf á hendur, að stunda sjúkan mann, háaldraðan, sem hét Malcolm Archibald, hann var ókvæntur, en bjó í húsinu við voginn, og gekk mjög illa að halda vinnuhjú, því að hann var geðstyggur og örkumlaður. Vinir hans voru fáir, og hann átti í deilu við þrjú nánustu skyldmenni sín út af arfi. En fáum mánuðum áður en hann dó bar hann sigur úr býtum í því máli, og varð alt í einu stórauðugur. Þá lét hann búa til erfðaskrá sína og arfleiddi ungfrú Norland að öllum eigum sínum (löndum og lausafé), því að hún reyndist honum eins og bezta dóttir. Samt var það bundið einhverjum skilmálum, sem eg veit ekki hverjir voru, en það má vel vera að þeir hafi verið í sambandi við trúmál, því að Archibald var katólskur, og ungfrú Norland hefir sótt katólska kirkju í allan vetur. — Hún hefir haft miklar og þungar áhyggjur með köflum. Stundum sagði hún við mig: »Er það rétt gjört af mér, að þiggja þenna mikla auð, þar sem eg hefi ekkert til hans unnið, en þrjú skyldmenni Archibalds aldurhnigin og öreiga? Væri ekki réttast, að eg skilaði öllu til þeirra?« — Og einu sinni sagði hún: »Eg ætti að yfirgefa alt og ganga í klaustur, eða fara heim til ættjarðarinnar«. — Og svo var annað, sem þreytti hana og gjörði hana órólega. Hún hafði verið trúlofuð áður en hún varð hjúkrunarkona Malcolms Archi-

balds. En pilturinn brá heiti við hana, þegar hún tókst það starf á hendur, og hann gekk að eiga unga leikkonu, sem dó fáum mánuðum eftir að þau giftust. Strax og hann vissi, að Archibald var dáinn og ungfrú Norland var orðin stórauðug, vildi hann umfram alt ná ástum hennar á ný og ganga að eiga hana. En hún hefir ekki viljað heyra hann né sjá, og samt gæti eg trúað því, að henni þyki vænt um hann enn. Þessi maður heitir Frank Ferguson og á heima í Dartmouth. — Og þetta er alt, sem eg veit um þetta mál«.

»En hvað var það eiginlega, sem ungfrú Norland lét þig gjöra í allan vetur?« sagði eg nokkru síðar.

»Eg gjörði aldrei neitt í allan vetur«, sagði frænka mín. »Ungfrú Norland sagði að eg ætti að vera sér til skemtunar, því að sér leiddist óttalega mikið. Og eg var þess vegna með henni nótt og dag. — En veiztu ekki, í hvaða skyni það var, að hún bað okkur að koma?«

»Til þess, auðvitað«, sagði eg, »að þú værir henni til skemtunar, og eins til þess, að eg skrifaði fyrir hana«.

»Nei«, sagði frænka mín, »hún gjörði það eingöngu til þess, að geta á einhvern hátt efnt það, sem hún lofaði að gera fyrir okkur, þegar við stóðum við steininn forðum«.

Og eg og frænka mín þögðum langa stund.

— — —

Seint í júnímánuði þetta sama ár lagði eg af stað alfarinn vestur til Winnipeg, og keypti eg farbréfið í Halifax. Um leið gekk eg yfir að húsinu

við voginn, og ætlaði endilega að kveðja ungfrú Norland. En þegar eg kom þar, var þar alt annað fólk fyrir, jafnvel Davíð Prest og kona hans og tengdasystir voru farin burtu fyrir rúmum mánuði. Hét sá Angus Archibald, sem nú var eigandinn og réð þar öllu. Kvaðst hann ekkert vita, hvert ungfrú Norland hefði farið, en gat þess til, að hún væri komin til Norðurálfunnar.

---

# EFNISYFIRLIT

